# FORMÁLI.

*Víðast þar, sem eg hefi verið hèr á landi, hefir mèr virðst, að allur þorri almenníngs væri mjög gefinn fyrir alls konar fróðleik, einkum sagnafræði, og þá, eins og eðlilegt er, helzt þá, er snertir land vort; líka hefir mèr og virðst, að margir alþíðumenn hefði mikið gaman af, að hnýsast í lög; hefir og alþýða hèr á landi jafnan haft það orð á sèr, að hún væri betur að sèr og fróðari, en alþýða er í mörgum öðrum löndum. Nú hefir mèr og ávallt fundist, að það bæði hlyti að vera skylda og gaman fyrir hvern þann, er findi hjá sèr nokkurn styrk til þess, að efla almenna uppfræðíngu, að því er honum unnt væri.*

*Sökum þessa lèt eg í fyrra sumar prenta boðsrit, er eg sendi flestöllum prestum og einstöku leikmönnum, þess efnis, að eg vildi gefa út tímarit nokkurt, ef eg fengi svo marga kaupendur, að eg yrði skaðlaus; skyldi tímarit þetta hafa meðferðis: 1. stuttar ritgjörðir um eitt og annað í lögum vorum. 2. landamerkjaskjöl fyrir jörðum. 3. máldaga fyrir kirkjum. 4. einstöku landsyfirrèttardóma einkum í einkamálum. 5. smá ritgjörðir um ýmislegt í sögu vorri, þar á meðal sýslumannatöl, prestatöl, o. s. frv. 6. ýms forn brèf og dóma, er fræðandi væri um sögu vora og fornar venj-*

*ur, og 7. ættir nú lifandi embættismanna og heldri manna, einkum karlleggina, o. s. frv. Skyldi ritið koma út í 3 eða 4 heptum um árið, og í hverju hepti vera 3. 4 eða 5 arkir, og örkin kosta að eins 6 sk.; hugsaði eg nú, að rit þetta yrði að vera alþýðu kærkomið.*

*En annaðhvort er það, að löngun alþýðu eptir þessum fróðleik er minni en eg hafði hugsað, eða þá sem líklegra er, að hún heldur að það sè eigi mikils fróðleiks að vænta af mèr í þessu efni, og játa eg fúslega, að eg er lángtum ófróðari bæði í þessu og öðru enn eg vildi; eða þá hið þriðja, að sumir þeirra, er eg sendi boðsritin, hafa eigi nennt, að vera að gjöra sèr það ónæði, að sýna mönnum þau, því eg hefi valla fengið alls 300 áskrifendur, sem er lángtum of lítið til þess eg geti verið skaðlaus, þar eð prentun og einkum útsendíng bóka hèr á landi er svo kostnaðarsöm.*

*En með því þó að þeir fáu leikmenn, er eg sendi boðsritin, hafa því nær allir útvegað mèr lángtum fleiri áskrifendur, en eg gat vænst, og eins prestar þeir er fróðleik unna, hafa útvegað mèr nokkra kaupendur, hefi eg ráðist í, að láta hepti þetta út koma, sem sýnishorn upp á það, hvernig ritið mundi verða, í þeirri von, að kaupendur kunni að fjölga, ef mönnum geðjast að ritinu; en fjölgi kaupendur eigi, og ritið eigi gángi út, svo að eg af því að eins hafi skaða og tímatöf, þá vona eg, að enginn lái mér, þó eg hætti við það.*

*Eg skal nú gjöra litla grein fyrir því, er nú ar*

*í ritinu, og er þar þá 1. ritgjörð um alþíngistollinn, er enda ætti í næsta hepti. Það getur verið, að summum þyki ritgjörð þessi lèttvæg, því að hún nái eigi til sín; og eins kunna þeir að hafa annað álit um það málefni, en þar er framfylgt. En að því er fyrra atriðið snertir, þá er í raun og veru engin sú grein til í lögunum, er lèttvæg sè, og eigi sè betra, að skoðuð sè rækilega, og er þetta eigi síst, er um ný útkomin skattalög er að ræða; vona eg og, að ef seinni hluti ritgjörðar þessarar kemur út, þá muni margir verða að játa, að hann geti snert sig. Og hvað hitt áhrærir að aðrir kunni að hafa annað álit um þetta mál, en eg, þá getur ritgjörð þessi þó ætíð orðið orðsök til þess, að þeir fari að skýra mönnum frá því áliti sínu.*

*2. Annar kaflinn er um ættartölur þíngmanna árið 1867. Þar eru raktir karlleggirnir frá lángöfum og lángömmum upp eptir, að því mèr hefir verið unnt. Í þessu hepti komst eg að eins yfir ætt konúngsfulltrúans og hinna konúngkjörnu; þessu yrði haldið áfram í næstu heptum og síðan teknar fyrir ættir embættismanna og annara merkra manna, að því mèr auðið verður. Ættartölur þessar verða að vera nokkuð þurrar, því rúmið í slíku riti sem þessu, leyfir eigi að ættirnar sèu raktar lengra út, eða að minnst sè á lítið meira en näfnin; enda geta þeir, er vilja, skrifað ættir sínar upp eptir þessu, aukið þær ef þeir verða þess færir, og skýrt þar frá því, er þeir vita um forfeður sína. Ef mèr auðnasi að halda riti þessu nokkuð lengi áfram, vildi eg byrja á landnámsmönnum þeim, er*

*menn nú á dögum geta rakið ættir sínar til, taka síðan hverja öld fyrir sig, og rekja ættirnar samhliða niður gegnum hana, og bæta þar við ættum þeim, er í öldinni byrjuðu, þó ætti þetta eigi að ná nema yfir merkustu ættkvíslirnar; með þessu sæist bezt, hverjir merkismenn hefði verið samtíða uppi, og hvernig ættirnar hefði kvíslast saman. Byrjunin yrði að vera ófullkomin mjög, en það væri síðan hægra að bæta það og fylla í skörðin.*

*3. Síðan koma í heptinu nokkur landamerkjabrèf, og hirði eg eigi að tala um þau meira; allir vita, hve áríðanda það er, að vera eigi í villu um landamerki jarða sinna. Brèf þessi eru með öllu prentuð orðrètt og með sömu stafsetníngu, og þau, er þau eru prentuð eptir; böndin hefi eg þó orðið að uppleysa, því hèr eru þau eigi til.*

*4. Fjórði hlutinn er byrjun sýslumannatals hèr á landi; er það eptir Boga Benidiktsson, er var á Staðarfelli; hann var eigi með öllu búinn að gánga frá þessu riti sínu, er hann dó. Eptir að hann var búinn að hreinskrifa það, hefir hann seinna gjört ýmsar athugasemdir við það hèr og hvar út á röndinni; eru þær sumar viðaukar, sumar breytíngar á því, er stendur í ritinu sjálfu, sumar endurtekníng af því, er þar stendur annarstaðar. Þetta er mjög fróðleg bók. Eg hefi nú tekið upp í ritið athugasemdir þessar, að því mèr hefir verið unnt, og ætla að halda því áfram, ef mèr auðnast að gefa það út, en til þess að geta fellt þetta saman, hefi eg sumstaðar orðið að víkja lítið eitt*

*við orðunum. Eg hefi leyft mèr, að gjöra neðanmáls nokkrar skýríngar og athugasemdir, þar sem mèr hefir þótt henta, og því ætla eg mèr að halda áfram.*

*5. Þar eptir kemur byrjun hinna fullgiltu kirknamáldaga Hólabiskupsdæmis, og verður þeim haldið áfram, verði ritinu framhaldið. Eg vona, að allir áliti þetta nauðsynja verk, og því fremur, sem máldagarnir við biskupsdæmið eru farnir að trosna mjög og fúna. Við biskupsdæmið eru tvö eptirrit af máldagabókunum fyrir Hólabiskupsdæmi; er annað þeirra ritað árið 1639, en hitt ár 1645, og er hvorttveggja ritað eptir frumritunum, en sá er munur á þeim, að hið seinna er staðfest af tveim skilríkum mönnum, en hið fyrra er óstaðfest. Það er auðsèð, að þau bæði eru rituð með hinni mestu nákvæmni, en þó er stafsetníngin á þeim nokkuð mismunandi, og hafa þau líklega hvorigt fylgt stafsetníngu frumritanna; þó hafa þau, þar sem frumritin hafa haft einhverja frábreytilega stafsetníngu á einhverju orði, tekið hana upp. Hèr er orðrètt prentað eptir seinna eptirritinu og með þeirri stafsetníngu, sem þar er, nema hvað böndin eru leyst. Eg kalla þetta eptirrit A, en hitt B. Frá orðamun er sagt neðanmáls.*

*6. Seinasta ritgjörðin í hepti þessu, er eptir ýngismann nokkurn, er heitir Brynjólfur Jónsson og heima á á minna Núpi í Gnúpverja hreppi í Árness sýslu. Ritgjörð þessi er prentuð með öllu, eins og hún er komin frá höfundinum, og vona eg, að hverjum manni þyki hún sèrlega fróðleg. Hún lýsir því bezt, hversu*

*sumir bændamenn hèr á landi enn þá eru ágætavel að sèr, og hversu þeir geta ritað bæði ljóst og skipulega. Ritgjörð þessi er hèr valla hálfnuð, en verður enduð í næsta hepti, verði ritinu haldið áfram.*

---

## LEIÐRÈTTING.

Páll prestur Ólafsson, faðir Ólafs prófasts Pálssonar, bls. 30, var prestur til Guttormshaga, er hann drukknaði 1823.

---

# I.

## *Nokkrar athugasemðir um alþíngistoll þann, er lagður er á jarðagózið hèr á landi.*

Alþíngistollurinn var fyrst lagður á landið með opnu brèfi 18. júlí 1848, og eru 3 hlutir hans lagðir á jarðagózið, en hinn fjórði á lausafjártíundar hundruðin, þó undantók lagaboðið frá álögu þessari, lènsjarðir presta, kirkjujarðir og spítala og þær jarðir aðrar, er til guðs þakka eru lagðar; jarðirnar eiga að bera þessa þrjá hluti tollsins þannig, að honum á að jafna niður á þær eptir leigumála þeirra. Með opnu brèfi 2. marz 1853 var sú breytíng gjörð, að tollurinn var einnig lagður á sjálfseignarkirkjugózið, nema að því leyti prestsmötuna snertir, enda er prestsmatan eigi neinn hluti afgjalds þess, er landsdrottinn fær af kirkjueigninni.

Vèr skulum nú hèr eigi tala um það, hvort eigi mundi mega finna annan betra og hentugra grundvöll fyrir alþíngistollinum, en gjört er; eigi heldur um það, hve mikið alþíngið hafi kostað jarðeigendurna í hvert skipti, er það hefir verið haldið, eða hve háfan hluta þeir hafi árlega orðið að lúka af jarða afgjaldi sínu upp í tollinn; nè eptir hverjum reglum afgjaldið sè reiknað til peninga; nè hverjar jarðir heyri til þeirra, er í lagaboðinu 1848 eru undanþegnar alþíngisgjaldinu, er mjög fróðlegt væri þó, að allt væri skoðað nákvæmlega, heldur viljum vèr að eins reyna til, að skýra nokkuð fáein

atriði önnur um sjálfan tollinn, að því leyti er hann liggur á jarðagózinu.

1., er þá sagt í 1. grein opins brèfs 18. júlí 1848, að þessum hluta alþíngisgjaldsins skuli jafna á jarðirnar eptir leigumála þeirra («paa Jordegodset i Forhold til de jorðdrottelige Afgifter). Það liggur þannig eigi í orðum lagaboðsins, og er almennt eigi heldur viðtekið, að jafna eigi tollinum á *húseign* eina er ekki fylgir land, hvort heldur húsið er af steini timbri eða torfi, nè heldur þó húsinu fylgi grunnur sá, er það stendur á, eða og lítið svæði í kríng; þannig hafa hús hèr í Reykjavík, bæði múrhús, timburhús og torfhús, þó þeim fylgi matjurtagarður eða annar lítilfjörlegur blettar, látin vera laus við álögu þessa. En þá rís aptur sú spurníng, hvar menn eigi þá að setja takmörkin millum jarðeignar og hússeignar? Til þess að geta svarað þessari spurníngu rètt, virðist að menn fyrst verði að aðgæta, að fyrir utan verzlunarstaðina skoðast landið eða jörðin, ef á henni má hafa landbúnað eða halda pening, einkum er nokkru nemi, sem aðalpartur eignarinnar, og nefnist þá eignin öll eptir henni jörð og þvílíkar eignir í jörðum jarðagóz, en sè landið í kríng annaðhvort eigi neitt, eða þá mjög lítið, svo þar verði enginn peníngur hafður, síst er nokkru nemi eður að nokkurt heimili geti lifað þar af landbúnaði, skoðast húsið eða húsin sem höfuðhlutinn, og nefna menn þá eignina eptir því þurrabúð eða tómthús, og menn segjast ekki að eiga jarðagóz, þó menn eigi slíkar sèrskildar þurrabúðir. Þessi skoðun er og samkvæm gömlum lögum hèr á landi. Það kynni nú að virðast rèttast, þegar spurníng risi um það, hvort einhver eign væri heldur jörð eða tómthús, að útnefndir

væri á löglegan hátt skoðunarmenn, er dæmdi um þetta eptir hinu fyrrtèða; en við þetta er það þó aðgætanda, að löggjöfin virðist nú vera búin að fast ákveða, hve mikið land skuli fylgja býli, til þess menn geti álitið, að nokkurt heimili geti lifað þar af landbúnaði, því lausamanna og húsmanna tilskipunin 26. maí 1863 setur í 14. greininni, þá er eigi hafa stærra jarðarpart til ábúðar enn 1 hndr., í flokk með húsmönnum eða þurrabúðarmönnum (sjá 13. greinina), og neitar slíkum býlum um þann rètt, er þau hafa, er stærra land fylgir, eða jarðir almennt hafa; og hlýtur þetta að koma til af því, að löggjafinn hefir álitið, að eigi neitt heimili gæti lifað af svo litlum landbúnaði, er hafður verður á eigi stærra landi enn 1 hndr. og að aðalatvinnuvegur þess heimilis yrði því að vera annar, eins og allra þurrabúðarmanna líka er. En af þessu virðist nú aptur beinlínis leiða, að *nú* beri eptir löggjöfinni, að telja allar þær eignir eigi meðal jarðagózins heldur með *þurrabúðum eða tómthúsum, er eigi fylgir stærra land enn 1 hndr.*, en þær, er meira land hafa, meðal jarða, og að *hinar fyrrnefndu eigi* því eptir hinu fyrrtèða *að vera lausar við alþingisgjaldið,* en eigi hinar síðarnefndu, nema þær sè meðal jarða þeirra, er eptir lögunum eru undanþegnar gjaldinu; þó gildir þetta eigi nema um þær þurrabúðir, er eru *sèrstakar eignir, og eigi fylgja neinni jörðu;* því fylgi þurrabúðin jörðu, er án efa rètt, að jafna alþingistolli á hana eptir leigumála hennar, því leiguna eptir þurrabúðina má þá með rèttu telja með afgjöldum þeim, er landsdrottinn fær af jörðunni eða torfunni. Þó virðist það auðsætt, að þegar landsdrottinn á að viðhalda þurrabúðinni, verður að draga svo mikið frá leigunni, sem árlegu viðhaldi búð-

arinnar nemur, og að alþingisgjaldið þá eigi að lúka að eins af afgánginum, því hið sanna afgjald, er landsdrottinn þá hefir af þurrabúðinni, er þessi afgángur og ekki meira. Það leiðir og af hinu fyrr sagða, að þá, er landsdrottinn eigi á þurrabúðina sjálfa, heldur að eins landið, er hún stendur á, þá ber að lúka alþíngisgjald eigi nema af lóðartolli þeim, er landsdrottinn fær, en eigi af búðinni sjálfri. Af því, er vèr nú höfum sagt, verðum vèr að álíta, að, þegar einhver eign hefir löggiltan dýrleika, geti skoðunargjörð sú, er vèr fyrr nefndum, eigi komist að, heldur að hún þá að eins geti átt við, er einhvert býli hefir orðið, síðan seinasta jarðamatið framfór, að sèrstakri eign, og að skoðunargjörðin þá verði að eins að lúta að því, að ákveða dýrleikann, eða hvort eignina sè að álíta stærri en eitt hundrað eða eigi; því eptir hinu fyrrtèða virðist undir þessu komið, hvort alþíngisgjald geti þá lögum samkvæmt lagst á hana eða eigi; annars er það mjög vafasamt, hvort þvílík sundurskipting jarða í smá parta, geti haft nokkurt gildi gagnvart hinu opinbera, nema það sjálft viðurkenni hana.

Að því nú er verzlunarstaði þá snertir, er eigi eru kaupstaðir, þá verða að gilda um þá hinar sömu reglur. Vèr skulum hèr geta þess, að í fyrndinni var hèr á landi eigi mælt land út til verzlunarstaða, heldur hafa þeir verið settir hèr og hvar, líklega þó með leyfi landeigandanna, án þess ákveðið hafi verið, hvort þeim skyldi fylgja nokkurt land eða ekki, eða hve háfa leigu skyldi greiða eptir stæði þeirra og afnot lands þess, er kaupmenn viðþurftu til verzlunar sinnar. Það er fyrst á seinni árum, að þeir, er hafa sett sig niður á þessum verzlunarstöðum við

hlīðina á hinum eldrum kaupmönnum, eða á hinum nýupppteknu verzlunarstöðum, hafa beðið um, að sèr væri land útmælt, og hefir þá leigan til landsdrottins optast nær verið ákveðin um leið; eins mun nú leigan eptir hin fornu verzlunarhús víða vera orðin ákveðin og eins fyrir því, þó eigi hafi enn verið sett föst takmörk fyrir landi því, er þeim skuli fylgja. Það getur og eigi verið neitt á móti því í sjálfu sèr eða eptir löggjöfinni, að verzlunarstaðir þessir eður hús þau, er þar standa, skoðist sem jarðir, ef þeim fylgir svo stórt land, sem jörðum, eða svo mikið, sem lögin álíta að býlum skuli fylgja til að geta nefnst jarðir, og virðist það eigi geta skipt máli í tilliti til alþingistolls skyldunnar, þó jarðir þessar kunni að vera betur hýstar, en jarðir almennt eru, eður þó þeim fylgi nokkur rèttindi fram yfir aðrar jarðir.

Að því loksins er kaupstaðina áhrærir, þá virðist nokkuð öðruvísi ástatt með þá, og ber í því tilliti að geta þess, að samkvæmt tilskipun 17. nóvembermán. 1786, 4. gr., gaf konungur land til að byggja á kaupstaði þá, er stjórnin þá hafði í huga að koma hèr upp, og var það áður nákvæmlega mælt og takmörk þess ákveðin. Á þessu svæði átti aptur eptir tilskipunarinnar 5. gr., að mæla mönnum út húsastæði, og var leyft að hverri húseign mætti þar ávísa, ef auðið væri, svæði til lítils matjurtagarðs. Að vísu var ákvörðun þessi gefin fyrir kaupstaði þá, er tilskipunin nefnir, en hún verður og að gilda um allt það land, er útmælt er til kaupstaðarstæðis, meðan eigi er öðruvísi ákveðið. Af þessu virðist það auðsætt, — eins og það og eigi gæti samrýmst vel með hugmyndinni um kaupstað — að heil jörð getur eigi lögum samkvæmt myndast á svæði því,

er kaupstaður á að standa á, heldur að eins húseignir — en á þær er eigi lagt alþingisgjald með lagaboðinu 1848, — og fylgi því einhverri húseign þar stærri blettur en lög leyfa, er bæði getur komið til af því, að hann í upphafi hafi verið útmældur stærri en löglegt var, og eins að tveim eða fleirum húseignum síðan hafi verið steypt saman í eina o. s. frv. þá verður að skoða mismuninn sem sèrskyldan blett, er eigi beinlínis sè fólginn í húseigninni, heldur sè að nokkru leyti laus frá henni og fyrir utan hana, en hvort alþingistolli verði jafnað á slíka bletti skulum vèr síðar tala um, en hèr viljum vèr að eins geta þess, að það væri skakkt, að leggja alþingísgjald á þessa bletti í sameiningu með húsnm þeim, er þeir eru látnir fylgja, því alþingistollurinn gæti þá á stundum hæglega orðið meiri af slíkri eign samanlagðri, en leigan væri eptir blettinn, svo tollurinn kæmi þá að liggja að nokkru leyti á húseigninni sjálfri, er rangt væri, þar hún á að vera laus við tollinn sem fyrr sagt. Þegar blettur sá, er húsi fylgir, eigi er stærri, en lög leyfa, virðist auðsætt, að engu alþingisgjaldi verði jafnað á hann, fremur en húseignina yfir höfuð, því hann er þá að skoða sem löglegan part hennar.

Það getur borið við, að kaupstaður vaxi svo, eins og Reykjavík hefir gjört, að húsa þorpið nái út fyrir takmörk þau, er með fyrstu voru sett kaupstaðarstæðinu, án þess að nýju landi hafi verið bætt við kaupstaðarstæðið með reglulegri útmælingargjörð; og virðist þá eðlilegast, að menn álíti, að allar hinar sömu ákvarðanir gildi um þenna nýja viðauka bæjarins, sem hinn forna hluta hans, nema þar sem lögin sjálf gjöra mismun á þeim (sjá reglugjörð fyrir Reykjavík 27. nóv.

1846, er engan slíkan mismun gjörir, og opið bréf 26. september 1860, er hefir aðrar ákvarðanir um hinn forna hluta Reykjavíkur, en hinn nýja).

Þó bæir standi á útjörð kaupstaðar eða fyrir utan sjálft húsaþorpið, er engin ástæða til að álíta, að aðrar reglur skuli gilda um þá, enn bæi, er með öllu standa fyrir utan kaupstaði, og verður því að liggja á þeim alþíngistollsskylda, ef þeim fylgir meira land en 1 hndr.

Þegar kaupstað fylgir land, er meira er en 1 hndr., má skoða kaupstaðinn sem jörð í tilliti til blettsins og verður þá að mega jafna alþíngisgjaldi á blettinn.

Á eyðijörðum, sem fyrrum hafa verið bygðar, en nú eru fallnar í eyði, virðist eins liggja alþíngistollsskyld, sem þeim, er bygðar eru, því lagaboðið tilgreinir eigi, að búið skuli vera á þeim jörðum, er alþíngisgjaldi skuli jafna á, heldur talar um allar jarðir jafnt yfir höfuð, og gjörir þannig bygging jarða eigi að skilyrði fyrir alþíngistollsskyldunni.

Vèr höfum nú þannig álitið, að hús yfir höfuð í kaupstöðunum, hvort sem þau væru úr steini, timbri eða torfi og eins þurrabúðir fyrir utan þá, væri allt annað enn jarðir eða jarðagóz, og að alþíngistollur því eigi væri lagður á slíkar húseignir við lagaboðið 18. júlí 1848, er að eins leggur hann á jarðagózið og lausafjártíundarhundruðin; líka álítum vèr, að sè undanþegnir alþíngisgjaldi blettir þeir í kaupstöðunum, er lögum samkvæmt fylgja þar húsum, og þeir, sem fyrir utan kaupstaðina fylgja þurrabúðum, þegar þeir eigi eru stærri en 1 hndr., svo að býlið sè að álíta þurrabúð en eigi jörð.

Önnur mótsetníng við jarðir, enn húseign, eru lendur þær, er engin bygð er í, og sem aldrei hafa verið

byggt ból. Það virðist nú auðsætt, að þegar lendur þessar liggja undir jarðir, ber að lúka alþíngistoll af þeim, sem hverjum öðrum arðberöndum hlutum jarðarinnar, með því leigu þá, er af þeim geldst, má og telja meðal afgjalda þeirra, er af jörðunni gjaldast yfir höfuð. Og þó lendur þessar eigi liggi undir aðrar jarðir heldur sè sèrskildar eignir, þá virðist sem lúka eigi alþíngistoll eins af þeim fyrir það. Að vísu standa tèðar lendur í mótsetníngu við jarðir, sem fyrr greint, en mótsetníng sú er með öllu óveruleg, því hún er að eins fólgin í því, að þær hafa aldrei verið bygðar, en lönd þau, er menn kalla jarðir, eru annaðhvort byggð ból, eður hafa einhverntíma verið það, en undir byggíngunni er alþíngistollsskyldan, sem fyrr á vikið, eigi komin, þar eð hann á að gjalda eins af eyðijörðum, sem byggðum býlum; þar á móti eru slíkar lendur, sem fyrr eru nefndar, með öllu samkynja eign og eyðijarðir, og gefa eigendum sínum með öllu samskonar arð og þær, enda eru þær í daglegu tali að nokkru leiti taldar með jarðagózi. Eignir þessar geta verið eyðieyjar, skèr, hólmar, fjörur, afrèttir, eður og aðrir sèrskildir landspartar. Samkvæmt þessu virðist og mega leggja í kaupstöðum á landsparta þá alþíngisgjald, er eigi geta álitist að vera löglegir partar af húseign.

Það virðist og auðsætt, að þegar ítak í annara manna lönd t. a. m. veiður, reki, eng, eða skógur o. s. frv. fylgir jörðu, ber að lúka alþíngisgjald af því sem öðrum hlunnindum, er jörðu fylgja; en sè ítakið laust og fylgi engri jörðu, sem á stundum er, virðist alþíngisgjald eigi geta legið á því, því slík ítök eru rèttindi ein og eigi neinn jarðarpartur; leigan eptir þau getur þá eigi heldur talist meðal jarðargjalda, eins og maður

getur eigi kallast landsdrottinn, þó hann eigi þvílík rèttindi í annara manna landi.

(Framhald síðar.)

---

# II.

## *Ættir alþíngismanna árið 1867.*

### *A.* Konúngsfulltrúi:

HILMAR FINSEN, stiptamtmaður yfir Íslandi, riddari »Dannebrogs« orðunnar. Húsfrú hans Ólufa dóttir Cancellíráðs Severins Adrians Bojesens í Kaupmannahöfn.

### A. *Föðurætt:*

1. gr.

1. *Jón Finsen*, faðir stiptamtmanns Hilmars Finsens, var Cancellíráð og hèraðsfógeti á Jótlandi, dó 1848; hans faðir
2. *Hannes Finnsson*, biskup í Skálholti, Dr. í guðfræði, dó 1796; hans faðir
3. *Finnur Jónsson*, biskup í Skálholti, Dr. í guðfræði, dó 1789; hans faðir
4. *Jón Halldórsson* hinn lærði, prófastur í Hítardal, dó 1736; hans faðir
5. *Halldór Jónsson*, prófastur í Reykholti, dó 1704; hans faðir

6. *Jón Böðvarsson,* prestur í Reykholti, dó 1657; hans faðir
7. *Böðvar Jónsson,* prófastur í Reykholti, dó 1626; hans faðir
8. *Jón Einarsson* (bróðir Gissurar biskups Einarssonar), prófastur í Reykholti, dó 1591 eða 1592; hans faðir
9. *Einar Sigvaldason* (bróðir Halldóru, abbadýsar á Kirkjubæjarklaustri), hans faðir
10. *Sigvaldi Lángalíf Íllugason,* bjó austur á Síðu; ætt sú er frá honum er, nefnist *Lángalífs* ætt; hans faðir
11. *Íllugi hinn svarti;* hverrar ættar hann hafi verið, er eigi nefnt, en móðir Sigvalda var Ólöf, dóttir Lopts hins ríka Guttormssonar; hefir Íllugi verið fæddur snemma á fyrra hluta fimtándu aldar, á að gitska 1410 eða litlu seinna.

2. gr.

3. *Guðríður Gísladóttir* hèt hústrú Finns biskups og móðir Hannesar biskups (hún var systir Magnúsar amtmanns Gíslasonar); hennar faðir
4. *Gísli Jónsson* í Máfahlíð vestra, dó 1715; hans faðir
5. *Jón Vigfússon,* biskup á Hólum, dó 1690; hans faðir
6. *Vigfús Gíslason,* sýslumaður á Stórólfshvoli, dó 1647, hans faðir
7. *Gísli Hákonarson,* lögmaður sunnan og austan á Íslandi, sat í Bræðratúngu, dó 1631; hans faðir
8. *Hákon Árnason,* sýslumaður í Klofa á Landi, dó 1608; hans faðir

9. *Árni Gíslason*, sýslumaður á Hlíðarenda, dó 1587; hans faðir
10. *Gísli Hákonarson* á Hafgrímsstöðum í Skagafirði, hans faðir
11. *Hákon Hallsson* á Vindheimum á Þelamörk; hans faðir
12. *Hallur Finnbogason;* hans faðir
13. *Finnbogi gamli Jónsson* á Ási í Kelduhverfi; hans faðir
14. *Jón Lángur* í Axarfirði, frá honum er *Lángs ætt;* hann hefir lifað um miðja fjórtánda öld; þó Espólín segi, að hann hafi verið sá Jón Lángur, er fèll í Grundarbardaga 1362, þá virðist það hæpið, því sá Jón Lángur var með Smið hirðstjóra, er kom sunnanað; útkomu Jóns Lángs frá Norvegi er og getið í annálum við árið 1429; en það hefir hlotið að vera enn annar Jón Lángur. Ættartölur sumar telja Jón Láng föður Finnboga son *herra Sveins Þorsteinssonar Lángs;* getur herra Sveins seinast í annálum árið 1310, og virðist þetta vel geta verið satt tímans vegna, eins og líka Lángsætt hefir verið mjög góð og merk ætt. Það eru og nokkrir, er telja föður herra Sveins Þorsteinssonar, þann *Þorstein Lángabein, eða láng,* er nefndur er í Sturlúngu og í liði Sturlu Sighvatssonar, og getur þetta einnig vel samrýmst tímans vegna, eins og líka nöfnin virðast að benda á, að þetta muni rètt vera.

3. gr.

2. *Valgerður Jónsdóttir* hèt hústrú Hannesar biskups

og móðir Jóns Cancellíráðs Finsens, hana átti síðar Steingrímur biskup Jónsson; hennar faðir

3. *Jón Jónsson,* sýslumaður á Móeiðarhvoli, dó 1788; hans faðir
4. *Jón Jónsson,* prófastur í Stafholti, dó 1740; hans faðir
5. *Jón Sigurðsson,* sýslumaður í Mýrasýslu dó 1728; hans faðir
6. *Sigurður Jónsson,* lögmaður sunnan og austan á Íslandi, dó 1677; hans faðir
7. *Jón Sigurðsson,* sýslumaður í Einarsnesi, dó 1648; hans faðir
8. *Sigurðsson Jónsson,* lögrèttumaður í Einarsnesi, dó 1606; hans faðir
9. *Jón Guðmundsson* í Einarsnesi, hans faðir
10. *Guðmundur Magnússon,* hans faðir
11. *Magnús,* virðist að hafa lifað á seinna hluta fimtándu aldar; hverrar ættar hann hafi hafi verið, vita menn eigi; þetta nefnist *Einarsness-ætt.*

4. gr.

3. *Sigríður Þorsteinsdóttir* hèt kvinna Jóns sýslumanns á Móeiðarhvoli, og móðir frúr Valgerðar; hennar faðir
4. *Þorsteinn Magnússon,* sýslumaður á Móeiðarhvoli, dó 1785; hans faðir
5. *Magnús Björnsson,* á Stórhóli; hans faðir
6. *Björn Pálsson,* sýslumaður á Stórhóli, dó 1679; hans faðir
7. *Páll Guðbrandsson,* sýslumaður á Þingeyrum, dó 1622; hans faðir
8. *Guðbrandur Þorláksson,* biskup á Hólum, dó 1627; hans faðir

9. *Þorlákur Hallgrímsson,* prestur seinast að Melstað; hans faðir
10. *Hallgrímur Sveinbjarnarson,* á Egilsstöðum í Vopnafirði; hans faðir
11. *Sveinbjörn Þórðarson,* officialis í Múla, kallaður *Barna-sveinbjörn,* dó 1490; hans faðir
12. *Þórður,* ætt hans ókunn, hefir lifað á fyrra hluta fimtándu aldar; móðir síra Sveinbjarnar telst Þórdýs Finnbogadóttir, systir Halls Finnbogasonar (sjá 2 gr. nr. 12).

B. *Móðurætt.*

5. gr.

1. *Dorthea Katrine Bruun* hèt kvinna Jóns Cansellíráðs Finsens og móðir Hilmars stiptamtmanns Finsens; hennar faðir
2. *Knud Bruun,* kaupmaður og ráðamaður (»Raadmand«) í Kolding, dó 1792; seinni kona hans og móðir frúr Dortheu Katrínar hèt Elísabeth Dorothea Thomsen. Faðir Knúds Brúns hèt
3. *Bertel Johansen Bruun,* ráðamaður í Fredericíu, dó 1751; hans seinni kona og móðir Knúds Brúns hèt Kirsten dóttir Níelsar Gudmes, prests í Herslev og Viuf. Faðir Bertels Johansens var
4. *Johannes Iversen Bruun,* ráðamaður í Fredericíu, dó 1731; hans kvinna og móðir Bertels Brúns hèt Ane Kirstine Christjansdóttir; faðir Jóhannesar Brúns
5. *Iver Bruun* hefir lifað um miðja 17. öld; var sonur hans Jóhannes fæddur 1671.

*B.* Konungkjörnir þingmenn[1].

1. PÈTUR PÈTURSSON biskup yfir Íslandi, riddari »Dannebrogs« orðunnar, Dr. í guðfræði. Fyrri kona hans var Anna Sigríður, dóttir Ara læknis á Flugumýri, systir Ara Arasonar, er nú er þar. Seinni kona hans er Sigríður Bogadóttir frá Staðarfelli Benidikssonar, systir Brynjólfs í Flatey Bogasonar

A. *Föðurætt:*

1. gr.

1. *Pètur Pètursson,* prófastur á Víðivöllum í Skagafirði, dó 1842; hans faðir
2. *Pètur Bjarnarson,* prestur á Tjörn á Vatnsnesi, dó 1802; hans faðir
3. *Björn Pètursson,* bóndi í Húnavatnssýslu; hans faðir
4. *Pètur Eiríksson,* hans faðir
5. *Eiríkur Jónsson,* á Núpi í Húnavatnssýslu; hans faðir
6. *Jón Eiríksson,* á Núpi, hans faðir
7. *Eiríkur Egilsson,* á Stóruborg; hans faðir
8. *Egill Jónsson,* á Geitisskarði, dó 1560; hans faðir
9. *Jón Einarsson,* sýslumaður á Geitisskarði; hans faðir
10. *Einar Oddsson,* sýslumaður á Geitisskarði kvæntist í fyrra sinni 1480; hans faðir
11. *Oddur Pètursson,* á Hvoli í Saurbæ; hans faðir
12. *Pètur,* hefir lifað um byrjun fimtándu aldar; ætt hans er eigi fyllilega kunn.

---

1) Í stað Helga biskups, er dó 1867, mætti á þínginu hinn konúngkjörni varaþíngmaður, dómkirkjuprestur Ólafur Pálsson.

2. gr.

3. *Haldóra Árnadóttir*, hèt móðir Pèturs prests Bjarnarsonar; hennar faðir
4. *Árni Haldórsson*, bóndi í Húnavatnssýslu; hans faðir
5. *Haldór Helgason*, bóndi í Arnarholti í Stafholtstungum; hans faðir
6. *Helgi Vigfússon*, lögrèttumaður í Borgarfirði, bjó seinast í Stórugröf; hans faðir
7. *Vigfús Jónsson;* hans faðir
8. *Jón Grímsson*, í Norðtungu dó 1570; hans faðir
9. *Grímur Jónsson*, lifði 1517; hans faðir
10. *Jón Guðmundsson*; hans faðir
11. *Guðmundur*, var samtíða sonum Lopts ríka Guttormssonar, því Jón son hans átti Sesselju Sumarliðadóttur Loptssonar; um ætt þessa Guðmundar vita menn ekki.

3. gr.

2. *Guðrún Jónsdóttir*, hèt kvinna Pèturs prests Bjarnarsonar, móðir Pèturs prófasts á Víðivöllum; hennar faðir var
3. *Jón Jónsson*, bóndi í Tungu í Fljótum; hans faðir
4. *Jón Jónsson*, smiður, bjó víða í Svarfardal; hans faðir
5. *Jón Oddsson*, á Melum í Svarfardal; hans faðir
6. *Oddur Bjarnason*, á Melum; hans faðir
7. *Bjarni Sturluson*, á Óslandi lögrèttumaður, fæddur á fyrra hluta 16. aldar; hans faðir
8. *Sturla*, kallaður *Smíðasturla;* ætt hans er eigi kunn, þó nefna hann sumir Vilhjálmsson. Ætt sú, er frá Oddi er komin, nefnist *Melaætt*.

4. gr.

3. *Íngiríður Eiríksdóttir*, hèt kvinna Jóns í Túngu og

móðir Guðrúnar kvinnu Pèturs prests Bjarnarsonar; hennar faðir

4. *Eiríkur Þorsteinsson,* á Brekku í Fljótum; hans faðir
5. *Þorsteinn Eiríksson,* bjó og á Brekku, ætt þá, er frá honum er, nefna menn *Stórubrekku ætt;* hans faðir
6. *Eiríkur,* bjó í Siglufirði, foreldra hans er eigi getið; hann hefir lifað á seytjándu öld; var og kona sonar hans Þorsteins Þóra Pètursdóttir Þorleifssonar prests á Hnappstöðum, er sumir segja Tómásson Brandssonar ríka í Fljótum.

B. *Móðurætt:*

5. gr.

1. *Þóra Brynjólfsdóttir,* hèt kvinna Pèturs prófasts og móðir Pèturs biskups; hennar faðir
2. *Brynjólfur Halldórsson,* gullsmiður, bjó seinast á Þrastastöðum í Skagafirði, dó undir aldamótin 1800; hans faðir
3. *Halldór Brynjólfsson,* biskup á Hólum, dó 1752; hans faðir
4. *Brynjólfur Ásmundsson,* lögrèttumaður á Íngjaldshóli; hans faðir
5. *Ásmundur gamli Eyólfsson,* prófastur á Breiðabólstað á Skógarströnd, dó 1702; hans faðir
6. *Eyólfur Helgason;* hans faðir
7. *Helgi Eyólfsson;* hans faðir
8. *Eyólfur Grímsson,* prestur á Melum í Borgarfirði, bróðir Freysteins prests í Stafholti, og Eiríks prests á Gilsbakka; þeir bræður voru allir uppi 1540. Þeirra faðir
9. *Grímur,* hefir lifað á seinna hluta fimtándu aldar,

og ef til vill, fram á seytjándu öld; um ætt hans vita menn ekki.

6. gr.

3. *Þóra Björnsdóttir* hèt hústrú Halldórs biskups, og móðir Brynjólfs gullsmiðs; hennar faðir
4. *Björn Jónsson Thorlacius*, prófastur í Görðum á Álptanesi, dó 1747; hans faðir
5. *Jón Þorláksson*, sýslumaður á Víðivöllum í Fljótsdal, dó 1712, hans faðir
6. *Þorlákur Skúlason*, biskup á Hólum, dó 1656; hans faðir
7. *Skúli Einarsson*, bóndi á Eyríksstöðum í Svartárdal; hans faðir
8. *Einar Þórarinsson*, i Bólstaðahlíð; hans faðir
9. *Þórarinn Steindórsson* í Bólstaðahlíð, hans faðir
10. *Steindór Bergsson* í Bólstaðahlíð hans faðir
11. *Bergur;* hann er sagður kominn af *Dálki* í Bólstaðaslíð. Dálkur Einarsson keypti Bólstaðahlíð 1388 af síra Marteini Bessasyni; hans dóttir hèt Þóra, er hann arfleiddi, og hennar son Einar er getur hafa verið faðir Bergs, föður Steindórs.

7. gr.

2. *Íngibjörg Eggertsdóttir* hèt kvinna Brynjólfs Halldórssonar og móðir Þóru kvinnu Pèturs prófasts, hennar faðir
3. *Eggert Sæmundarson*, prestur á Undirfelli, dó 1781; hans faðir
4. *Sæmundur Hrólfsson*, prestur í Stærraárskógi, dó 1738; hans faðir
5. *Hrólfur Sigurðarson*, sýslumaður í Þíngeyarsýslu, dó 1704; hans faðir

6. *Sigurður Hrólfsson*, sýslumaður í Þíngeyarþíngi, dó 1635; hans faðir
7. *Hrólfur sterki Bjarnason*, lögrèttumaður á Álfgeirsvöllum í Skagafirði, var fæddur á fyrra hluta sextándu aldar; hans faðir
8. *Bjarni Skúlason*, lögrèttumaður, hann var í dómi á alþíngi með Pètri Loptssyni; hans faðir
9. *Skúli Hákonarson;* hans faðir
10. *Hákon Skúlason;* hans faðir
11. *Skúli Jónsson;* hans faðir.
12. *Jón Grímsson;* hans faðir
13. *Grímur Eyólfsson;* hans faðir
14. *Eyólfur Rafnsson*; hans faðir
15. *Rafn Þorkellsson;* hans faðir
16. *Þorkell Halldórsson;* hans faðir
17. *Halldór Guðmundsson*; hans faðir
18. *Guðmundur Eyjólfsson* ríki á Möðruvöllum; hans faðir
19. *Eyólfur Einarsson* (almennt kallaður *Valgerðarson* og þannig kenndur við móður sína); hans faðir
20. *Einar Auðunsson;* hans faðir
21. *Auðunn rotin Þórólfsson;* hans faðir
22. *Þórólfur smjör Þorsteinsson*, er út kom með Hrafnaflóka; hans faðir
23. *Þorsteinn skrofi Grímsson;* hans faðir
24. *Grímur Kamban*, er sagt er að fyrstur hafi byggt Færeyjar.

Ætt sú, er komin er af *Hrólfi sterka*, nefnist *Hrólfsætt*, hún er almennast rakin þannig upp eptir til Guðmundar ríka, en það virðist að svo sem 2 eða 3 liði vanti í hana, þar sem eptir þessu koma að eins liðuglega 2 liðir á öld, frá Hrólfi og til Guðmundar

ríka, en þó er hèr við aðgætanda, að sumar ættir gánga stundum mjög seint fram, og þetta hefir átt sèr einmitt stað í sumum kvíslum af Hrólfs ætt. Þeir eru til, er telja föður Hrólfs, Bjarna Hrólfsson Þorsteinssonar, og láta þá Hrólf Bjarnason og Þorberg sýslumann Bessason hafa verið bræðrasonu; en það er þó engin ástæða til að efast um, að Bjarni Skúlason hafi verið faðir Hrólfs, eins og talið er, og það því síður, sem af skjölum sèst, að Bjarni Skúlason hefir átt jörðina Skálá í Fljótum, er Hrólfur síðar seldi sem óðalsjörð sína.

8. gr.

3. *Sesselja Hallsdóttir* hèt kvinna síra Eggerts og móðir Íngibjargar kvinnu Brynjólfs Halldórssonar; hennar faðir
4. *Hallur Ólafsson,* prófastur í Grímstúngum, dó 1741; hans faðir
5. *Ólafur Hallsson,* prófastur í Grímstúngum, dó 1681; hans faðir
6. *Hallur Ólafsson digri,* prestur á Höfða; hans faðir
7. *Ólafur Árnason,* prestur; hans faðir
8. *Árni Pètursson* í Stóradal í Eyjafirði; hans faðir
9. *Pètur Loptsson,* lögrèttumaður; hans faðir
10. *Loptur Ormsson*; hans faðir
11. *Ormur Loptsson;* hans faðir
12. *Loptur Guttormsson ríki,* er dó 1436; hans faðir
13. *Guttormur Örnúlfsson* í Þykkvaskógi; hans faðir
14. *Örnúlfur Jónsson* á Staðarfelli; hans faðir
15. *Jón* [Örnúlfsson].

Ath. Ætt þessi mun runnin úr Eyjafirði og mætti, ef til vill, rekja hana betur. Espólín telur Ólaf föður Halls prests digra, prest, og son Árna Pèturssonar, eins og hèr er gjört, og seinni konu hans

Þuríðar Þorleifsdóttur frá Möðruvöllum; þessi síra Ólafur er án efa sá síra Ólafur Árnason, er prestur var á Höfða næst undan síra Ólafi Guðmundssyni, er þar var næstur prestur á undan síra Halli; það var í þá daga mjög títt hèr á landi, að sonurinn fèkk brauð það, er faðir hans hafði verið prestur á. Þetta samsvarar sèr og allt í tímanum.

Sesselja Hallsdóttir var systir síra Halldórs á Breiðabólstað í Vesturhópi Hallssonar, er síra Pètur Björnsson ólst upp hjá; en móðir Halldóru Árnadóttur, móður síra Pèturs Björnssonar, var Málmfríður Eiríksdóttir frá Núpi, systir Pèturs Eyríkssonar, föður Björns, föður síra Pèturs; Björn og Halldóra voru þannig systkynabörn.

—

2. BERGUR ÓLAFSSON THORBERG, amtmaður yfir vesturumdæminu á Íslandi, kvinna hans var Sesselja Þórðardóttir klausturhaldara á Sviðholti Bjarnasonar, en móðir frú Sesselju var Guðlaug Aradóttir læknis, systir Önnu Sigríðar fyrri kvínnu Pèturs biskups. Faðir Bergs amtmanns er:

1. gr.

1. *Ólafur Hjaltason Thorberg,* seinast prestur á Breiðabólstað í Vesturhópi; hans faðir var
2. *Hjalti Þorbergsson,* prestur til Kirkjubóls í Lángadal; hans faðir
3. *Þorbergur Einarsson,* prestur á Eyri við Skutulsfjörð, dó 1784, hans faðir
4. *Einar Jónsson,* bóndi í Reykjarfirði á Ströndum; hans faðir
5. *Jón Bjarnarson,* samastaðar; hans faðir

6. *Björn Sveinsson*, járnsmiður; hans faðir
7. *Sveinn Símonarson*, prestur í Holti í Önundarfirði, dó 1644; hans faðir
8. *Símon Jónsson*, prestur í Runa, vígðist 1544; hans faðir
9. *Jón*, hefir lifað um 1500. Ætt hans ókunn.

2. gr.

3. *Íngibjörg Þorleifsdóttir*, hèt kvinna Þorbergs prests og móðir Hjalta prests; hennar faðir
4. *Þorleifur Þorláksson*, prestur á Laugabóli á Langadalsströnd, dó 1779; hans faðir
5. *Þorlákur Þorleifsson;* hans faðir
6. *Þorleifur Jónsson;* hans faðir
7. *Jón Þorleifsson*, á Kirkjubóli á Bæjarnesi; hans faðir
8. *Þorleifur Jónsson*, á Skálmarnesmúla; hans faðir
9. *Jón Þorleifsson*, prófastur í Gufudal, dó 1580; hans faðir
10. *Þorleifur Guðmundsson*, í Þykkvaskógi, dó 1536; hans faðir
11. *Guðmundur Andrèsson*, á Felli í Kollafirði; hans faðir
12. *Andrès Guðmundsson;* hans faðir
13. *Guðmundur Arason*, ríki á Reykhólum, rekinn af eignum sínum 1442; hans faðir
14. *Ari Guðmundsson;* hans bróðir var Rafn lögmaður Guðmundsson; þeirra faðir
15. *Guðmundur*, ríkur maður á Vestfjörðum, hefir lifað á seinna hluta fjórtándu aldar. Ætt hans upp eptir vita menn eigi með vissu.

3. gr.

2. *Guðrún Ólafsdóttir*, hèt kvinna Hjaltaprests og móðir Ólafs prests Thorbergs; hennar faðir

3. *Ólafur Einarsson,* prófastur á Ballará, dó 1828; hans faðir
4. *Einar Bjarnason,* á Vatneyri; hans faðir
5. *Bjarni Jónsson,* í Kollsvík; hans faðir
6. *Jón Tómásson,* á Sellátrum í Tálknafirði; hans faðir
7. *Tómás,* ætt hans upp eptir ókunn; hefir lifað um seinna hluta seitjándu aldar.

4. gr.

3. *Anna Þórðardóttir,* hèt kvinna Ólafs prófasts á Ballará og móðir Guðrúnar; hennar faðir
4. *Þórður Hákonarson,* í Norðtungu, dó 1764; hans faðir
5. *Hákon Hannesson,* sýslumaður í Raugarþingi, dó 1730; hans faðir
6. *Hannes Árnason,* lögrèttumaður í Norðtungu, dó 1671; hans faðir
7. *Árni Gíslason,* lögrèttumaður á Ytrahólmi, dó 1654; hans faðir
8. *Gísli Þórðarson,* lögmaður sunnan og austan á Íslandi, dó um 1618; hans faðir
9. *Þórður Guðmundsson,* lögmaður sunnan og austan, dó 1609; hans faðir
10. *Guðmundur Gíslason,* í Deildartungu (eptir því sem almennast er talið); hans faðir
11. *Gísli Arnbjarnarson,* prestur í Gaulverjabæ, hans faðir
12. *Arnbjörn Salomonsson,* prestur samastaðar um og fyrir 1400.

Þessi uppætt Þórðar lögmanns Guðmundssonar er þó vafasöm, sjá lögmannatal Jóns Sigurðssonar.

B. *Móðurætt:*

5. gr.

1. *Guðfinna Bergsdóttir* hèt kvinna Ólafs prests Thorbergs og móðir Bergs amtmanns; hennar faðir
2. *Bergur Sigurðarson,* timburmaður; hans faðir
3. *Sigurður Markússon,* bróðir Bjarnar lögmanns Markússonar, dó 1810; hans faðir
4. *Markús Bergsson,* sýslumaður í Ögri, dó 1753; hans faðir
5. *Bergur Benidiktsson,* lögrèttumaður á Hjalla, dó 1705; hans faðir
6. *Benidikt Þorleifsson,* lögrèttumaður á Háeyri; hans faðir
7. *Þorleifur Bjarnason* í Búðardal; hans faðir
8. *Bjarni Oddsson* á Skarði, dó 1621; hans faðir
9. *Oddur Tómasson* í Öskjuholti; hans faðir
10. *Tómas Oddsson* á Borg á Mýrum; hans faðir
11. *Oddur Sigurðarson* á Hvoli í Saurbæ, dó 1506; hans faðir
12. *Sigurður Geirmundsson*; hans faðir
13. *Geirmundur Herjólfsson*; hans faðir
14. *Herjólfur* lifði á 14. öld.

6. gr.

3. *Þóra Gísladóttir* hèt kvinna Sigurðar Markússonar og móðir Bergs; hennar faðir
4. *Gísli Hannesson,* prestur á Stað í Grunnavík, dó 1753; hans faðir
5. *Hannes Benediktsson,* prestur á Stað á Snæfjöllum, dó 1708; hans faðir
6. *Benidikt Tómasson;* hans faðir
7. *Tómas Böðvarsson,* strauk 1612, átti heima á Sólheimum í Sæmundarhlíð; hans faðir

8. *Böðvar*, ókunn ætt.

7. gr.

2. *Sigríður Guðlaugsdóttir* hèt kvinna Bergs timburmanns og móðir Guðfinnu kvinnu síra Ólafs; hennar faðir

3. *Guðlaugur Þorgeirsson*, prófastur á Görðum á Álptsnesi, dó 1789; hans faðir

4. *Þorgeír* (eg hefi sèð hann kallaðan Þórðarson) á Melshöfða á Álptanesi. Ætt hans er ókunn.

8. gr.

3. *Guðný Erlendsdóttir* hèt kvinna Guðlaugs prófasts og móðir Sigríðar; hennar faðir

4. *Erlendur Illugason*, prestur á Tjörn á Vatnsnesi, dó 1690; hans faðir

5. *Illugi Íngjaldsson*, prestur samastaðar, dó 1661; hans faðir

6. *Íngjaldur Illugason*, lögrèttumaður á Reykjum í Miðfirði, dó 1642, hans faðir

7. *Illugi Guðmundsson*, prestur í Múla, hafði verið ráðsmáður á Hólum í tíð Ólafs biskups Hjaltasonar; hans faðir

8. *Guðmundur* hefir lifað fyrir og eptir 1500; ætt hans vita menn eigi.

—

3. JÓN JÓNSSON HJALTALÍN, landlæknir, riddari «Dannebrogs» orðunnar, og Dr. í læknisfræði; hústrú hans var Jakobina dóttir Bogðes, er lengi var verzlunarstjóri á Húsavík og kvinnu hans Solveigar Jónsdóttur, er ættuð var úr Skagafirði.

A. *Föðurætt:*

1. gr.

1. *Jón Oddsson Hjaltalín*, prestur á Breiðabólstað á Skógarströnd, dó 1835; hans faðir
2. *Oddur Jónsson Hjaltalín*, lögrèttumaður á Rauðará; hans faðir
3. *Jón Oddsson*, sýslumaður í Gullbríngusýslu, dó 1754; hans faðir
4. *Oddur Jónsson*, ráðsmaður á Hólum; hans faðir
5. *Jón Magnússon* á Reykjarhóli í Fljótum; hans faðir
6. *Magnús Eiríksson* í Njarðvík syðra; hans faðir
7. *Eiríkur Maynússson* í Djúpadal í Skagafirði; hans faðir
8. *Magnús Björnsson* á Hofi á Höfðaströnd; hans faðir
9. *Björn Jónsson*, prófastur á Melstað, dó 1550; hans faðir
10. *Jón Arason*, biskup á Hólum, dó 1550; hans faðir
11. *Ari Sigurðarson* í Miklagarði; hans faðir
12. *Sigurður Jónsson*, príor á Möðruvöllum; hans faðir
13. *Jón Ólafsson;* hans faðir
14. *Ólafur*, hefir lifað á 14. öld.

2. gr.

3. *Metta Jensdóttir* hèt kvinna Jóns sýslumanns Hjaltalíns, móðir Odds: hennar faðir
4. *Jens Jóhansson*, bæjarfógeti í Árhúsum á Jótlandi; hans faðir
5. *Johann Jörgensson;* hans faðir
6. *Jörgen.*

3. gr.

2. *Oddný Erlendsdóttir* hèt kvinna Odds Hjaltalíns móðir Jóns prests Hjaltalíns; hennar faðir
3. *Erlendur Brandsson*, lögrèttumaður í Reykjavík, hans kvinna og móðir Oddnýar hèt Sesselja ættuð af Kjalarnesi, hennar ætt ókunn; faðir Erlendar
4. *Brandur Bjarnhèðinsson* bjó á Suðurnesjum; hans faðir
5. *Bjarnhèðinn Guðmundsson;* hans faðir
6. *Guðmundur Ólafsson* í Laugagerði; hans faðir
7. *Ólafur*, á Stórólfshvoli, ættaður langt að austan; hans ætt ókunn, virðist hafa lifað um 1600.

B. *Móðurætt:*

4. gr.

1. *Gróa Oddsdóttir*, hèt seinni kvinna Jóns prests Hjaltalíns, móðir Jóns Hjaltalíns landlæknis; hennar faðir
2. *Oddur Þorvarðarson*, prestur á Reynivöllum, dó 1804; hans faðir
3. *Þorvarður Einarsson*, lögrèttumaður í Brautarholti; hans faðir
4. *Einar Þorvarðarson;* hans faðir
5. *Þorvarður Erlendsson*, á Hvítanesi; hans faðir
6. *Erlendur Þorvarðarson;* hans faðir
7. *Þorvarður Þórólfsson*, á Suðurreykjum í Mosfellssveit; hans faðir
8. *Þórólfur Eyólfsson*, á Hjalla; hans faðir
9. *Eyólfur Jónsson*, á Hjalla, átti Ásdýsi Pálsdóttur systur Ögmundar biskups; hans faðir
10. *Jón*, hefir lifað á 15. öld.

5. gr.

3. *Sólveig Kortsdóttir,* hèt seinni kvinna Þorvarðar í Brautarholti og móðir Odds prests; hennar faðir
4. *Kort Jónsson*, á Kirkjubóli á Miðnesi, lögrèttumaður; hans faðir
5. *Jón Einarsson,* klausturhaldari á Þykkvabæ; hans faðir
6. *Einar Þorsteinsson,* sýslumaður í Hegranessþingi; hans faðir
7. *Þorsteinn Magnússon,* sýslumaður á Þykkvabæ; hans faðir
8. *Magnús Árnason,* í Stóradal, bróðir samfeðra Ólafs prests Árnasonar á Hálsi, sjá ætt Pèturs biskups hèr að framan 8. gr. nr. 7.

6. gr.

2. *Kristín Hálfdánardóttir,* hèt kvinna Odds prests á Reynivöllum og móðir Gróu; hennar faðir
3. *Hálfdán Gíslason,* prestur á Eyvindarhólum, dó 1785; hans faðir
4. *Gísli Þorláksson,* í Mörk; hans faðir
5. *Þorlákur*, hefir lifað á 17. öld. Ætt hans fram eptir ókunn.

7. gr.

3. *Margrèt Jónsdóttir*, hèt kvinna Hálfdánar prests móðir Kristínar; hennar faðir
4. *Jón Þorsteinsson,* sýslumaður í Skaptafellssýslum; hans faðir
5. *Þorsteinn Jónsson,* prestur í Holti undir Eyjafjöllum, dó 1668; hans faðir
6. *Jón Þorsteinsson,* kallaður píslarvottur, prestur í Vestmannaeyum, dó 1627; hans faðir

7. *Þorsteinn Sighvatsson,* í Höfn í Borgarfirði; hans faðir
8. *Sighvatur,* um ætt hans vita menn ekki, hefir lifað á fyrra hluta 16. aldar.

—

4. JÓN PJETURSSON, yfirdómari albróðir Pèturs biskups; hans fyrri kona Jóhanna Bogadóttir frá Staðarfelli alsystir frúr Sigríðar Bogadóttur, seinni kvinnu Pèturs biskups; seinni kvinna Jóns er Sigþrúður Friðriksdóttir prests í Akureyum og Arndýsar Pètursdóttur kvinnu hans.

—

5. HALLDÓR FRIÐRIKSSON, kennari við latínuskólann í Reykjavík, kvinna hans heitir Leopoldina dóttir Degens kapteins í Kaupmannahöfn.

A. *Föðurætt:*

1. gr.

1. *Friðrik Eyólfsson;* hans faðir
2. *Eyólfur Kolbeinsson,* prestur á Eyri við Skutulsfjörð átti Önnu Pètursdóttur Kúlds, kaupmanns í Flatey, er var norðmaður að kyni; faðir Eyólfs persts var.
3. *Kolbeinn Þorsteinsson,* prestur í Miðdal, dó 1783; hans faðir
4. *Þorsteinn Kolbeinsson;* hans faðir
5. *Kolbeinn,* hefir lifað fyrir og eptir 1700. Fram ætt ókunn.

2. gr.

3. *Arndýs Jónsdóttir,* hèt kvinna Kolbeins prests, móðir Eyólfs prests; hennar faðir

4. *Jón Jónsson,* prestur á Gilsbakka, dó 1771; hans faðir
5. *Jón Eyólfsson* eldri, (svo nefndur til aðgreiningar við bróður sinn, Jón ýngra) prestur samastaðar dó 1718; hans faðir
6. *Eyólfur Jónsson,* prestur á Lundi, dó 1672; hans faðir
7. *Jón Hallsson,* hans faðir
8. *Hallur Jónsson,* hans fram ætt ókunn, hefir lifað á seinna hluta 16. aldar.

B. *Móðurætt:*

3. gr.

1. *Sigríður Ólafsdóttir* hèt kvinna Friðriks, móðir Halldórs skólakennara; hennar faðir
2. *Ólafur Þorbergsson,* dó 1808, hann var albróðir Hjalta prests, afa Bergs amtmanns, sjá ætt hans hèr að framan 1. gr. nr. 2.

4. gr.

2. *Ragnhildur Jónsdóttir,* hèt kvinna Ólafs, móðir Sigríðar; hennar faðir
3. *Jón Jónsson,* á Krossi; hans faðir
4. *Jón Bjarnason,* í Stórholti; hans faðir
5. *Bjarni Bjarnason;* hans faðir
6. *Bjarni Guðmundsson,* á Selvelli; hans faðir
7. *Guðmundur Bjarnason,* í Öxl; hans faðir
8. *Bjarni Jónsson;* hans faðir
9. *Jón Guðmundsson,* prófastur í Hítárdal, dó 1634 hans faðir
10. *Guðmundur Jónsson,* á Hvoli í Saurbæ, lögrèttumaður, dó 1595; hans faðir

11. *Jón Þórðarson*, samastaðar, lögrèttumaður; hans faðir
12. *Þórður*, kvinna hans og móðir Jóns var Elín Pálsdóttir systir Ögmundar biskups.

5. gr.

3. *Sigríður Einarsdóttir* hèt kvinna Jóns Jónssonar á Krossi móðir Ragnhildar; hennar faðir
4. *Einar Jónsson*, á Oddastöðum; hans faðir
5. *Jón á Geirmundarstöðum*, hans fram ætt ókunn.

---

6. ÓLAFUR PÁLSSON (varaþingmaður, en mætti á þinginu í stað Helga biskups) prófastur og dómkirkjuprestur, riddari »Dannebrogs« orðunnar; kvinna Guðrún dóttir Ólafs júst itsráðs í Viðey Magnússonar og fyrstu konu Ólafs, frúr Sigríðar Stefánsdóttur frá Hvítárvöllum.

A. *Föðurætt*:

1. gr.

1. *Páll Ólafsson*, kappellán hjá föður sínum, dó 1823; hans faðir
2. *Ólafur Pálsson*, prestur á Hólum undir Eyafjöllum; hans faðir
3. *Páll Jónsson*, klausturhaldari á Elliðavatni, dó 1819; hans faðir
4. *Jón Snjólfsson*, á Fljótum í Meðallandi, dó 1774; hans faðir
5. *Snjólfur Bjarnason*; hans faðir
6. *Bjarni Sveinsson*, prestur í Meðallandi, dó 1687; hans faðir
7. *Sveinn Bjarnason*, prestur til Dýrhóla og Kirkjubæjar á Síðu, dó um 1650; hans faðir

8. *Bjarni Helgason*, á Skambeinsstöðum, móðurbróðir Odds biskups Einarssonar, dó 1604; hans faðir
9. *Helgi Eyólfsson;* hans faðir
10. *Eyólfur,* hefir lifað á seinna hluta fimtándu aldar.

2. gr.

3. *Valgerður Þorgeirsdóttir,* hèt fyrri kvinna Páls klausturhaldara Jónssonar og móðir Ólafs prests Pálssonar eldra; hennar faðir
4. *Þorgeir Oddsson,* á Arnardránga; hans faðir
5. *Oddur Bjarnason;* hans faðir
6. *Bjarni Þorgeirsson;* hans faðir
7. *Þorgeir Snjólfsson;* hans faðir
8. *Snjólfur sterki Finnsson;* hans faðir
9. *Finnur.*

3. gr.

2. *Helga Jónsdóttir,* hèt kvinna Ólafs prests í Hólum Pálssonar, móðir síra Páls; hennar faðir
3. *Jón Steingrímsson,* prófastur á Felli í Skaptafellssýslu, dó 1791; hans faðir
4. *Steingrímur Jónsson,* á Þverá í Skagafirði; hans faðir
5. *Jón Steingrímsson,* á Bjarnarstöðum hjá Flugumýri, lögrèttumaður; hans faðir
6. *Steingrímur Guðmundsson,* er sagt að búið hafi á Hofi í Skagafjarðardölum; hans faðir
7. *Guðmundur* á Lóni í Viðvíkursveit, kvinna hans var Steinunn, systir síra Bjarnar Jónssonar á Hvanneyri í Siglufirði. Guðmundur hefir lifað á fyrra hluta 17. aldar.

4. gr.

3. *Þórun Hannesdóttir* hèt fyrri kona síra Jóns Steingrímssonar og móðir Helgu; hennar faðir

4. *Hannes Lárusson Skeving*, sýslumaður á Möðruvöllum í Hörgárdal, dó 1726; hans faðir
5. *Lárus Hansson Skeving*, sýslumaður samastaðar, dó 1722; hans faðir
6. *Hans Lárusson Skeving*, sorenskrifari í Bergens stipti í Norvegi, dó 1701; hans faðir
7. *Lárus Hansson*, prófastur í Skevinge á Sjálandi; hans faðir
8. *Hans*, hefir lifað snemma á 17. öld.

B. *Móðurætt:*

5. gr.

1. *Kristín Þorvaldsdóttir*, hét kvinna síra Páls Ólafssonar og móðir Ólafs prófasts Pálssonar; hennar faðir var
2. *Þorvaldur Böðvarsson*, prófastur á Holti undir Eyafjöllum; hans faðir
3. *Böðvar Högnason*, prestur á Mosfelli, dó 1779; hans faðir
4. *Högni Sigurðsson*, prestur á Breiðabólstað í Fljótshlíð, dó 1770; hans faðir
5. *Sigurður Högnason*, prófastur í Einholtum dó 1732; hans faðir
6. *Högni Guðmundsson*, prestur í Einholtum, dó 1679; hans faðir
7. *Guðmundur Ólafsson*, prestur í Einholtum, dó um 1652; hans faðir
8. *Ólafur Guðmundsson*, sálmaskáld, prófastur á Sauðanesi; hans faðir
9. *Guðmundur*, hefir lifað á 16. öld, var bóndi á Svalbarðsströnd.

6. gr.

3. *Giríður Þorvaldsdóttir*, hèt kvinna síra Böðvars og móðir síra Þorvaldar prófasts; hennar faðir
4. *Þorvaldur Ófeigsson*, á Múla; hans faðir
5. *Ófeigur Þorláksson*; hans faðir
6. *Þorlákur*.

7. gr.

2. *Guðrún Einarsdóttir*, hèt miðkona Þorvaldar prófasts Böðvarssonar, og móðir Kristínar móður Ólafs prófasts Pálssonar; hennar faðir
3. *Einar Hafliðason*, lögrèttumaður, á Þrándarholti; hans faðir
4. *Hafliði Bergsveinsson*, prestur í Hrepphólum dó 1773; hans faðir
5. *Bergsveinn Sólmundarson*, lögrèttumaður í Gullbringusýslu; hans faðir
6. *Sólmundur Ívarsson*; í Sandgerði
7. *Ívar*, hefir lifað á 17. öld.

8. gr.

3. *Sigríður Jónsdóttir*, hèt kvinna Einars Hafliðasonar og móðir Guðrúnar; hennar faðir
4. *Jón Magnússon*, á Stóranúpi; hans faðir
5. *Magnús Sigurðsson*, í Bræðratúngu, dó 1707; hans faðir
6. *Sigurður Magnússon*, sýslumaður á Skútustöðum, dó 1668; hans faðir
7. *Magnús Arason*, sýslumaður á Reykhólum, dó 1635; hans faðir
8. *Ari Magnússon*, sýslumaður í Ögri dó 1652; hans faðir
9. *Magnús Jónsson*, prúði, sýslumaður í Bæ á Rauðasandi, bræður hans voru þeir Jón lögmaður

Jónsson, Staðarhólspáll og Sigurður á Reynistað. Verður sú ætt síðar betur rakin.

7. ÁRNI BJARNASON THORSTEINSSON, varaþingmaður, Cancellíráð, landfógeti á Íslandi og bæjarfógeti í Reykjavík; húsfrú hans er Sofía, dóttir Hannesar kaupmanns í Reykjavík Steingrímssonar biskups og kvinnu Hannesar Sigríðar dóttur Símonar kaupmanns Hansens.

A. *Föðurætt:*

1. gr.

1. *Bjarni Thorsteinsson;* Conferentsráð; hans faðir
2. *Þorsteinn Steingrímsson,* í Kellingardal, hann var albróðir Jóns prófasts Steingrímssonar, sjá hèr að framan ætt Ólafs prófasts Pálssonar.

2. gr.

3. *Sigríður Hjálmsdóttir,* hèt kvinna Steingríms Jónssonar á Þverá, móðir þeirra bræðra Þorsteins og síra Jóns Steingrímssona; hennar faðir var
4. *Hjálmur Stefánsson,* á Keldulandi; hans faðir
5. *Stefán Rafnsson,* lögrèttumaður á Silfrastöðum; hans faðir
6. *Rafn Jónsson,* lögrèttumaður í Bjarnastaðahlíð, kvæntist 1677; hans faðir
7. *Jón Arnfinnsson,* í Bjarnastaðahlíð; hans faðir
8. *Arnfinnur Guðmundsson,* á Bæ í Hrútafirði; hans faðir
9. *Guðmundur Oddsson;* hans faðir
10. *Oddur Arnfinnsson,* í Auðbrekku; hans faðir
11. *Arnfinnur,* bjó í Auðbrekku og er sagt að dáið

hafi 1495; hann er án efa sá Arnfinnur Jónsson er sýslu hafði í Vaðlaþingi seinast á 15. öld.

3. gr.

2. *Guðríður Bjarnadóttir*, hèt kvinna Þorsteins Steingrímssonar og móðir Bjarna Conferentsráðs; hennar faðir var
3. *Bjarni Nikulásson*, sýslumaður í Skaptafellssýslu; hans faðir
4. *Nikulás Bjarnason*, í Teigi; hans faðir
5. *Bjarni Nikulásson;* hans faðir
6. *Nikulás Michaelsson;* hans faðir
7. *Michael*, var norðlenzkur.

4. gr.

3. *Sigríður Böðvarsdóttir*, hèt 3. kona Bjarna sýslumanns Nikulássonar og móðir Guðríðar; hennar faðir
4. *Böðvar Erlendsson*, í Hrútafelli; hans faðir
5. *Erlendur.*

B. *Móðurætt:*

1. *Þórunn Hannesdóttir*, móðir Árna Cancellíráðs og húsfrú Bjarna Conferentsráðs; albróðir hennar var Jón Cancellíráð, faðir Hilmars stiptamtmanns og er sú ætt hèr að framan nokkuð rakin.

---

# III.

## *Eptirrit af nokkrum gömlum skjölum.*

—

### 1.

### *Brèf vm kirkiuhvam vestra*[1].

In nomine Domini Amen var þetta kaup þeirra Einars Daðasonar og Ásgríms Snorrasonar með handabanndi, að nefnndur Einar selldi áður greinndum Ásgríme Jörð alla Í kirkiuhvamme Í miðfirði með ollum þeim fonngum og giæðum rekum og hlunnenndum sem Iorðinne hafa filgt að fornnu og nyiu, og hann varð eiganndi að, að onnguu fraskildu. Sagði Einar að være I Hvamme graptrar kirkia og fæða prest, og giallda iiij merkur og tiunnd biskupe annaðhortt ár. Og ætti kirkian vi kýr og vi ær, vi^c voru, iij hross, Item ſijðan Einar kom gafſt kyrkiunne ij kyr, ıx ær og ij hestar iij^c voru. Item I Portione ecclesiæ er reiknnast iiij^c^ voru enn fyrstu ix ár, er einar bio og að auk hunndrað er sijra grimur gaf, og skildi fyrnefdur einar af sier alla þa fyrnnd og hrornan sem orðit hefði á so lonngum tijma og alla abyrgð á kirkiunne.

Hier I mot gaf fyrgreinndur Asgrimur fimmtige hunndraða mȝ þessum solum og fríðleika að næstum fardogum XXX hunndraða, og taka unnder siálfum sier þa XXX hunndraða sem Einar var kyrkjunne skylldugur eptir þui sem aður vottar I brefinu og Asgrimur batt sig unnder að luka so fellda peninnga kirkiunne sem Einar var henne skylldugur, hier a ofan skilldi þrattnefndur Asgrimur luka einare vı kyr og v asauðar ku-

1) Þetta brèf er orðrètt ritað upp úr bók, er Guðbrandur biskup hefir ritað, og sem liggur við biskupsdæmið. Böndin eru uppleyst.

gilldi, vc I slatrum tíundar virtt og vc I vaðmalum og skreið og lukast ut I iij arum, leigja tólf alnnum epter hvortt hunndrað sem eigi lukast I fardogum enum næstum. Sagði einar þesse lannda merke mille synsta hvammʒ, að lækur sa rieðj að fielli I mille nausta ofan I sio og upp riett syne I lækiarbug, og vr lækiar bug I haga garðʒ ennda og þaðan ut í á, enn áen upp þaðan a fiall. Og kirkiu hvammur ætte manaðar beit á veturinn ollum fienaði í synnsta hvammʒ Jorð, enn synnsti hvammur ætti hier I mót beit fyrir ofan kelldu I kirkjvhvammʒ fiall annað hvortt dægur ollu bufe kross messnna á mille á sumarið. Item sagði einar at efsti hvammur ætte tveggia áttfeðminga skurð a hvamms holltt I hvamms kirkiu Jorð og þar være þinngstaður skilldi einar svara laga ryftingum a Jorðunne I hvamme enn Asgrimur halldi til laga. For þetta kaüp framm á þinngeyrum I vatsdal þrettannda dag Jola, þa lijðið var fra hinngaðburð vors herra Jhesu Christi þushunndruð iiij hunndruð vi ár þessum monnum hia heyronndum, Broður asgrime vigfussyne profaste, loptur guttormsson, Eyolfur þorvarðsson. Og til sanninnda hjer umm setti Einar Daðason og asgrimur Snorrason sijn innsigle með vorum Innsiglum fyrir þetta bref er skrifað var að ose I miðfirðj In festo agati virginis a sama áre sem fyrr seiger.

2

*Vitnisburður Marteins Ívarssonar um landamerki Molastaða*[1].

Þat giori ek marteinn ívarsson goðum monnum

1) Þetta brèf er orðrètt ritað eptir transskriftarbrèfi Cand. Eiríks Jónssonar af frumbrèfinu, sem er í brèfasafni Árna Magnússonar.

kunnikt, at meðan ek var heima a molastoðum hia föður mínum fra því sem ek ma fremzt muna ok til þess er ek for þaðan fulltiða hellt ivarr faðir minn þessi landamerki ok einghan vissa ek at finna. At garðstaðr sa er upp geíngr fyrir utan molastaði neðan fra a ok upp at hlíðargorðum ræður en siðan rettsyni upp i biarnar gils læk en hann upp í fjall. en fyrir sunnan ræðr lækr sa er ofan fellr or fialli fyr sunnan miofua rygg ok fyrir utan hroðagerði at garði þeim sem liggr ofan eptir myrinni fyrir sunnan molastaða torfgrafuir ok ofan á hafna backan ok ofan at a. hafði faðir minn steck fyrir neðan langha garðinn. fyrir utan hafna backan torf grafuir sem sea má. nesið smáranes hylinn. burhyl ok allar landz nytiar mz eign i þessum takmörkum upp i fiall ok ofan at á, ok má ek her fullt um bera ef þurfa þykir ok til sanninda her um setta ek mitt insigli fyrir þetta bref gjort i haghanesi syðra á petrs messu ok pals þa er liðið var fra burð Crists MCCCXC ok níu ár.

3.[1]

Það giorum vier Gunnar Gijslason, Biarnne stullason, Isleifur Þorbergsson, Jon Biornnsson goðum monnum kunnigt með þessu voru opnu brefe, að þá er liðit var frá Guðsburð :m:dlxxx vii ár, á holum I hialltadal, manudaginn næstann fyrir krossmessu vm vorið vorum vier þar viðstadder, saum á orð og handsol herra Guðbrandz Thorlakssonar og peturs þorsteinssonar [2]að suo

1) Þetta bréf og næsta bréf hér eptir, eru orðrétt skrifuð upp úr sömu bókinni, og bréfið No. 1 hér að framan.

2) Pètur Þorsteinsson átti Margreti Jónsdóttur Finnbogasonar, en móðir Jóns Finnbogasonar var Margrét Halldórsdóttir frá Barði í Fljótum Brandssonar, hafði sú ætt átt Ósland.

fyrirskílldu, að petur þorsteinsson sellde herra Guðbrande I loglegu vmboðe sona sinna finnboga og magnusar Jarðernar Biarnnar Gil I fliotum og stafshól á hofðastrond mȝ ollu því sem þær Jarðer eiga mȝ rettu og herra Guðbrandur hafðe áður sellt petre, fyrir L<sup>or</sup>. I oslande, suo sem bref þar vmm giortt wtvisar. Hier I mót gaf herra Guðbrandur petre og sonum hans, Jarðernar Hraun I slettu hlijð, og skálá, mȝ ollum þeim gognum og giæðum nefndar Jarðer eiga með rettu og epter þui sem gomul Bref hlioða, sem er, að skálá á reka frá forna Ose, og til Raufar Bergs, og I oðrum stað, frá skarfasteine til hlaðbergs, fiorðung I hvorum tueggia stað, bæðe huals og viðar, og allt það sem rekamaður á að hafa að logum. Afrett I hrolleifsdal ollum gielldfíenaðe, skipsatur og skalagiorð á straum nese I Kelldujorð. Lofaðe petur og I Borgan gieck mȝ handsolum að syner hans Jon og petur, sem þá voru eigi við, skylldu þennan kaupskap samþyckia mȝ fullnaðar giorninge, þá þeir kiæme heim og þess være við þa leitað. Skylldu hvorir hallda thil laga þeim Jorðum er keypte, en sá suara laga Riptingum er sellde; Suo og tilskilde petur, ef þessar Jarðer ganga af með logum, þá skylldu hans syner eiga aðgang að þeirra andvirðe eða oðrum Jorðum Jafngoðum, hiá herra Guðbrande eða hans erfingium; Og til sanninda hier vm, setium vier fyr nefndir menn vor Insígle fyrir þetta Bref; Skrifað á sama áre sem fyr seiger.

4.

Qvíttans Hrolfs[1] vm ockar kaupskap. Það giore eg hrolfur Biarnnason kunnigt með þessu mínu opnu brefe,

1) Þetta er Hrólfur sterki Bjarnason er Hrólfs ætt er frá.

að eg hef m;tekið og vppborið fullt og allt verð af herra Guðbrande Thorlakssyne, sem mier lijkar og ánæger, og I ockar kaup kom, fyrir þá Jörð og Jarðarparta fiall, halft hraun, halfann stafshól, sem eg hefe honum sellt, og bref þar vm giorð wtvijsa, þuí gef eg og giore aður nefndan herra Guðbrand Thorlaksson Aulldungis kuíttann og ákiærulausann fyrír mier og ollum mínum erfingium vm afgreiðslu alla og wtgialld á fyrnefndum Jarðarverðum og til sanninda hier vm set eg mitt Jnsigle fyrir þetta bref, skrífað á holum I hialltadal þan 26 dag Januaríí Anno M:D:L:XXX|iii|.

## 5.

## *Dómur sira Flosa vmm* IXc *seektt buanda manns á faskr :*[1]

In nomíne Domíní Amen: var þessi domur sijra flosa Jonssonar profast; og guðmundar snorrasonar syslumanns og þeirra XII manna er þeír nefndu til með sier imillum þeirra herra þorsteins ábota snorra sonar og staðarins a Helgafelli og Ara grimssonar að faskrwðar backa, er þar bio: þa dæmdu þeír fyrnefndir dom; menn staðnum og Abotanum ixc með þessum frijðleika, fyrír það að hann hafði farið J veiði staðarin; að Helgafelli J straumfiarðará J þeirra banni er attu og þessi fyrnefnd á var suarin staðnum J millum fiall; og fioru framm vm bwðar hamra var þessi sol a logð að giallda að næstum fardogum kw og IIc voru, og færa heim til

1) þetta bréf og 5 fylgjandi bréf (5—10) eru orðrétt rituð upp úr bók, er Jón lögmaður Sigurðsson á Reynistað hefir skrifað, og er fyrirsögn þess kafla bókarinnar, er þetta er tekið úr þannig: Hier epter fylgia mäldagar nockrer og brief, sem liggia fyrer Arnastapans Jorðum og gotz.

helgafellz | annað sal skal giallda a faskrwðarbacka hundraðz grip og hundraðz hross, þriðia sal að hauste II cr J slatrum a faskrwðarbacka og að fullu og frammkomno skildu þeir alsættum satter vm þetta mál, og til sanninda etc.[1]

6.

Þennann eið soru þau Steinn Þorarinsson og Vigdys Aladotter mier Gisla Sygurðssyne, að þa er þau voru J staðar hrepp og liotur þorkielsson atte gaul og ofeigur eptir hann, þá atti gaul alla Jorð vt fra gróulæk fyrir ofann gotu og vt til vygralækiar og sionhendíng vr grouhollte fyrir ofan groulæk.

7.

*Milli Hofstaða og lagafella landamerki*

Þessi eru landamerki a millum hofstaða og lagafella, að gata su skilur er liggur eptter langahollte og suo til motz við gaular land: Steinar thueir standa sinu meiginn gotu huor sionhending vr hinum neðra J hinn efra, enn vr hinum efra sionhending J frackaskarð, enn vr austann verðu skarðinu J stein þann er stendur J þrongua brun og þaðann J gialparstapa og sionhending J vijðilækjar botn vr stapanum enn fyrir vtan er sionhending J grouthiorn J stackgarðz brot það er stendur vnder sandabotz hollti en vr holltinu J kieldu þa er fellur J floa læk, þo skilur lækinn[2] vpp þar til að kemur að efra floa og þaðan J stackgarðz brot það er stend-

1) Á röndinni stendur með nýrri hendi "alii add: setjum vèr fyrnefndir dómsmenn vor insigli fyrir þetta dómsbrèf, er gjört var á Helgafelli A⁰ Dñi 1390 in primo„.

2) Þetta virðist ætti að vera: "þá skilur lækurinn„.

ur neðan vnder sandabotʒ ás og þaðann epter asnum vpp þar sem hann er huassastur og J stackgarðʒ brot það er fyrir ofann steininn asinn[1] og þaðann vpp sionhending J marggil[2] enn markgil ræður til uppsprettu þeirrar, er það fellur vr.

8.

*Landamerki mille lagafellanna beggia.*

Þesse landamerki sogðu þeir Olafur Biornsson og þorlakur markusson J mille lagafellanna beggia, að vr Valhamri er stendur fyrir ofan Reiðgotur er sionhending ofan J broklæk, ræður þa lækurinn ofan J grounthiorn.

9.

*Landamerke mille Lagafellanna og Elliða*

Þesse landamerki sagði Olafur Biornsson að snorri Biarnarson og Jon Barðarson hefði reiknað so að hann heyrði J mille Elliða og Lagafellʒ að þar ræður lækur sá, er fellur ofan af bruninne fyrir austann ellíða tinda er hann þrijklofinn vpp J bruninne, en hinn Jnnre fyrir neðan brunina og so fyrir vtan þann stein er stendur á hrisholllte eða deílldarhollti þvi það er kallað huortueggia, og vr hrijshollte ofan J læk þann[3] fellur J slattukielldu fyrir vtan bulluhollt. Sua sagðist hann og heyrtt hafa sagtt af sier elldri monnum að Lagafell hið syðra ætti ta″vengi[4] J elliða og það bar þorlakur markusson með honum.

---

1) þetta sýníst eitthvað misskrifað, en sèst án efa, hvernig vera ætti, er menn koma á staðinn.

2) Á víst vera "markgil".

3) vantar "er".

4) þannig skrifað.

10.

*kaupbref fyrir + akranese og holum.*

In nomine Domini Amen: var þetta kaup þorkelʒ abota og brandʒ Arnasonar að firnefndur brandur selur honum halft akranes fyrir 15 c með ollum þeim gognum og giæðum sem þui hefur fylgtt að fornu og nyiu þui sem brandur hefur eigandi að orðið hier J mot selur Brandur Hoola land halftt a nese vt og hier a ofan vc frijð J vor ijc voru og iij kugilldi af huortueggia kwm og ám voru þesser kaupvottar Þorsteinn skjalgsson prestur skafte prestur bergsson Bondinn þorður bergþorsson og margir aðrer dugandi menn.

11.[1]

Þat giori eg sira Jon Jonsson goðum monnum kunnigt með þessu minu brefe. at eg hefir uerit prestur vm .ii. ar og .xx. og heyrði eg vmtalað. huer eyna Olmoðʒey ætti. er liggr i þiorsá fyrir vtan Arbæ, heyrði eg ekki annat ellʒtu menn seigia auallt er til uar talat. enn kirkian i Skarði a landi ætti sagða ey. var faðer minn Jon Palsson Lxxx. uetra hann deyði. heyrði eg hann þratt þui lysa. að kirkian i Skarði ætti sagða ey. Og til sanninda hier um setta eg mitt innsigli fyrir þetta bref giort i Klofa Demetrii martyris Anno Domini. m.cD.xxxx.iiij.

---

1) þetta og fylgjandi brèf eru orðrètt rituð upp úr bók í 16. blaða broti úr handrita safni Hannesar biskups; bók þessi er í stiptsbóka safninu og ritað framan á hana: "eptir brèfabók Ögmundar biskups og ex originali,,. þetta brèf í bókinni er ritað með hendi Árna Magnússonar.

## 12.[1]

### *Um Þórólfsdal:*

Það giore eg Hermundur Árnason goðum monnum kunnugt með þessu mínu opnu brefe, að eg hefe sellt Teiti Gunnlaugssyni Jorðina Þorolfsdal í Lóni í Stafafells kirkiu sókn með þessum landamerkium, sem her seger: alla iaurð á millum Laxár ok Jokulsár inn under Jokul, ok so langt ofan a oddana að þeim kíl að næstur er þioðbröitinni er heitir Vaðe. ok þaðan Sandin allan fyrer austan Hriseyiar og Solur ok Glamsmyre, og Herbiarnar ey, Jorð og fioru alla, utanfiarðar og innan, á millum Os höfða og Papafiarðar os. etc.

## 13.[2]

### *um Möðrudals landamerki*

Þat giorum vier Einar prestur Arnason, Ormur Loptsson, Halldór Ólafsson goðum monnum vitanligt, mz þessu voru opnu brefe, að vier heyrðum Jon Guðmundz son lysa svo vorðnum frammburðe, að hann hefðe vereð barnfæddur í Mauðrudals stað a Fialle, hia fauður sinum sera Guðmunde heitnum Jonssyne, sem guð hans sal friðe. ok sagðe hann hefðe halldeð staðinn fyrrgreindann sex ar oc xx. og kveðst hafa alist þar upp til þess hann var nitian vetra gamall. ok sinn faðer hefðe halldeð landeign Mauðrudals staðar að þeim læk sem fellur undan Sulundum ofan í Haulkná, sem ríðeð er ofan í vopna fiaurð, ok svo langt austur í heiðina under Þrívarðna háls á Skioldolfstaða veg, ok halft

---

1) Fyrir ofan þetta brèf stendur skrifað: 'brèfabók biskups Ögmundar„.

2) Þetta brèf er skrifað með hendi Árna Magnússonar. Nöfnin undir eru eginhandar nöfn, eða frumritnð.

Seningar vatn, ok oll Griotgarðs votn, ok framm á Þrívarðna fiallgarð er stendur a hestleið, Bruarveg ok halfan Arnardal að ollum giæðum, ok atta hrossa göngu beít i Vegge ok krok-mel, ok taka ecki undan fololld, a Myvats auræfe fyrer norðan Jokulsá, ok halfar Herðebreiðs tungur. Her með lyste hann, að Skalholltʒ staðar eign hefðe þá vereð halldin halfer Grímstaðer a fialle, enn Mauðrudals staðar halfer. ok sinn faðer hefðe þar haft egg og fugl, skog ok gras, ok allar landʒ nitiar, enn landamerke ofan að á þeirre sem kaulluð er Vatsleysa. her sagðe hann ongvann hafa atalað meðan hann vísse, utan um Þrívarðna hals hefðe skíoldolfstaða menn uppá talað, þó þar yrðe ecke frammkvæmd á. þennann frammburð ok lysing handsalaðe greindur Jon Guðmundʒ son bókar eíð velbornum dandí manne Guðna Gottskalks syne, sem þa hiellt Mauðrudals stað epter sinne frammsaugn. og tíl meire auðsyningar oc staðfestu epter laganna utvísan, settum vier aðurskrífaðer menn vor ínsígle fyrer þetta vítnesburðar bref, skrífað í Vallaness stað á Vollum, ok greind lysíng for þar framm líka vel Níkulas messudag arum epter guðʒ burð m°.d°.xxx, ok tvö ár.

Svo hlióðande brèf, sem hier fyrir framan skrifað stendur, höfum vier underskrifaðer sieð og yferleseð í bók í folio, ritaðre með hende síra Jóns Erlendssonar, sem prestur var í Villingahollte í Flóa, hverrar bókar meste hlute innehiellt bref og gjörninga Ögmundar Skalhollts biskups. Til sannenda merkes skrifum vier vor nöfn hier under i Skalhollte þann 9. octob. Anno 1711. Arne Magnusson Ormur Daðason Þórður Þórðarson Páll Hákonarson.

---

# IV.

## *Sýslumanna Æfir.*

---

### A. Sýslumenn í Múlasýslu[1]:

#### *Páll Runólfsson*

Um hann finn eg ekki annað enn það, að Skálhollts biskupa annáll og Árbækur segja, að hann hafi verið sýslumaður í millum Jökulsár og Norðfjarðar[2] 1418; þar er og getið um Árna biskups milda kvittun, er biskup sama ár gaf honum; en biskup Árni hafði þá og hirðstjóra embætti. — Faðir Páls mun líklega hafa verið Runólfur Pálsson, er 1391 deildi við Sumarliða Þorsteinsson.[3] Runólfur mun og hafa haft sýslu eystra.

---

1) Bogi heldur, að hèr hafi verið sýslumenn fyrir Pál Runólfsson, Runólfur Pálsson fyrir og fram að 1390, svo Páll Þorvarðarson á Eyðum, faðir Íngibjargar, kvinnu Lopts ríka Guttormssonar, og til þess að hann dó 1403, síðan Gamli Marteinsson um hríð, og til þess er Páll Runólfsson tók þar sýslu. Eru þetta að eins sennilegar getgátur, en engin vissa, sem hann sjálfur segir.

2) Þessi kvittun Árna biskups er í skjalasafni Árna Magnússonar og í eptirriti af henni stendur: "Norðfjarðarnýpu".

3) Runólfur Pálsson deildi og við Pál Þorvarðarson 1392 og 1393, er þá var hirðstjóra umboðsmaður, um eigur síra Páls Þorsteinssonar, er utan hafði farið 1391 og þá dáið í Norvegi; hafði Hákon Jónsson, er fèhirðir hafði orðið í Björgvin 1390, kyrrsetti eigur síra Páls. Narfi lögmaður sagði Páli Þorvarðarsyni, er viljað hefir að fè það, er síra Páll ætti hèr, yrði og upptækt, góðs það allt, er þeir Runólfur deildu um, en Runólfur hèlt sem áður (sjá ísl: annála Árn: Magn.). Runólfur virðist eptir þessu, að hafa verið sonur þessa síra Páls Þorsteinssonar, er verið hefir ríkismaður á sínum tímum.

Seinast í máldaga Núpufells kirkju Pèturs biskups, sem gjörður er 1394, er sagt að Magnús Runólfsson hafi gefið jörðina Formóðsstaði kirkjunni þar eptir Pál bróður sinn; en þó allar líkur sèu

### *Gunnlaugur Guðmundsson*

Til eru vitnisburðir nokkurra manna á skinni, dagsettir 1450, er segjast hafa verið áheyrandi og viðstaddir á þíngstað rèttum, Eyvindarstaða hvömmum — þeir eru skamt frá Egilsstaða þíngstað — á Völlum, er hann hafi dóm út nefnt, og síðan dæmt og ákveðið, að sá, er á Kollstöðum á Völlum byggi, væri skyldur að geyma geldneyti í afrètt á Völlum fyrir austan Grímsá. En afrèttur var talin ofan frá Kaldakvísl að Mjölkrám gegnt Túnguseli. Hèr á móti skyldi sá, er byggi á Kollstöðum hafa 6 vikna beit á Knútsseli. Af þessu sèst, að Gunnlaugur hefir verið sýslumaður fyrir 1450. Eg held, að hann sè sami Gunnlaugur Guðmundsson, er 1428 hafði jarðaskipti við Þórð bónda Þorsteinsson í Skagafirði.[1]

### *Bjarni Marteinsson*

Ætt hans veit eg eigi;[2] en að hann hafi verið kom-

---

fyrir því, að þessu sè viðbætt af hinum seinni biskupum, en þó áður enn Ólafs biskups Rögnvaldssonar máldagi var gjörður, þá getur þó sá Páll Runólfsson verið annar, en sá, er hèr um ræðir. Það er annars eptirtektavert, að Höskuldur Runólfsson, er lifði á dögum Lopts ríka, eða synir hans, áttu Núpufell.

1) Kvinna Gunnlaugs hèt Herdýs Þorgeirsdóttir, hennar dóttir Solveig Runólfsdóttir, kvinna nefnds Þórðar; lèt Þórður er annars er nefndur í fleirum brèfum, Gunnlaug fá nokkra jarðarparta eystra í Hornafirði, er Solveig kvinna hans stóð til eptir Herdýsi móður sína, kvinnu Gunnlaugs, fyrir Kúskerpi í Skagafirði. Gunnlaugur hefir verið dáinn 1451, því Skúli Loptsson uppbauð þá erfíngjum hans LX hundr. frið fyrir Uppsali í Blöndublíð. — Það virðist vel geta verið, að Solveig hafi verið dóttir Runólfs Pálssonar, er eignir hefir átt eystra, og eins að Gunnlaugur hafi verið faðir Teits ríka í Bjarnarnesi (sjá lögmannatal Jóns Sigurðssonar). —

2) Bogi hefir þó talið annarstaðar, að faðir Bjarna hafi verið

inn af stórmennum á þeirri tíð, sèst af því, að hann í sinni tíð hefir þar eystra verið haldinn einhver hinn mesti og ríkasti maður, og kallast valdamaður og stór höfðíngi, því 1460 kvongaðist hann Ragnhildi Þorvarðsdóttur frá Möðruvöllum í Eyjafirði (sjá Árbækur, Biskupasögur o. fl.). Hann var kallaður Hákalla Bjarni, en ekki veit eg hvers vegna. Hann var orðinn sýslumaður í Múlaþíngi um 1455. Líklegt er að faðir hans Marteinn hafi þar eystra valdamaður verið, en ekki hefi eg skjöl fyrir því. Eigi veit eg, hvert ár Bjarni fekk Múlaþíng eða hvenær hann dó. Bjarni og ættmenn hans bjuggu lengi á Ketilstöðum í Múlasýslu. Árið 1465 voru Bjarna lúktir peníngar Ragnhildar Þorvarðsdóttur konu hans 3 *c* hndr. í jörðum og annað af Jóni Narfasyni á Eyðum í umboði hústrúr Margrètar Vigfúsdóttur, móður hennar.

B ö r n Bjarna Marteinssonar og Ragnhildar teljast:

1., *Erlendur* sýslumaður Bjarnason, er hèr getur síðar.

2., *Þorvarður* bjó á Eyðum eystra, hans dóttir *Margrèt* er giptist Sigurði sýslumanni Finnbogasyni (sjá Hegraness sýslu).[1]

3., *Ragnhildur* kvinna Björns sýslumanns Guðnasonar, sjá Ísafjarðar sýslu.

---

Marteinn Gamlason Marteinssonar, en móðir hans Rannveig Sturludóttir, og væri Marteins Gamlasonar getið bæði 1420 og 1431. Þau hjón Marteinn og Rannveig gáfu í prófentu með sèr til Múnkaþverár klausturs jörðina Illugastaði í Fnjóskadal; heldur Bogi að Marteinn Gamlason hafi getað verið sýslumaður í Múlaþíngum milli Páls Runólfssonar og Gunnlaugs Guðmundssonar.

1) Sigurður var fyrri maður Margrètar; en seinni maður hennar hèt Magnús, bjuggu þau á Eyðum eystra, þeirra dóttir var Þorbjörg fyrri kvinna Vigfúsar sýslumanns Þorsteinssonar (sjá Þíngeyar sýslu).

4. *Hólmfríður* hennar maður Páll Pálsson; ár 1488 gefur Henrik Mæding, umboðsmaður Diðriks Pinnings hirðstjóra, Pál bónda Pálsson ákærulausan um það silfur, er Bjarni heitinn Marteinsson hafði að halda eptir Gerk gullsmið og Hólmfríður Bjarnadóttir, kvinna fyrrnefnds Páls, erfði eptir föður sinn móts við bræður sína, o. s. frv., um kirkjublök og tíundarreikníng og þá aðra hluti, er Bjarni var ásakaður og varð brotlegur um, konúngdómsins vegna, svo mikið sem Hólmfríði kvinnu Páls snerti. Af þessu lítur svo út sem Bjarni Marteinsson hafi þá verið dáinn.[1]

1) þetta brèf er gjört á Hoffelli í Hornafirði, og má vera að Páll þessi hafi búið þar. Enn eru talin börn Bjarna Marteinssonar:

5. Íngibjörg, er Fúsi (ɔ: Vigfús) ríki á Borg á Mýrum átti, bróðir Jóns á Hvanneyri; faðir þeirra var þórður á Borg, hans faðir Sigurður ríki á Borg, er á að hafa verið kominn af Auðunni Hyrnu, en Auðunn af Egli Skúlasyni, er getur í Bandamanna sögu, eða jafnvel verið sonur hans, á þetta án efa að vera lángfeðgatal, en liðir eru eigi taldir. Sagt er að Borg hafi verið allan þennan tíma í ætt Borgarmanna, og þeir líka hafi átt Lund í Lundareykjadal, en Auðunn fargað honum úr ættinni. þórði Sigurðssyni lúktu þeir Magnús og Auðunn Salomonssynir kirkjufè á Borg 80 ásauðar, 20 kýr og 6 hndr. í hrossum; en í föðurarf 13 hndr. í geldfè og nautum, 20 hndr. í silfri, 9 hndr. í hrossum, kirtil (eða ketil) og voð fyrir 1 hndr.; item 20 kúgildi búlæg, og 1 hndr. hndr. í jörðum og lausafè, og þar til Beigalda fyrir 12 hndr. þjótstaði 12 hndr., og Læk 12 hndr., summa 1 hndr. hndr. og 90 hndr. Afkomendur Íngibjargar dóu út; en Vigfús átti laundóttur er Guðrún hèt, hana átti Tumás Oddsson Sigurðarsonar Geirmundarsonar; en Geirmundur átti Guðrúnu Ólafsdóttur Tona á Hvoli í Saurbæ, þorleifssonar frá Reykhólum Svartssonar. Frá Tumási og Guðrúnu eru beztu ættir komnar.

6. Marteinn Bjarnason.

*Snjólfur Rafnsson*

Um sýsluvöld Snjólfs hefi eg enga aðra vissu, en það, er Páll Víðalín segir í Katlamáls skýrslu, að hann hafi verið sýslumaður í Múlaþíngi frá 1483 til 1513; hygg eg, ef svo er, að hann eigi hafi haft alla sýsluna, eða þá verið umboðsmaður Erlendar sýslumanns Bjarnasonar, er um sama leyti var þar og sýslumaður. — 1507 vitnar hann, að Rafn lögmaður Brandsson hefði úrskurðað ættleiðíngu Stefáns Loptssonar löglega. 1527 ritaði hann undir kaupmálabrèf þeirra Rafns lögmanns Brandssonar og Þórunnar Jónsdóttur biskups Arasonar.[1]

Faðir Snjólfs var Rafn lögmaður Brandsson,[2] hinn fyrri.

Móðir, Margrèt Eyólfsdóttir riddara Arnfinnssonar riddara Þorsteinssonar lögmanns Eyólfssonar; bjuggu þeir lángfeðgar á Urðum í Svarfaðardal.

---

1) Í eptirriti, er eg á, af kaupmálagjörníngi Rafns lögmanns og Þórunnar eptir síra Eyólf á Völlum, stendur Brynjólfur Rafnsson, sem fyrsti kaupvottur af leikmönnum, en á án efa að vera Snjólfur Rafnsson; Brynjólfs Rafnssonar getur hvergi, svo eg viti, en það er eðlilegt, að Snjólfur föðurbróðir Rafns væri þar við, og teldist með helztu kaupvottunum.

2) Brandur faðir Rafns lögmanns Brandssonar eldra (sjá lögmannatal Jóns Sigurðssonar) var Haldórsson og bjó að Barði í Skagafirði, er hann kaypti að Magnúsi Presti Böðvarssyni 1417, kvinna hans og móðir Rafns lögmanns var Ragna Rafnsdóttir lögmanns Guðmundssonar; Haldór keypti á Óslandi (þá jörð áttu niðjar hans seinna) 1390 hálft Marbæli, en faðir Haldórs hèt Arngeir, átti hann jarðirnar Læk og Bakka í Slèttuhlíð um miðja 14. öld, er faðir hans Skúfur Pálsson hafði keypt af Guðrúnu Rögnvaldsdóttur; hefir því Páll þessi lifað á 13. öld. Eptir Brand Haldórsson skiptist Barð í Fljótum syni hans Haldóri; Ólafur biskup Rögnvaldsson sölsaði það undir sig af niðjum hans, en lögmaður Jón Jónsson keypti seinna tilkall til þess af niðjum þeirra, og fekk sèr það dæmt, en gaf það síðan til beneficiums eptir tilmælum höfuðmannsins.

Systkyni: 1. Brandur, prior á Skriðuklaustri, hans börn
a, Rafn lögmaður Brandsson hinn ýngri, er átti Þórunni dóttur Jóns biskups Arasonar, þeirra afkvæmi komst eigi upp.
b, Árni, er átti Úlfheiði dóttur Þorsteins sýslumanns Finnbogasonar (sjá Þíngeyarsýslu), þeirra börn
Eyríkur sýslumaður Árnason, sjá hèr síðar, og hans systkyni
2. Solveig Rafnsdóttir, seinasta abbadýs á Reynistað.

Kvinna Salný Pálsdóttir, systir Ögmundar biskups, hana átti síðar Torfi Þorgrímsson, er sóaði fè þeirra.

Börn, 1. Eyríkur Snjólfsson undir Ási í Hèraði austur, hann átti fyr Ólöfu Eyólfsdóttur frá Hjalla í Ölvesi.[1] þ. b.
a, Þorgerður, hana átti Jón Indriðason í Árnanesi } úreldtar ættir
b, önnur dóttir þeirra átti Björn Björnsson vestra } úreldtar ættir
síðan átti Eyríkur Snjólfsson Þuríði Þorleifsdóttur frá Möðruvöllum Grímssonar (sjá Vaðlaþíng), þeirra börn
c, Haldóra, kvinna Magnúsar Björnssonar Jónssonar biskups Arasonar.

1) Móðir Ólafar var Ásdýs, systir Ögmundar biskups, svo þau hjónin hafa verið systrabörn, en eigi var leyfilegt í papisku, að hjón væri svo skyld, hafa þau því eigi gipst fyrri enn eptir siðaskiptin, því í fyrstu eptir þau var lítið skipt sèr af skyldugleika hjóna; eða Eiríkur hefir eigi verið son Salnýar og Snjólfur þá verið tvígiptur.

*d*, Ólöf, kvinna Vigfúsar Þorsteinssonar Finnbogasonar (sjá Þíngeyjar sýslu).

2. Ásbjörn Snjólfsson,[1] hans börn

*a*, Þórður.

*b*, Jón.

3. Valgerður (eða Salgerður) seinni kvinna Vigfúsar lögmanns Erlendssonar, bl.

Snjólfur Rafnsson bjó undir Ási í Hèraði austur.

### *Erlendur Bjarnason*

Faðir hans var Bjarni sýslumaður Marteinsson (sjá hèr að framan).

Móðir: Ragnhildur Þorvarðsdóttir Loptssonar ríka.

Kvinna: Vilborg Loptsdóttir[2] hún hafði tekið fram hjá manni sínum og gaf Ögmundur biskup Bjarna kvittun þar fyrir hennar vegna 1526.

Börn: 1. Margrèt kvinna Páls sýslnmanns Grímssonar frá Möðruvöllum (sjá Húnavatnsþíng).

2. Bjarni sýslumaður, er hèr getur síðar.

Erlendur bjó á Ketilstöðum eptir föður sinn og hefir stofnsett hálfkirkju hins heilaga Andrèsar postula, að Ketilstöðum á Völlum ár 1500, gaf Erlendur henni þá ivc rekasand og vi kúgildi. Item gaf hann kirkjunni að Vallanesi í uppgjöf fyrir tíundir og lýsitolla xiic jörð Víðastaði á Útmanna sveit; hefir sá gjörníngur og skilmálar síðan haldist. Erlendur þessi kallast sýslumaður,

---

1., Ásbjörn Snjólfsson nefna sumar ættartölubækur eigi meðal barna Sjólfs Rafnssonar, þó getur það verið, að hann hafi verið son hans; sú kvísl hefir úrkynjast, en viðhelst þó enn, og það í karllegg.

2., Eg hefi eigi sèð þessa kvittun Ögmundar biskups; en í eptirriti af kvittun höfuðsmannsins Johans Bucholts, dagsettri 1527, nefnist hún Vilborg Jónsdóttir; hitt getur verið rèttara.

en eigi er nefnt ártalið. Er líkast hann hafi verið samtíða Snjólfi og fyrir og eptir hann sýslumaður, og Snjólfur verið umboðsmaður hans, eða þeir hafa þá skipt sýslunni millum sín, meðan Snjólfur hèlt við. Æfintýrísins um líflát Erlendar er getið í Árbókanna III undir árinu 1518; en eg hygg þann viðburð eigi hafa orðið fyrir árið 1525 eða 1526, annars er það allt munnleg sögn, í rit færð af Jóni sýslumanni Jakobssyni, og getgáta ein um ártalið. — Jón sýslumaður Jakobsson heldur að Erlendur hafi verið sýslumaður fyrir 1500, og það er líkast, að hann hafi tekið við sýsluvöldum af föður sínum Bjarna Marteinssyni.

*Bjarni Erlendsson*

Faðir hans var fyrrtèður Erlendur sýslumaður Bjarnason.
Móðir: Vilborg Loptsdóttir.
Systkyni: Margrèt áðurnefnd.
Kvinna: Guðríður Þorsteinsdóttir sýslumanns Finnbogasonar (sjá Þíngeyar sýslu).
Börn: 1. Vilborg kvinna Einars Eyólfssonar[1] frá Dal

1., Eyólfur faðir Einars var Einarsson Eyólfssonar lögmanns Einarssonar (sjá lögmannatal Jóns Sigurðssonar), Árnasonar; segir Espólín sýslumaður að Árni þessi hafi verið Árni Dalskeggur, er bjó í ytra Djúpadal eða Stóradal í Eyjafirði, og að Árni sá hafi verið Magnússon, heldur hann að Magnús þessi hafi verið sá Magnús Hafliðason, er 1401 deildi um skóg að ytra Djúpadal við Björn jórsalafara Einarsson; en þetta er eigi með öllu rètt, því Einar faðir Björns jórsalafara var Eyríksson, en Einar faðir þess Björns, er deildi við Magnús Hafliðason, var Björnsson, eptir því sem stendur í dómsbrèfinu; þrætan var og um skóg, er Djúpidalur áttti í Núpufellslandi; hafði Magnús er hèlt Núpufell, látið vinna í skóginum, en Björn, er átti Djúpadal, átaldi. Björns getur og í Pèturs biskups

undir Eyjafjöllum; þau áttu ekki barn, og drukknaði hann þar í fljótinu.

2. Málmfríður, hana átti fyrst Jón á Espihóli Einarsson Brynjólfssonar (sjá Vöðluþíng), en síðan Einar Ásmundsson; þeirra son hèt Bjarni, er þau gáfu hálfan Espihól og Merkigil 1591.[1]

Bjarni er orðinn sýslumaður í Múlaþíngi 1530, því þá finnst dómur eptir hann. Kristján konúngur hinn

máldagabók seinast á 14. öld, að hann þá hafi verið í Djúpadal. það getur þannig eigi verið nein ástæða til að halda, að Magnús Hafliðason hafi verið faðir Árna Dalskeggs, er sagt er að búið hafi í Djúpadal, þó hann deildi við Djúpadalsmenn. Eg man eigi heldur til að eg hafi sèð Árna Dalskegg nokkurstaðar kallaðan Magnússon, nema hjá Espólín; aðrar ættartölubækur nefna eigi föður hans. Í Ólafs biskups máldagabók er sagt, er hann tekur reiknúng Djúpadals kirkju 1471, að Eyólfur og Björn hafi gjört reiknúng eptir föður þeirra látinn Einar Árnason, er búið hafi í Djúpadal í 45 ár, en að þeir eigi hafi viljað svara fyrir Árna, en Árni faðir Einars hafi búið þar í 27 ár. Enn fremur stendur þar, að árið 1478 hafi Árni Einarsson gjört reiknúng við biskupinn á tekjum kirkjunnar. — Nú stendur í ættartölubókum, bæði Jóns Magnússonar og fleirum, að börn Einars Árnasonar hafi verið meðal annara fleiri:

1. Eyríkur lögmaður (auðsjáanlega skakkt, fyrir Eyólfur lögmaður), faðir Einars er átti Hólmfríði Erlendsdóttur.
2. Björn.
3. Árni (alii skakkt Bjarni). þegar menn nú bera þetta saman, þá virðist ættin að hafa verið þessi: Björn, er lifað hefir á fyrra hluta 14. aldar, hans son Einar lifði enn 1401, hans son Björn, er í þrætunni átti við Magnús Hafliðason í Gnúpufelli 1401, hans bróðir Árni, hans son Einar, hans synir Eyólfur lögmaður Björn og Árni.

1) það er sagt, að Einar Ásmundsson hafi verið vinnumaður Málmfríðar og ættaður að sunnan.

þriðji skrifaði Bjarna, ásamt öðrum höfðíngjum 1557, að veita mótstöðu Jóni biskupi Arasyni. Til er og dómur af honum útnefndur á Bessastöðum 1559, um fátæka menn og letistráka, er Bjarni þar kallaður heiðarlegur og velbyrðigur umboðsmaður yfir alla austfjörðu; virðist af því, sem hann hafi þá og haldið Skaptafellssýslu, og verið hinn mesti valdamaður. Hann lifði 1566; en hvaða ár hann hefir dáið, eða hve lengi haft sýsluvöld, veit eg eigi.

### *Eiríkur Árnason*

Faðir hans Árni Brandsson, bróðir Rafns lögmanns Brandssonar hins síðara (sjá hèr að framan).

Móðir: Úlfheiður Þorsteinsdóttir sýslumanns Finnbogasonar (sjá Þíngeyjarsýslu).[1]

Kvinna: Guðrún Árnadóttir Pèturssonar Loptssonar.

Eyríkur tók Skriðuklaustur og hèlt það lengi. Síðan, er Bjarni sýslumaður Erlendsson slepti Múlaþíngi eða dó, tók Eyríkur Múlaþíng um 1570 eða litlu fyrri og hèlt sýsluna til þess kona hans Guðrún dó um 1579; slepti hann þá sýslunni og sigldi til Hamborgar, og giptist þar í öðru sinni. Eigi veit eg, hvort hann hefir átt barn með þessum konum sínum, eða hvort nokkur ætt er af honum komin hèr á landi, eða hvað merkilegt er um hann að skrifa, eða nær hann dó. 1573 að Eg-

---

1) Systkyni Eiríks teljast:

1. Guðlaug Árnadóttir, kvinna Þórðar Björnssonar á Eyvindará.
2. Þórdýs Árnadóttir, kvinna síra Sigurðar Árnasonar á Skorastað.
3. Íngibjörg Árnadóttir, kvinna síra Þorvarðar á Vallanesi Magnússonar.
4. Helga Árnadóttir, kvinna Jóns Björnssonar á Egilstöðum.
5. Guðrún Árnadóttir, kvinna Erlendar Hjaltasonar á Borg undir Eyjafjöllum.

ilstöðum voru í dóm nefndir 5 lögrèttumenn og 7 leikmenn,[1] af prófasti og sýslumanni Eiríki Árnasyni yfir Austfjörðum um vetrarsela á ís fyrir annars landi; dæmdust selarnir þess er land ætti, ef í fiskhelgi væri. Eiríkur var kallaður *prestahatari*, því hann tók presta í hald. Bætti Eiríkur 300 spesíudali fyrir afbrot sín til Jóhanns Bucholts 1577.[2]

### *Sigurður Jónsson*

Um hann veit eg ekki annað, en það, er árbækur Espólíns segja, að hann hafi látið dóm gánga að Egilsstöðum í Fljótsdals hèraði 1579 um skattgjald þeirra, er missa fè sitt um vetur, og við árið 1580 nefnist hann sýslumaður í Múla þíngi; en hvort hann hefir verið virkilegur, eða eigi utan umboðsmaður, er mèr óljóst; eins hvað mikið hann hafði af sýslunni. Líklegast hefir hann að eins verið umboðsmaður.

1) þetta verður að vera misskrifað, því úr því sýslumaður og prófastur útnefndu dóminn í sameiníngu, hefir það hlotið að vera helmíngadómur, eða nokkur hluti dómenda andlegir en hinir leikmenn.

2) Espólín segir, að það muni hafa verið "innkomin kynfylgja" hjá Eiríki, að hatast við presta, frá Rafni lögmanni Brandssyni eldra, er deildi við Ólaf biskup Rögnvaldsson. það sýnir og, að Eiríkur eigi hefir haldið upp á presta, að í helmíngadómi nokkrum, er hann útnefndi með prófasti, telur hann leikmennina eða bændurna á undan prestunum, er var með öllu gagnstætt því, er þá tíðkaðist.

# V.

## Maldaga Bækur Hoola domkyrkiu

Coperaðar og samanteknar epter þeim
Gömlu kalskins Maldaga Bókum
Sem liggia a Hoolum Orð epter
Orð Epter Befalningu vorʒ
Näðugasta Herra Konungi
Christians þess fiórða thil
Danmerkur og Noregs etc.
Og epter thilsogn vel
burðugs mans Pros
mundʒ Kong Majesta
tis Befalnings manns
Yfer Island

Aptur að nyu vppskrifaðar og vnderskrifaðar
á Hoolum I Hialltadal 1645.

Mäldaga Bok Auðunar Byskups
hvorrar Datum er 1318 ar.

Maldaga Bækur Hola dómkyrkiu coperaðar og samannlesnar epter þeim Gömlu kalfskins Maldag Bokum, sem liggia a Holum Orð epter orð, Epter Befalniugu vors Náðugasta Herra konungs: Christians þess fiorða thil Danmerkur og Noregs etc. Og epter thilsogn velburðugs manns Prosmunds Kong Majestat is Befalnings manns yfer Island. Aptur að nýu vppskrifaðar og vnderskrifaðar á Hölum I Hialltadal 1645.

Mäldaga Bök Auðunar Byskups, Hvorrar Datum er 1318 äör.

Þá liðið war fra híngaðburð worꝫ herra Jesu Christi þúshundruð, þriu hundruð og xviii är, a dogum byskups dæmis virðuligs herra Auðunar Byskups:[1] liet hann Innvirðilega skoða og reikna Goðꝫ allra kyrkna I sijnu Byskupsdæme og það a þessa bok skra, sem hann fann sannlegast og riettelegast, huað huor kyrkia ætte að fornu og nyu I lausu og fostu:

*Sauðaness kyrkia*

Kyrckia á Sauðanese ä halft heima land, og vmmframm kyrkiu reka, og Eggvers holm I Holma vatne Löns land halft. Elldjarns staði alla, og þar reka meður. Sauðanes hið syðra. v. kugilldi, kluckur vı. alltaris klæði iij. sár og kista, Elldbere og Biarnfell, klaka hoggur. ij. marka skínargur. ij. messu klæðe og hokull. vmframm stola og handlijn, kaleykur og yfer sloppur.

---

1) Útá röndinni stendur: Nota, Auðun biskup, kallaður Rauði, var 10. biskup a Holum, kom til Hola anno 1314, en deyði anno 1322 sem sia ma I Islandꝫ annalum.

Tekur prestur heima iiij. merkur. iiij. Bænhüs, og vi. aurar af huorjiu. Kyrkia ä vppsätur og skäla giorð I Dritvijk og halfann viðreka og fuglberg. Selfor hia Balafelle. fells lækur er keyptur var fyrer kugilldi. siettung J hualreka fyrer Hallgeyrȝstoðum, milli Tofta og Öss. Dedicatio Ecclesiæ Olafs messu syðare. Þetta gaf Arne Bonde J sälugíof epter sig. Reka frä vorðu a Bockum og thil sandkross hinn xvi htut. [rkiuskerium hinn xvi hlu] og hálft Brimnes með viðreka og landgognum. siettung J øllum hualreka a mille Toftar og Óss. á þar nu kyrkia þriðiung og äsauðar kugilldi. iij. kyr. vxa iiij vetra. hundraðs reckiu. x. aura läs. kistu. kantara. kapu og kistu. kyrkiu läs. [lambs ellde] vmm oll þijng, biargfestar fiogur hundruð.x

*Sualbarð í Thistilfirði*

Kyrkia a Sualbarðe ä allt heimaland. land I Hialmarsvijk. vii. kugilldi og hest. xiiij. lamba eldi. ij. alltaris klæði. Peturs lykneski. ij. krossar. Glergluggur sacrarium. munnlaug. Biarnfell. Tekur prestur heima viij* merkur. v. Bænahus. xii. aurar af fiorum. vi aurar

---

[ ] þetta stendur út á röndinni í „A", en er vísað hèr inn í; í „B" vantar það. það er auðsèð, að fyrstu stafirnir eru fallnir burtu vegna fúa; það stendur þannig í 2 línum:

rkiuskerium
hinn xvi hlu.

Mun þetta eigi eiga að vera: „í kyrkiuskerium [og?] hinn xvi hluti"?

[ ] fyrir „lambseldi" hefir B „skurð"; en þetta hefir verið dregið þar út aptur og skrifað í þess stað út á röndinni „lambselldi„ með annari hendi.

x I B standa hèr epter 3 lángstrik, hvert eptir öðru, er lýsir því, að ritarinn hefir álitið, að nokkuð væri eptir, er hann eigi gæti lesið.

* Í B standa iiij.

af einu. xii hundruð I Testamentum Ara prest3, er það Brecknakot og vi. hundruð I Gripum sæmelegum Innann kyrkiu. Kyrkiu að Sualbarði fylgia v. kyr. og iij asauðar kugilldi og Hermundarfell. hálft fiorða hundrað I flitfanda eyrer. —»— —»—*

Fiskatollur presti vmm oll þyng.

*Presthóla kyrkia.*

Kyrekia I Holum a allt heimaland, hun a skurð vmm oll þijng sijn, og vmmframm annann skurð I' ollum þeim rekum, sem þeir Hiallti og Kietill ättu, og nu heijta Hafnarrekar. Landgogn aull þau sem fylgia eigu skala landi og Þorbiorn gaf Arnors son. Fiska tollur vmm alla Sliettu. Kyrkiann ä kyr iij. cc. J Bokum. c. frijðt, messufot. kapitularium. ij. Gloðar kier. Elldbere. Kluckur iiij. Tiolld vmm kyrkiu. Alltaris klæði iij. Klaka hogg, skript, og krossar iij. Saar. stoll, kola, munlaug, borð. Sauður. Iarnstikur iij. hier liggur thil half kyrkia, og v Bænahus. vı aurar af iij, half mork af tueijmur.

*Kyrkia I Hafra fells Tungu.*

Kyrkia I Hafra fell3 Tungu a halft heima.** Jonstaði alla og fiorðung I viðreka I Ormars lone. Teyg þann er Leystur heyter, skog I Lækiardals landi. I kugilldi. iij. messuklæði að aullu, og að auk messuserk ogx hofuð songbok. messu bok per anni circulum. Elld-

---

* Allan endan hèr frá vantar í B, en hefir seinna verið skrifaður með annari hendi þar, orðrètt og hèr.

** Í „B“ stendur: „Lonstaði“.

x Í B hefir fyrst verið ritað: handlijn: Söngbók; en síðan hefir „hand“ verið drepið út og ritað útá röndina í þess stað með annari hendi „hofuð“.

bere. Gloðarkier. merke. ij. kross smelltur. kaleykur. kluckur iij. *tiolld vmm kyrkiu. Altarisklæði. iij. iiij. merkur heima I leigu, aðrar iiij vtann garðȝ.

*Skinnastaða Kyrkia.*

Kyrkia á Skinnastoðum á halft heimaland og Reka allann mílle Skoga reka, og Ærlækiar Reka. I vellann kautlu Eystre fiorðung I hual ef rekur, og so I viðreka. 1 Raufar hofn hinn xvi. hlut í hual ef rekur og Egg-vere,[x] fiorðung I viðreka mille hruta vogs og hols ꜵr. Kyrkia a og iij vætter af ollum rekum Ketils helga sonar I huorium hual er kemur, ef hann er xii vætter eður meijra. Austur fra Gía til Oddȝ staða Osa a kyrkia iij vætter er Brandur gaf. Kyrkiu fylger að raða fyrer skotmans hual að helminge a Griot ness Reka, Það gaf Erlendur er bio a Akur hofða. Kyrkia a xi kyr. halfur fiorði taugur asauðar, hestar iiij. c. frijðt. cccccccc I virðingar fie. Kyrkia a messu bok, og giorninga bok, martyrologium, sylfur kaleika iij og kistur ij. forn messu fot og guðuefiar hokul, Alltaris klæði iiij. yfirsloppa iij. kantara kapur. ij. og hin þriðia balldur skiner :· Tiolld vmm kyrkiu. kierta stikur iij. með kolu. Lꜵs, Roðu krossa iiij, og einn er smellt I. Gradualia ij. plenaria ij. Glergluggur, kluckur. Biarnfell og munnlaugar ij. Elldbere. gloðar kier, skryn og Bakstur jarn. Suffragium sanctorum. iij. bækur. psalltare; 1 kietill nyr, fontȝ vmmbunaður. steinklæði iij. þar skulu vera[xx] ij

---

* tiolld vmm kyrkiu, hefir fyrst vantað í B, en er þar seinna út á röndinni bætt inn í með annari hendi.

x Í B stendur: Eggver.

xx Í B vantar „vera", en er bætt inn í með annari hendi út á röndinni.

prestar, tekur heíma prestur iiij merkur leigu,* enn annar af vij. Bænhusum, af einu tolf aurar. oðru vı. af tueimur mork af hvoriu, af einu v. aurar. Af Klifȝ haga .iiij. merkur.

*Garðȝ Kirkia*

Kyrkia J Garði er helguð Mariu Drottningu og Jone postula og Thomase postula, kyrkia a allt heima land með Reka og ollum gognum þeim sem Garðȝ landi fylgia. Dedicatio Ecclesiæ. 11 nottum fyrer Laurentius messu. Þetta J kuikfie. viij. kyr. xii. ær, hundraðȝ hokull, messu fot ein, og hokull vmm framm, Alltaris stein. Mariu sogu, og niður stigningar sogu, Artyða Rijm, Seqventíu Bok, og vorbok að song, lestur bok vmm sumarið. Kluckur iiij. krossa iiij. Mariu skript. Thorlaks lykneski, glergluggur. Bok, fontur, psalltarar ij. lyka abreyðsle vont, kyrckíu kola, Elldkier, munnlaug ein, alltavís klæði iij. Brykar klæði ij. kyrkíuläs, klaka hogg, kierta klofe, og spyta með. Buðkar ij. og lectarar iij, kiertis stockar ij, lysis kijsta, messu fata kista. Jarn stikur iiij. stolar ij, fota skinn ij, skriðlios, kyrkiu bolle, merki j. Sotdrift, kyrkia altiollduð og biorar ij. Bolstrar ij. Blatt klæði, og saumað a og Refill vmm framm. Garðȝ menn eigu beyt J Byrgis land allȝ fiar a sand vt, tekur prestur heima[x] iiij. merkur leigu. iij. merkur vtann garðȝ og halft annað J hafnarvoð, ij hundr-

---

* Í B hefir staðið með fyrsta „I leigu“, en „I“ er þar aptur út dregið og er auðséð af blekiuu, að það hefir verið seinna gjört.

x Í B hefir og staðið „heima“, en því hefir seinna verið breytt þar í „heim“.

uð J staðar spiell, Thomas lykneski, sloppur vondur, messu Bok per annum*, Eldbere.

### *Hwsa vykur Kyrkia.*

Kyrkia I Húsavijk á heimaland. x kyr. stocka kier, og ork, kaleikar. ij. ij messuklæði forn. sloppar iij. alltarisklæði iij. kluckur iiij, kross smelltur, ein messingar stika. ij. jarn stikur. paxblað sæmelegtt, munnlaugar ij. kyrkiu sar. lyka abreiðsl. vond kantarakapa. stolar ij. messu klæða kista, skryn. Maríu lykneski. Magnus lykn eski sæmelegt, og 'dukur veigaður yfer oðru. Texti, messubok per anni circulum, Seqventíu Bok, Graðall að nafne. songbok vm fostu** að skipuðu, Aspiciens bok. de Sanctis vmm sumarið, viii aðrar Bækur að tölu, kyrkiu kola, fontur, merki ij. tiolld vmm alla kyrkiu, Fimtan lamba eldi liggur hier thil. skulu þeir bændur ala, og abyrgiast er sa vill er hier býr. a millum Biarnar ar og Biklækiar. enn þeir aðrer Bændur, er þingfarar kaupe eigu að giegna, þa skulu giallda presti fiorðung vættar fiska huort haust, þeir bændur er minna fie eiga, fae presti fiorðung. kyrkia a og siettung hualreka, og flutningar fyrer Kalldbaks landi, milli Suarthamars og foruaða. þriðiungur I Backa Reka, og suo flutningur, mille Backa garðz og Reyðar ar I hual reka, skal ei minna thil kyrkiu skrautz vera af þessum hual huorum tueggia enn hinn fimte hlutur. Þar er ii. presta skylld, af ii. halfkyrkium iiij merkur. af vi. Bænhusum, lýsistollur og heytollur af xviii Bæjum. Fluttninga halfa a Rýnguere.

---

* „per annum" hefir fyrst vantað í B, en er seinna ritað þar útá röndinni.

** Í B stendur: fostu, að skipuðu Aspicicus Bok.

*As Kyrkia.*

Kyrkia I Ase a þriðiung I heimalande. vi. kýgilldi, þriðiungur viðreka a harðbak, fiorðung I Vellan kautlu, og hinn tyunde hlutur I hualreka I Vermsla Reka, og skipan að þeim hluta ef rekur enn ecke ella, og skipan að þeim hluta, og allann Reka a Sandi vt, þuílijkann sem að fornum Landʒmerkium hefur fylgtt. Aður Halldor for vr Ase, gaf hann kyrkiunne Botna teyg og halfa alfta veyður, það er fylgt hefur Byrgis landi og annann teyg Skafrofa. Kyrkia I Ase á lamba eldi allt ofann vnder fioll, og skulu þeir abyrgiast er við taka. Þetta I skruða, Tiolld iij, kiertastikur viij. kluckur v. Glergluggur, munnlaug, ij messuklæði. yfersloppur, alltaris klæði iiij. Corporalía ij. krossar iiij, kaleykur, sar, fontur, og font klæði, kyrkiu kola, kiertestockar ij. merki ij. Brijkar klæði, alltaris dukur, psalltari sa er tekur mork, og annar psalltare. Communis Bok að messum: Hymnarium, gloðarkier, eldbere, Thomas saungur* og Thomas saga, sotdrift, fota skinn ij. messingar lampar ij. bolstrar ij. klaka hogg ij. kyrkiu bolli og spijta af Jarne. Kierta klofe, artijða Rijm, skriðljós, kyrckiu kambur, kierta grind, Mariu skript, Thomas lyknesne, paxblað**, tabula yfer alltare. Tekur heima iiij. merkur af iij. Bænhusum. xii. aura. Kyrkia a og song bok er Bergur gaf og tekur fra nyu vikna fostu og thil Paska, vii kugilldi og v hundruð i flytianda eyre*** og Thomas sogu.

---

* Í B hefir með fyrsta staðið „lykneski", en er aptur seinna dregið út, og í þess stað sett út á röndina með annari hendi „saungur".

** hefir fyrst vantað í B, en er ritað út á röndina með annari hendi.

*** Orðið: „og" vantar í B.

*Reykiahlyðar Kyrkia.*

Kyrkia I Reykiahlyð a halft heimaland með ollum gognum og giæðum. Þetta Innan kyrkiu, messu klæði, j kaleykur, krossar iij. Laurentius lykneski, Mariu lykneski, alltaris klæði iij. Jarnstika mykil, og iiij. litlar, kluckur iij. merki ij. kyrkiu kola, Gloðar kier, Elldbere, munlaug, Nichulas lykneski, skrijn, iii. Bækur vondar, kista olæst, Tiolld vmm alla kyrkiu. Steintialld gott* vmm saunghus, v. kyr, hundraðs hross iii. merkur. Hier er prestʒ skylld, iiij. merkur heima, vtanugarðʒ half fiorða mork af half kyrkiu og þrem Bænhusum. Af vi bæum beytollur og lysistollur. Ofeigur skal leggia thil kyrkiu x** aura a huorium xij. manaðum so leingi sem hann byr. Rauður hokull nyr, er herra Eigill*** byskup gaf, einn kross**** i brottu, liereptʒ hokull gulur. Dedicatio Ecclesiæ in festo Sixti Papæ. Kyrkian a Raun[x] ey fyrer vestan vatn, og[xx] halfann Fretvog, Landið allt samann a Geytur ey, og Kalfʒ holm, og hott og vott, og kingur[xxx]. Liereptʒ hokull, annar gulur, er virður var af voga byrne fyrer vi aura, half mork I Bokum, psalltara sæmelegann, lyka krak, v. aura abreiðsl.

---

* Í B hefir fyrst verið skrifað goðtt, en síðan breytt í „gott".

** Í B hefir eitthvað fyrst staðið fyrir framan x, en hefir seinna verið dregið út.

*** Er bætt inní B með annarri hendi og stendur í A.

**** Í B hefir fyrst verið ritað obreyttur, en er með annarri hendi breytt aptur í ábrottu.

x Í B hefir staðið Hraun, en er þar leiðrètt í Raun.

xx Í B hefir staðið Kirpian á, en þetta er dregið út og skrifað meðannarri hendi fyrir ofan „og".

xxx Í B hefir staðið klukur, en er þar breytt í kingur.

### *Skwtustaða Kyrkia.*

Kyrkia á Skutustoðum á prestʒ skylld 1 heimaland, og iiii. merkur I leigu, kyr ij. I skruða tuenn messu klæði, og kaleykur, ii. alltaris klæði, Tiolld vmm kyrkiu. Brykar klæði ij. merki ij. vont abreijðsl, krossar iij. lykneski ij. kluckur iij. Biarnfell, Gloðar kier, Elldberi, Skriðlios, fontur og fontklæði, ein Jarnstika, messu Bækur ij. per anni Circulum. Segventiu Bok, Lesbok goð tekur thil að Jola fostu og thil paska að Dominicum. Aspiciens Bok god de Sanctis. tekur thil, að Jons messu. og framm vmm allra heilagra messu, Grallare forn, Lesbok, tekur thil að paskum og thil Jola fostu, og framann thil paska, og er að skipuðu, lesbok a veturinn De Sanctis. ıx Bækur,* osttollur, og skreijðatollur á xi Bæjum. Löjga prestʒ vtann Garðʒ, Halft annað hundrað, x. hundruð J messu klæðum, I Bokum og Gripum, að Dag presti hundraðʒ gripur. iij. Bækur litlar, er Are prestur gaf, og taka v. aura. Kyrkia a og x hundruð frijð, er gefin voru fyrer kyrkiu uppsmijð. halfur vi eyrer. Eyulfur gaf ku fyrer moður sinnar sal og systur. Item hest. klucku. Olafʒ skrift, kietill, C. gaf Þorður Hareks son.

### *Þuerꝍr Kirkia*

Kyrkia að þuera I Laxardal, ein messu klæðe, iij. Alltaris klæði, kaleykur, munnlaug, tiolld vmm kyrkiu, merki ij. kluckur v. glodar kier. Elldbere. fontur, og fontklæði. Hier er prest skylld I landi, greijða hiner iiij. merkur. v. Bænhus, half mork af hvoru, af viii. Bæjum heitollur og lysistollur. Peturʒ lykneski. Mariu

* Í B hefir fyrst verið ritað „Liostollur“ og slept út úr ıx Bækur, en er síðan leiðrétt þar með annari hendi.

lykneski, bakstur Jarn, klucka lijtil, stola forn, Alltaris blæja. v. aurar frijder, glergluggur, kyrkiu kola. Þetta I knikfie, kyr iiij. x. hundruð vøru.

*Greniastaðar kyrkia.*

Kyrkiann á Greniaðarstoðum er helguð Martino Byskupe, hun a allt heima land með ollum vmm merkium. Bruarland. Asgeyrstaði. Birnostaði. Hrijsaland, Klambrar land, Silalæk*, Eyiarland, Geijtafell, Breijðavyk alla með gognum. Vatt ey. Knapp ey. Arngerðar ey, Odælu holmur. Þorkrox holmar, Graslaugs holmur, og aller sma holmar, lækiar teijgur, Nesiar teigur, Garðhuerfua, Kraka vollur, Soleyar teigur, Fins teygur, Kietils teigur, fyrer ofann hraungarð. Þorunnar ey, holmur hinn mijkli, Husabacke, Angi myre. Eski ey. Selfor thil krijnglu vatz, selfor halft I skarði uppi, hrossum[x] vi. hage á efri mela, enn iiij a neðre mela. Afriett I Nattfaravijk, halfu fiorða hundraði sauða, helmijngur I þingeyiu við Einarstaði og Backaland, þriðiung I Reka fyrer alla Nattfaravijk, og aull flutning fyrer Ysta Bol, en fyrer mið bol half og so viðum, og fiskuer að helmínge, og so fyrer Skala reka a sandi. xii hundruð faðma með aullum friðendum, halfur Tungu Reki með aullum friðendum. Þriðiungur hualreka á Hialltanesi,[xx] fiorðungur langa Reka. Attungur hualreka a Kallbak, með flutningu. Lax-

* Í B hefir staðið „Silalæk", en er breytt með annari hendi í Sila læk.

x Þannig bæði í A og B, en í B er þessu síðar breytt og „um" dregið út, svo þar er nú, hrossu vi. Í A hefir þessu ekki verið breytt, en þó hefir verið dregið feitt blýants strik undir þessi tvö orð þar.

xx Í B stendur Hiallanesi.

veijði I Ose, Tueijr hluter ins vi. hundraðs eru þaðann fra aull, halft egguer J Ose, selveyður oll I fliote. Reka með ollum gognum a sandi er Guðmundur gaf. viðreki a Sandi, er fylgt hefur Garðʒ landi; fiorðungur I hualreka a litlu fioru og vt thil Suijn aar, Rekar þessir hafa fylgt Klifshaga, enn nu eigu baðer samann staðerner, Greniaðar staður ij hlute, en Mwla staður þriðiunginn. vi. vætter I Kleyfar Reka, ef a eru xx vætter, iij. ef minna er, enn x. vætter af hluta þeim er att hafði Einar prestur Hoskulldsson. Gijgiar horn skal liggia við Gnupinn, það Reka mark sia afreiðsla er þar, huort sem fluttur er eður rekur. I Husa reka vi. vætter ef a eru xx. vætter, iij. vætter ef minna er, ecki ef minna er, enn x vætter, huort sem rekur eður fluttur er. I Leyrhöfn attungi minna enn halfur hualur ef rekur, ekki ef fluttur er, I Griotness reka halfur hualur, huort sem rekur eður fluttur er, afreiðsla xii vætter, vt fra Hofða skala af oskiptu^x ef rekur, en ecke ella, Sa Reki geingur vt I Gia I Rauðagnup, I vellan kotlu vestri halfur hualur ef fluttur er, en ef rekur þriðiunginn og vi. vætter, Enn I Eystri vellann kotlu, halfur hualur, huort sem rekur eður fluttur er, af oskiptum hual skal reijða xii vætter, af oskiptu ef rekur, Af hestanese vi vætter, ef aður hefur Mulastaður helming sinn, og sie þa epter xx vætter eður meýra, enn iij vætter ef minna er enn x vætter. I Straumlone Reka og flutning með ollum gognum og so fyrer Sigurðarstoðum, þui að staðirnir eiga londinn bæði, og so Þorbiarnarstaði. Þesse reki er austur fra Straumslonsosi, og thil oss hins forna. Hier fylgir og Eggver, half flutning meðal osa. A Rifs

x Í B hefir verið með öðru bleki sett lángstrik yfir u, svo þar stendur „oskiptū“, sem er sama sem „óskiptum“.

reka vi. vætter, ef a eru xx vætter, en iij ef minna er, so I Skinnaloni, so að Tiornum, huort sem rekinn er eður fluttur A Harðbak xx vætter ef fluttur er og sie á hundrað vætta I fyrsta hual, enn vi vætter þaðann fra iij vætter ef rekur, skotmans blutur að helminge með þeim Reka. A Asmundarstoðum fiorðung huals af oskiptum ef rekur. I Orfyris Ey fimtungur, huort sem rekur eður fluttur er, þeim fiorðung I siettung, enn giallda af hinn xvi blut ef rekur af oskiptum hual. I Raufarhofn helmingur ef rekur, og giallda af attung af ollum samann, og iiij og xx vætter. A Hundraðʒnese xii^e blutur ef rekur. I Krossa vyk vi vætter, ef a eru xx vætter, enn iij. ef minna er, ecki ef ei eru x vætter, hvort sem rekur eður er fluttur. I Bollavijk slijkt hið sama, og I Flantafells Reka, slykt I Heriolfsvijk ef rekur, af þeim blut er Einar prestur átti. Hier skulu vera prestar ij. og hinn þriðie ef þijng fylgia thil Reykia, diakn og subdiakn, og ij. aðrer klerkar, þeir er lesa mega I tíðum, einn veitslu maður kuenngillldur, hvorn dag skal messað vera yfer ha alltare. Aðaldælar skulu omaga fa kuenngilldan vmm Jol, enn Reykhuorfingar vmm langafostu, hallda Biargar Brun, heilagt er hier halldið að vincula Petri, og Theodorus messu, Uincentius messu. Auguthu messu. Reka meður ollum friðendum a Sandi er Guðmundur gaf Eyulfsson, þa er Isleyfur liet stað, þa skal sa hafa Geytafellʒ land, er viðtekur^x og þriggia marka omaga. Suo mykið atte Greniaðar staður epter syra Koðrann. I kuikfie xiiii kyr meður þeirre er Einar af Myre gaf, uxa þrevetrann, ij. naut veturgomul, iiij. kalfa, halft siotta kugilldi asauðar. v bestar, fiogra hundraða skip, vi hundruð virðingar fiar, xx hundruð

x B hefur: við rekur.

voru, v. hundruð I hafnar voðum. Þetta I skruða, þrenn messuklæði hin bestu með hoklum, figur goð meður pellʒ hoklum: iiij verri; Dalmadykur tuær, einn lierepts hokull vmmframm, vii yferhoklar, ij. baldurskinns kapur, ij. pellʒ kapur, iiij verri, kaleykar vı. alltaris klæði vı. Tiolld vmm alla kyrkiu, merki ij. Biarnfell, krossar ij. Mariu skrift, Marteins lykneski, skrijn, Texte, Epistolarius, Alltaris steinar ij. lauser, gloðar kier og Elld bere, iiij. goðar kluckur, iiij. messingar stikur og 1 Jarnstika stor. ij. Glergluggar, lijka abreyðsl vont saung bækur og les bækur, og að ollu per anni circulum, og þo eij secundum ordinem. Marteins saga uppa norrænu, iij forner psalltarar, og 1 nyr, Bækur fornar og vondar, munnlaugar ij. Þetta gaf og auk syra Koðran Greniaðarstað, ʟx hundraða I Jorðum, er so heyta Hraun, ljotʒ staði og Rauf. xxx. kugilda. xxx. hundraða Innann kyrkiu, þar með ij baldurskinn — stoli, kaleykur, hurðar iarn, propiciatorium og stendur mork. Glergluggar ij. Er nu allt saman kugilldi ʟx og ij kugilldi I voru hafnar voðum, virðingar fie 1 hundrað og xxx. Lysistollur og heytollur af xıx bæjum. Taka prestar heima I leigu og vtan garðʒ iiij. hundruð.

*Mwla Kyrkia.*

Kyrkia I Mwla er helguð Guðe og vorre frw, Sanctæ Mariæ og hinum heilaga Nickolase. Til kyrckiu liggur allt heimaland, millum Saurlækiar og Eyuindar lækiar, Laxaar og Kalfa lækiar: Hier fylger Hafur ey og Skal ey, Hrís ey og Miðey, meður ollum vestur holmum, og austur holmum, og ıx holmar fyrer neðan Eingey, og veyður oll i Laxa fra Kalfa læk og ofan vmm Eingey. Hièr fylgja Einarstaðer, Ingerijðarstaðer, Skarastaðer, Biarkar-

staðer, Skeyðꝫ land, Kraumastaðer, fotaskinn, fjalls land meður ollum Vala hrysum. Teijg eiga menn I vala hrijsum, enn ongua beyt. Þeista reikia land og Mælefell, Barkar hrijs I Kielldubverfe, lamba rekstur á Huams heyði. Gømlu fie I nattfaravijk CLXXX, veijður vestur I vatne meður slyium og holmum. Reka skal smala þangað thil skiola I vatꝫ hlyð Jamn̄x er vill. Hier fylger Bryggiu teygur og Kara teygur, Hier fylger allur reki af liotsandi I millum Greniaðarstaða Reka og Myrar Reka, halfur Eyrar Reki, með flutning tueim meginn Laxaar Oss. fiorðungur I langa Reka, Attungur I Kiellduness Reka og allann viðreka, og oll flutning, og XVI vætter af oskiptu, halfur Harðbaks Reki, og halfur Hesta ness Reke; halfur hualreki og viðreki og flutning I Hoskulldꝫ nese. A Hundꝫ nese allur viðreki og flutnijng, nema Tolftungur. Tueijr hluter I Bollavijk og flutnijng og so I Krossavijk. Halfur Sæfarlandꝫ Reki og flutning millum a fiorðungur hualreka og flutnijng [fyrer Breckna land, bæði, fiorðung hualreka og flutningur], fyrer Guðmundarlone millum steins og staurs, halfer þrijr hluter hualreka og flutnijngar, enn þaðann fra halfer hualrekar, og flutnijngar thil marks við Sauðaness menn. Fyrer Hrossavollum Tolftungur hualreka og flutnyngar. Mvlastaður a og þriðiung I aullum Klifꝫ haga Rekum við Greniaðarstað. Suo mykið I kuikfie. xx. kyr, halfur

---

x Í B hefir Jafnan verið dregið út og annað sett í staðinn, er ekki verður glöggt lesið, en sýnist þó helzt vera „Jamna".

[ ] Þetta vantar í B; en seinna hefir hèr einhverju verið bætt inn í út á röndinni, er ekki verður lesið, en sýnist þó helzt muni vera sama, sem hèr stendur.

fimte tugur asauðar. viix hundruð I gielldfie. vı naut veturgomul, og ij tuævetur. Vxi þrevetur, fiogur kross, halft xa hundrað — cc I flytjanda eyre, halft xiii hundrað Innann veggia. Þetta Innann kyrkiu, Mariu skrift, kross mykill með ij lykneskium, latuns krossar ij smellter og einn fonn, og [kross og] reuill xiiij verður er gafst thil, Tiolld vmm kyrkiu, vii messu klæði með v hoklum kaleykar ij, meður þeim er gafst thil. Alltaris klæði v. Brijkarklæði iij. Nickolas lykneski, skrijn ij. messingar stikur ij. og ij Jarnstikur litlar og ein mykil. Texti buin, legendu bækur per anni cirkulum. Expositiones Gregorii. Sermo Jeronymi, de assumtione sanctæ Mariæ, miracula ejusdem á einni Bok. (Passiones Apostolorum a einne Bok), Actus Apostolorum, legenda de sanctis a ij selskins Bokum. Vita patrum, sermones Augustini, messu Bækur fornar per anni circulum, ymnaxx bækur iij. Enskur Gradall, annar de sanctis, Sepventiu Bok, forn Christinndoms Riettur. Alkuinus Martyrologium. Aspiciens Bok, epter Paskar forn Bok, de sanctis a sumarið, perusum Bok a sumarið, enskur psalltare. Inventio Crucis og enn fleyra. A bok passio Olavi a kueri. Historia Nicholai a kuere, ij Biarnfell. kistur ij. kluckur iij, og ij litlar, munnlaugar ij. vond munnlaug, Gloðarkier, iiij. sloppar, Bakstur Jarn vond, þetta hefur gefist thil, Kot i Kielldu huorfi. Saga Guðmundar Byskups. Elldberi. Lysis tollur og hey tollur af xı Bæium. Tekur prestur I leygu vtanngarðz halfa fimtu mork, enn ann-

---

x Í B hefir staðið ij. en dregið seinna út og sett með annari hendi út á röndina í þess stað vi.

[ ] hefir seinna verið bætt inn í út á röndinni í A.

xx Í B hefir staðið hyma, en er aptur leiðrétt til ymna.

ar heima iiij merkur, Tijund tali anno. cc. Hier er* i-o-i presta skylld og ija diakna. [Tijund olokinn x hundruð og v. aurar]. Balldurskins kapa og aunnur kapa með pell, iiij merkur allt samann vax og Reikelsi. Kaleykur er Kiartan gaf. Alltaris dwk. hofuð lijn, sloppur, kyr og asauðar kugilldi. Hestur. hundrað I flytianda eyre.

---

# VI.

## *Um þriðjúngamót í Rángár þíngi og Árness þingi á söguöldinni og ýmislegt þar að lútandi.*

Það er alkunnugt, að í fornöld var Íslandi skipt í 4 fjórðúnga, hverjum fjórðúngi aptur í 3 þíng, nema hvað undantekníng átti sèr stað með Norðlendingafjórðúng, að í honum voru 4 þíng. Hvert þíng skiptist aptur í 3 þriðjúnga, og var hver þriðjúngur lögfullt goðorð. Fjórðúngamót og þíngamót voru fast ákveðin, og það eingöngu eptir ásigkomulagi landsins, og þriðjúnga- (og goðorða-) mót hafa verið það líka. Því hvert goðorð náði yfir landnám vissra manna, eins eða fleiri, en þau voru takmörkuð við ár og vötn, fjöll og fjöru, en lögfullt goðorð myndaði þriðjúng þíngs, og er án efa óhætt að taka það sem *aðalreglu*, að *einn þriðjúngur* væri *eitt goðorð*. Það var raunar leyft í lögum, að fleiri væri en 3 goðorð í einu þíngi, en þau voru þá ekki

---

* Í B hefir staðið tuegia, en er seinna dregið út og ekkert sett í staðinn.

† ] hefir með fyrsta vantað í B, en er seinna með annari hendi bætt inn í út á röndinni.

lögfull, og urðu slíkir goðar að sameina goðorð sín til alþíngis þannig: að einúngis 3 úr þíngi hverju komu fram sem goðar á alþíngi. Þannig gat þriðjúngur myndast af fleiri goðorðum, en ei að síður hefir hann verið aðskilinn með vissum takmörkum frá hinum þriðjúngum þíngsins, og goðorðin innan þriðjúngs hafa líka haft sín takmörk innbyrðis, ef þau runnu ekki saman í eitt, sem optast mun hafa orðið tilfellið, því það miðaði til að sameina kraptana, en var í sjálfu sèr engin rèttindamissir, því það var bæði löglegt og altítt að fleiri áttu goðorð saman, en einn fór með það í senn. Það er auðvitað að þriðjúngs-búar hafa verið sjálfsagðir þíngmenn þriðjúngs-goðans, nema þegar einn eða fleiri sögðu sig löglega úr þíngi frá honum, og í þíng með öðrum goða, en það var hverjum lögheimilt og var það undantekníng en raskaði ekki takmörkum goðorðanna fremur enn þínganna eða fjórðúnganna. Flosi, t. a. m. tók sèr þíngfesti með Áskatli goða, en hèlt sem áður heimilisfángi að Svínafelli, og má nærri geta að Þíngeyar þíng gat ekki fyrir það náð inn í Skaptafells þíng, og þá ekki heldur Reykdæla goðorð blandast saman við Skaptfellínga- (Freysgyðlínga-) goðorð, og sama regla hefir gilt þó bóndi segðist í þíng með samþíngisgoða þeim er næstur var, að það hafa æfinlega verið undantekníngar. Hefði ekki hvert goðorð náð yfir víst afmarkað svæði, þá hefði goðanum næstum verið ómögulegt, að hafa þá yfirumsjón með búnaðar ástandi þíngmanna sinna, sem hann þó hafði. Til hans kasta kom að afstýra eða ráða úr bjargarskorti og öðrum vandræðum hjá þeim, að því leiti unnt var, þess vegna kallaði hann þá líka saman á haustfundi eða *haustþíng,* til að ræða um «hreppaskil og ómegðir manna» og ýmis-

legt fleira. Af þessum haustþíngum, sem stundum hafa ef til vill verið haldin haust og vor, hafa «hreppa samkomurnar» síðan myndast, þegar hreppar mynduðust. Þessi haustþíng hafa verið haldin á vissum þar til völdum þíngstöðum, því þó þau hafi máske stundum verið haldin á heimili goðans eða einhvers ríkasta og merkasta bóndans, þá munu það hafa verið undantekníngar, og ef til vill helzt átt sèr stað í hallærum, þegar ýmsir af þíngheyendum voru lítt færir um að búa sig út með vistir til þíngsins, og þurftu því að þiggja fæði um þíngtímann, sem optast mun hafa verið nokkrir dagar. Þar hafa menn samið reglur og ákvarðanir um ýmsa hluti, sem þeim við komu sameiginlega innbyrðis, eptir því sem við átti það og það sinnið. Hafa þau að því leyti verið hið sama fyrir goðorðið, eða þriðjúnginn, sem alþíngi var fyrir landið, og eptir því hafa þau verið löguð, að svo miklu leyti sem mátti. Menn hafa t. a. m. haft þar nokkurs konar lögrèttur, er þeir menn hafa setið í, sem atkvæðisrètt áttu á þínginu. Sèr þessa enn merki á sumum þessum þíngstöðum, t. a. m. við Þíngholt í Landmannahreppi (það er vestur frá Flagveltu við *Holtavað* forna), þar sjást 7 búðarústir allglöggvar, og er hjá hvorri þeirra önnur lítil (matreiðslubúð?), en mitt á meðal búðanna er krínglótt gyrðíng mjög víð og miklu víðari heldur enn t. a. m. dómhríngurinn í Árnesinu. Hefir það án efa verið lögrètta. Í Laxárholti í Gnúpverjahreppi sèr og til búðarústa og mótar fyrir lögrèttu, en allt er það mjög óglöggt, því foksandur hefir rokið þar yfir ofan af holtinu og næstum slèttað allar ójöfnur framan undir því. Gömul munnmæli segja, að Hreppa- Skeiða- og Flóa-menn hafi átt þar fund með sèr á hausti hverju í fyrri daga. Víða eru

bæahöfn og örnefni kend vid «þíng» annarstaðar en á vor þíngstöðunum fornu, og munu *flest* þeirra vera frá þessum haust þíngum, en þó ekki *öll,* því sum eru miklu ýngri. Það var alltítt að sýslumenn settu «þíng» úti á víðavángi á þar til völdum stöðum, þegar sakamenn voru «rèttaðir», eru sumir þeirra staða kendir við «þíng». Optast mun samt mega þekkja þá frá hinum, því á þeim eru engin fornvirki, en opt eru þar dysjar í nánd eða örnefni kend við «gálga» eða þess konar. Svo er t. d. hjá Haga í Gnúpverjahreppi, að «Þíngnes» heitir þar krókur einn við Þjórsá, en «Gálgaklettar» heita þar litlu neðar með ánni. «Þínghóll» heitir hjá Stórólfshvoli, og skamt þaðan «Gálgaklettar», en Stórólfshvoll var laungum sýslumannssetur. Apiur eru fornvirki vön að sjást á hinum fornu þíngstöðum, nema þar sem þau eru eydd af manna völdum eða náttúrunnar, en það er nú helzt of víða tilfellið, því er von að margir þeirra sèu gleymdir, þegar þeir höfðu ekki nafn sitt af þíngi eða þvílíku, heldur einhverju öðru, eins og t. a. m. Laxárholt, svo ekki er að búast við því, að menn geti fundið alla haustþíngstaðina. Þar að auki er eðlilegt, að haustþingið hafi verið haldið á vorþíngstaðnum í því goðorði, sem þar átti þínghelgi. Þó er þetta ekki tilfellið með Laxárholt, því vorþíngstaðurinn Árnes er líka í Gnúpverjahreppi, en það mun hafa verið undantekníng. Enn fremur má leiða talsverðar líkur að því, að «Leið» hafi verið haldin í goðorði hverju, eða þriðjúngi hverjum *fyrst framan af,* og er þá eflaust að þær hafa verið haldnar á haustþíngstöðunum, mun því sumra af þeim að leita á þeim stöðum, sem eru kend við «Leið» t. a. m. Leiðarhólmur, Leiðarhöfn (?), Leiðaröxl, Leiðvöllur — en «Leiðarskeið», sem Landnáma nefnir (5. p.,

5. k.), og sem tekið er upp í örnefnaregistur aptan við hana, mun ekki vera örnefni, heldur mun meint það tíma-«skeið», sem vant var að halda leið (sbr. dagmálaskeið, nónskeið o. s. frv.). — Það er vant að sjá hvernig þessi leiðarörnefni eru undir komin, ef þau eru ekki kend við leiðarþíng; ekki er ástæða til að ætla að þau hafi nafn af «leið» = vegi eða vegarkafla, t. a. m. «bæar*leið*», þíngmanna*leið*». Heldur gæti verið — þar sem örnefnin eru nálægt sjó — að þau hafi nafn af «sjó*leið*». Þar sem svo hagar til, að útfjörur eru miklar, en þó útræði, er vanalega kölluð «leið» eða «leiðin» úr lendíngunni út á djúpsundið, er menn þræða eptir lónum. Ef þetta á sèr stað nálægt þeim stöðum, sem við «leið eru kendir, *getur* nafnið verið dregið af því; þó sýnist varla líklegt, að örnefni sè kend við slíkar sjóleiðir, nema því að eins, að örnefnið sè miðað á «leiðinni», eða þá að «leiðin» eigi sèrstakt eiginnafn, sem endar á «leið», og sè þar að auki á einhvernhátt svo einkennileg, að vert megi þykja að kenna örnefni við hana. Sè því nú ekki þannig háttað, þá mun hitt vera tilfellið, að nafnið bendi á Leiðar- og haust-þíngstað fornmanna, jafnvel þó þess sjáist engin vegs ummerki nú á dögum. Það er auðvitað, að leið hefir almennt verið haldin á vorþíngstaðnum í því goðorði, sem þar átti þínghelgi. Þannig má ætla að í Skaptafells þíngi hafi Síðumannaleið verið haldin á Leiðvelli, Freysgyðlínga leið að Skaptafelli, en Hoffellínga (Hornfirðínga-) leið að þínganesi. Eins má ætla að í Þórness þíngi hafi Dalamanna leið verið haldin í Leiðarhólmi, Þórnesínga leið (á Þíngvelli) í Þórsnesi, og Rauðmelínga leið má þá ekki síður hafa verið suður þar, þó ekki sè hægt að ætla á staðinn, að svo stöddu. Ljósvetnínga saga nefnir Ljósvetn-

ínga leið, og Reykdæla leið sem tvær leiðir (2. kap.), sem báðar hafa hlotið að vera í Þíngeyar þíngi, því má ætla þar hafi líka verið Exfirðínga leið, og svona hefir alstaðar verið í fyrstu, það liggur í eðli hlutarins. Þó breytíng væri komin á þetta, eins og fleira, þegar Grágás var rituð, má þó ráða af henni, á hvaða grundvelli leiðir voru bygðar. Hún getur þess (Grág. Kmh. 1852. I., III. 61. kap.), *að* þar skyldi auglýsa laga nýmæli, samkomutíma alþíngis, ýmislegt um tímatal og s. frv., og *að* það var skylda hlutaðeigandi goða, að »tína« þetta. Sú skylda var nú auðsjáanlega ekki sprottin af öðru í fyrstu, en stöðu hvers einstaks goða gagnvart þíngmönnum hans sjálfs. Goðavaldið var eiginlega framhald af valdi hinna fornu fylkiskonúnga í Norvegi. Konúngsvaldið var innifalið í lögstjórn, herstjórn og helgihaldastjórn, og Goðavaldið var eins að sínu leyti. Goðinn átti að halda uppi lagareglu meðal þíngmanna sinna, og vernda rèttindi þeirra, allra og hvers einstaks. Því var skylda hans að sjá um, að þeir af þeim, sem hann kvaddi ekki til alþíngisreiðar, en lèt gjalda sèr þíngfararkaup, ætti þó kost á að fá að vita, hvað títt var um löggjöfina, ekki síður en hinir sem fóru til þíngs með honum, — annars nutu þeir ekki jafnrèttis. — Er mjög líklegt, að þetta hafi í fyrstu — og ef til vill allt af þángað til farið var að rita lögin — náð til allra laga, þeirra er voru uppsögð í lögrèttu sama sumar. Því hvaða lög sem ekki voru uppsögð þar þriðja hvert ár, fèllu úr gyldi, og þurftu menn að vita það, ekki síður en hitt, sem aukið var við hin gyldandi lög. Goðinn hafði vald til að kveðja upp almenníng í hèraði sínu þegar hann vildi, og til að kveðja fleiri eður færri af þíngmönnum sínum til þíngs með sèr, eptir því sem

honum sýndist. En þá stóð honum líka til, að láta þá vita fyrirfram, ef svo var tilætlað, að næsta þíng skyldi byrja fyrr en venja var, svo þeir gæti verið við búnir. Goðinn átti að stýra helgihöldum, og í heiðni þess vegna halda upp blótum, en þau voru sett í samband við vissa tíma (t. a. m. misseraskipti, en misseraskipti stóðu í sambandi við sumarauka, og sumarauki við hlaupár o. s. frv.), því bar goðanum að tilkynna þíngmönnum sínum, hvernig tímum hagaði næstkomandi ár í þessu tilliti. Og þó kristni væri komin, hèlzt það við, að segja upp tímatal á leiðum, með þeim hætti, sem *þá* átti við. En í staðinn fyrir blót og blótveizlur skyldi þá boða föstur og minníngardaga. Þetta hefir án efa verið hinn upprunalegi aðaltilgángur «Leiða», en þó stundum væri notað tækifærið til að auglýsa þar fleira um leið — t. a. m. sektir eða sýknur manna, sem ekki höfðu verið uppsagðar á alþíngi — þá hafa það verið undantekníngar, en virðist þó lýsa þeirri skoðun, að allt það sem birt var á leið, yrði þar við gyldandi, nema því væri þegar löglega mótmælt (Ljósv.s. 2. kap. Reykd. s. 20. kap.), sýna að sekur maður varð sýkn, að minsta kosti innan fjórðúngs, þegar búið var að helga hann þar á 3 leiðum. Má þetta hafa komið af helgi Leiða en hún spratt af helgi goðavaldsins, laganna og trúarbragðanna. En þó það væri þannig í eðli sínu, að sín Leið væri í hverju goðorði í fyrstu, þá er hægt, að sjá hvers vegna menn hafa smátt og smátt leitt það í vana og síðan í lög, að *ein* Leið skyldi haldin í þíngi hverju á vorþíngstaðnum. Eptir því sem tímar liðu, og löggjöfin varð margbrotnari, þá varð æ meira vandaverk að «tína» það, er birta skyldi á leið. Raunar var goðanum í sjálfsvaldi, að fá annan til þess í sinn stað, og

má ætla að hann hafi ætíð gjört það, þegar annar var betur til fallinn, hefir sá þá komið fram sem *fullmektugur* goðans til *Leiðar framsagnar* — svo mun mega kalla það —. En þó það hefði verið föst regla, að velja til þess þann mann sem hæfilegastur var, án tillits til þess hvert hann átti manna forráð eða ekki, þá gefur að skilja, að hægra var að finna *einn* hæfilegan mann í hverju þíngi, heldur enn sinn í hverju goðorði, því hafa menn fækkað Leiðum og fært þær saman, til að girða fyrir ósamhljóðun í útbreiðslu laganna. Þetta hefir sjálfsagt verið að lögum, löngu áður enn Grágás var rituð, og víst hefir það snemma, eða ef til vill einna fyrst komist á í Rángár þíngi, það sèst af Njálu (Cap. LXIV). Njáll var á Þíngskála þíngi um haustið. Það hefir hlotið að vera Leið, því ekki var Njáll þíngmaður þeirra Hofs feðga, svo hann þyrfti að sækja haustþíng í þeirra sveit, og ekki heldur Leið ef sín Leið hefði verið í hverjum þriðjúngi þíngsins. Af sama stað má jafnvel ráða, að Njáll hafi haft þar Leiðar framsögn, enda var enginn betur til þess fallinn, «þá friðhelgaða eg Gunnar» sagði hann; hefir hann lýst því yfir, að það væri lög: að þó einn hefði unnið til óhelgi sèr, þá væri hann friðhelgur, þá er hann hafði boðið óvin sínum alsætti, og með því honum væri falið á hendur að birta mönnum lög, gat þessi yfirlýsíng orðið bindandi fyrir hlutaðeigendur, sem *formlega* auglýst lög. Og þó þetta hafi máske ekki verið óumflýjanlega nauðsynlegt, þá er hitt þó eptirtektavert, að þegar Njáll kom því til leiðar, að fimtardómur var settur, taldi hann sig með þeim, «sem lögunum ætti að *stýra*» (Njála kap. 98, bls. 149), og var þó Njáll ekki goðorðsmaður.

En þó þannig allt lúti að því, að hver þriðjúngur

eða hvert goðorð hafi verið þínghá fyrir sig og náð yfir afmarkað svæði, þá er öðru nær en að takmörk þeirra sè auðfundin víðast hvar. Það sem helzt má ráða nokkuð af í því efni er Landnáma, borin saman við náttúrlega skiptíng hèraðanna. Sumstaðar má og ráða nokkuð af sögunum og enda af haustþíngstöðunum, þar sem þeir verða fundnir. En það getur villt sjónir fyrir mönnum í þessu efni, að takmörkin hafa á ýmsum stöðum verið breytíngum undir orpin, þó mun það einkum hafa átt sèr stað *áður* en stjórn landsins *komst á fastan fót*, eða *eptir* að henni fór að *hnigna* en á meðan hún *stóð í blóma* mun það hafa verið *föst regla*, að þegar einn eignaðist hlut í nokkru goðorði, í arf eða á annan hátt, að hann átti hann síðan sem hlut í *sama goðorði*, en skeitti honum ekki við annað goðorð, þó hann ætti það áður. Annað, sem líka getur vilt fyrir manni, er það, að goðinn bjó ekki allt af meðal þíngmanna sinna, þó það væri optast, hann bjó stundum í öðru goðorði, öðrum þriðjúngi, öðru þíngi og jafnvel í öðrum fjórðúngi, en hann átti mannaforráð í. Þannig átti t. d. Arnsteinn þriðjúng í Ljósvetnínga goðorði, en bjó þó í Öxarfirði, og hefir ef til vill verið Öxfirðínga goði. Vígaglúmur hèlt goðorði sínu þó hann flytti úr hèraði, «hann átti að helga haustþíng» í Eyafirði eptir það. Það sèst af Ljósvetníngasögu, að Guðmundur hinn ríki átti Reykdæla goðorð, mun hann hafa fengið það af Þorsteini Áskelssyni, þegar «hann seldi af höndum goðorð þeirra Skútu». Þorkell Geitisson fekk með Jórunni konu sinni hlut í Þveræínga goðorði, — því Einar tengðafaðir hans hefir náð goðorðinu undir sig þegar Glúmur var orðinn örvasa, þó bjó Þorkell í Krossavík eptir sem áður. Og hèr eptir mun sýnt, að

Hjalti Skeggjason átti goðorð á ytri Rángárvöllum (nú Land- og Holtamanna-hreppum), þó hann byggi í Þjórsárdal, og að Ásgrímur Elliðagrímsson átti mannaforráð milli Þjórsár og Hvítár (Ölvusár), þó hann byggi í Túngu.

Þegar finna skal takmörk hinna fornu goðorða í Rángár þingi, þá verður manni fyrst fyrir, að líta yfir hèraðið, og virðist þá, sem náttúran hafi skipt þínginu í 3 hluti. Er hinn austasti hlutinn milli Jökulsár (Fúlalækjar) og Markarfljóts, miðhlutinn milli Markarfljóts og ytri Rángár, en hinn vestasti milli ytri Rángár og Þjórsár. Verða þá 2 goðorð í landnámi Ketils hængs, og er það sennilegt, enda er bæði austasti og vestasti hlutinn, einkar vel lagaður til að hafa verið goðorð fyrir sig, en miðhlutinn er skiptur í fleiri hluta, einkum eru Landeyar nokkuð afskekktar, því Þverá, sem er allmikið vatn, skilur þær frá. Þegar maður á hinn bóginn lítur yfir landnáms ættirnar í þínginu, þá sèst af sögum, að goðorð hafa gengið í tveim þeirra, Hofsverja- og Dalverjaættum, þar að auk er Mörður gýgja talinn með mestu höfðíngjum og líkur eru til, að goðorð hafi gengið í Hólsmanna ætt. Nú lítur svo út í fljótu álíti, sem allir þessir nema Hólsmenn, hafi átt mannaforráð í miðhlutanum, milli fljóts og Rángár, því Jörundur goði bygði fyrir *vestan* fljót og reisti *þar* hof mikið, og Runólfur í Dal átti þíngmenn um Landeyjar, en auðvitað er að Hofsverjar hafa átt þíngmenn um Rángárvöllu ena eystri. Virðist þá vera um tvennt að gjöra, annaðhvort að hvorirtveggja hafa átt hið sama goðorð — en þá verða þar svo margir höfðíngjar á sama tímabili, að það getur ekki staðist — eða þessar tvær ættir hafa haft tvö forn goðorð í landnámi Ketils hængs, en þá er ómögulegt að

hugsa sèr nokkra reglulega skiptíng þeirra goðorða, svo sennilegt sè, nema þá, að Þverá hafi skilið þau, og mun það að nokkru leyti satt vera. Svo er án efa háttur á að í fyrstu hefir mannaforráð Jörundar goða verið fyrir austan fljót að mestu eður öllu leyti, en þó hann «bygði fyrir vestan fljót», þá hefir hann varla átt þar marga þíngmenn, eða haft veruleg yfirráð, fyrr en hann giptist seinni konu sinni Þorlaugu Hrafnsdóttur, með henni hefir hann fengið mannaforráð um Landeyjar, og lagt það til þess er hann átti áður fyrir austan fljót, en það hefir einmitt verið um sama leyti sem þriðjúngaskipti í þínginu voru að komast á, og verið var að undirbúa alþíngissetníngu svo þetta veldur engum ruglíngi í því efni. Það verður þannig niðurstaðan, að hinn austasti þriðjúngur þíngsins hefir, eptir að alþíngi var sett, náð frá «Fálalæk» út að Þverá. Hólsmenn hafa nú að vísu átt nokkuð mannaforráð undir Eyafjöllum, og hafa þeir án efa átt goðorð í sameiníngu með Dalverjum, en varla er líklegt þeir hafi tekið upp sèrstakt goðorð, og enda þó svo hefði verið, þá hafa þeir verið samgoðar til alþíngis og kemur þá í samastað niður. Hvert heldur sem var, hafa þeir orðið að koma sèr saman um hver með goðorðið færi á alþíngi það og það sinnið, en eðlilegt er, að Dalverjar hafi optar orðið fyrir því, er þeir voru menn ríkari.

Það mun ekki fjærri, að hugsa sèr æfiatriði Dalverja í þessari röð: Hrafn heimski mun vera fæddur nálægt 850, en Jörundur son hans nálægt 880, hafa þeir komið út nálægt 900, og má Jörundur valla hafa verið yngri til að geta talist með landnámsmönnum, hann mun hafa gipst Þuríði hálfþrítugur 905 eða þar um bil, mun hún vera á aldur við hann. Úlfur örgoði mun

fæddur um 910, en hèr um bil 928—9 mun Jörundur hafa gipst í síðara sinni, Þórlaugu Hrafnsdóttur. Valgarður grái er því fæddur um eða litlu eptir 930. Jörundur goði mun ekki hafa lifað lángt fram yfir 950. og þó orðið vel sjötugur. Hefir Valgarður þá verið utan, en Úlfur tekið við goðorði fyrir fullt og allt, þá hefir Úlfur verið um fertugs aldur, en Runólfur son hans hèr um bil 10 vetra. Úlfur mun hafa komist á áttræðis aldur, því hans er getið á þíngi 983, (Njálss. kap. 51.), ef sagan fer þar ekki feðgavilt, að minnsta kosti var Runólfur þá farinn að búa í Dal, og hefir má ske verið búinn að taka við goðorði, þó faðir hans væri á lífi, enda hefir Runólfur þá verið komin yfir fertugt. Runólfur hefir haft goðorðið fram til 1004—5, þá má ætla hann hafi selt það í hendur Þorgeiri skorargeir, þeir frændur áttu hlut í því. Mætti hugsa að Þorgeir hafi ekki verið búinn að taka við því 1004, því hann hefði ef til vill selt Höskuldi goðorð sitt fyrir sakir Njáls frænda síns, en hitt er víst að eptir Njálsbrennu telur Þorgeir sig óbeinlínis með höfðíngjum; «þo ek sè ekki *mikill höfðíngi*», sagði hann (Njálss. kap. 132 ). Það liggur í orðunum, að hann væri þó í rauninni *höfðíngi*, þ. e. yfirmaður, og þá líka goðorðsmaður, því þó þess sèu dæmi, einkum í hinum miður áreiðanlegu sögum, að auðmenn, aðrir enn goðorðsmenn, sè kallaðir höfðíngjar, þá mun það ekki vera meiníngin á þessum stað, því ef Þorgeir hefði *ekki haft mannaforráð*, þá mundi hann hafa sagt: þó ek sè *ekki höfðíngi*. Enda var Runólfur ekki sjálfsagður til alþíngisreiðar 1010, annars hefði Flosi ekki þurft að skora á hann til þess, en goðorðsmenn voru skyldir að ríða til þíngs. Njáll hefir

þannig lengst af verið þíngmaður Runólfs, enda var Runólfur aldrei móti honum, nè Gunnari vin hans.

Haustþíngstaður Dalverja verður ekki til nefndar að svo komnu, þó má geta til að hann hafi verið í Steinahelli. Dalverjar skipuðu Dalverjabúð á alþíngi, og má það vera hin sama sem nú er kölluð Njálsbúð, því í henni hefir Njáll verið.

Fyrir utan Þverá tekur þá við miðhlutinn, og er eðlilegast, eins og áðnr er sagt, að ytri Rángá skilji hina vestri þriðjúnga þíngsins. En það virðist í fyrstu ætla að verða vafasamt, þegar þess er gætt, að Hrafn Hængsson hafði lögsögn framundir 950, og virðist sjálfsagt, að hann hafi alla þá stund verið Rángæinga goði, en Mörður gýgja var þegar 940 orðinn mestur höfðíngi í Rángárþíngi, er að sjá sem þeir Hrafn hafi haft sitt goðorð hvor. Liggur þá næst að ætla, að Sighvatur rauði hafi tekið upp goðorð, er gengið hafi í ætt hans, og Mörður gýgja fengið að erfðum. Á þessu eru þó ýms ólíkindi.

Sighvatur hefir verið tvíkværtur; hefir fyrri kona hans heitið Rannveig, en ekki hefir hún verið dóttir Eyvindar lamba. Sigmundur hefir verið þeirra son, faðir Þorgerðar konu Önundar bílds, Unnar, er Sæbjörn átti, Marðar gýgju og Rannveigar móður Gunnars á Hlíðarenda. Aptur mun óhætt að trúa Eglu til þess (Egilss. kap. 22, bls. 43), að Geirlaug hèti dóttir Eyvindar lamba, sú er Sighvatur átti, hefir hún verið seinni kona hans. Þeirra synir munu þeir hafa verið. Lambi faðir Sigmundar og Sigfús faðir Sigfússona, Lambi hèt einn þeirra, og er það ættarnafn frá Eyvindi lamba. Sighvatur og Geirlaug hafa víst verið nýgipt er þau komu út, og getur það ekki hafa verið fyrir 900, en ef til vill heldur síðar, því svo

virðist sem þeir Lambi og Sigfús hafi ekki kvongast fyrr enn eptir 940, en það getur raunar verið, að þeir hafi þá verið roskuir. Sighvatur hefir heldur verið yfir enn undir fimtugt er hann kom út, en Sigmundur fulltíða, og líklega kvænst um það leiti. Þá hefir víða verið numið landið, enda var það Einhyrníngsmörk sem Sighvatur nam, þar er nú afrèttur (Grænafjall?) mun landnám hans aldrei hafa orðið svo fjölbyggt, að það gæti myndað sèrstakt umdæmi eða goðorð. Og naumast er líklegt að Sighvatur hefði fengið marga af mönnum Hængs í þíng með sèr, þó hann hefði viljað taka upp goðorð. Enda er svo að sjá sem þeir frændur hafi ekki átt mikið undir sèr, þegar Önundur mágur þeirra fèll í sekt, annars hefði þeir ekki látið það viðgángast. Raunar má ætla að Sighvatur hafi þá verið dáinn, en synir hans í æsku, en þá má líka jafnframt ætla, að goðorðið hefði gengið úr ættinni — þó hún hefði átt það — þegar enginn var til að veita því forstöðu. Ef goðorð hefði gengið í ætt Sighvats, þá hefði Sigfússynir átt hlut í því, og þá hefði Höskuldur son Þráins verið borinn til mannaforræðis, en af Njálu er svo að sjá, sem það hafi ekki verið. Hèr að auk er óskiljanlegt að Hrafn lögsögumaður skuli ekki vera talinn með höfðíngjum, eins og þeir Mörður og Jörundur, ef hann hefði haft hið þriðja lögfullt goðorð í Rángárþíngi. Það verður annars ekki varið, að ríki Marðar kemur næstum því eins og upp úr miðju kafi, og gefur þann grun, að Mörður hafi á einhvern hátt fengið goðorð sitt frá þeim Hofsfeðgum, Hrafni og Sæbyrni syni hans. Það er nú ekki öldúngis ómögulegt, að Hrafn hafi sleppt goðorði sínu löngu áður en hann lèt af lögsögn — því til að vera lögsögumaður þurfti ekki veldi, heldur persónulega

kosti —. Hann gæti hafa selt goðorð og mannaforráð í hendur Sæbyrni syni sínum, þegar hann var vaxinn — því Sæbjörn er þó nefndur «goði» —, en von bráðar hefði Sæbjörn selt Merði gýgju, mági sínum, goðorðið. Til þessa má hugsa sèr ýmsar orðsakir, en þó enga sem geri þetta rètt sennilegt, endar er við ekkert sögulegt að stiðjast. Hitt er líklegra, — og ef til vill hið sanna —, að þeir feðgar hafi ekki að öllu leyti sleppt goðorðinu við Mörð, heldur að eins látið hann fá hlut í því, líklega hálft við sig, þegar mægðir þeirra tókust. Má vera að Hrafn hafi fóstrað Mörð, og kennt honum lög, hefir Mörður þá verið fóstbróðir Sæbjarnar, enda mun nær um aldur þeirra. Er ekki ólíklegt að Mörður hafi stillt svo til með viturleik sínum, að Sæbjörn skyldi fá Unnar systur hans, lèti nærri það hefði gjörst fyrstu árin eptir 930, meðan hlè var á málunum, frá því Önundur bíldur fèll, til þess er «synir hans vóxu upp», síðan var hægra í högum fyrir Mörð að veita þeim bræðrum, er Hofsverjar voru orðnir tengdir við ættina, og það var orðin sameiginleg nauðsyn þeirra allra að snúast við málunum, en af því Mörður hefir verið bezt fallinn til forystu, hafa þeir feðgar fengið honum goðorðið til meðferðar og jafnframt til eignar til móts við sig. Síðan hefir Mörður verið fyrir þeim um allan höfðíngskap, en skipst hafa þeir um að fara með goðorðið á alþingi. Það er valla áhorfsmál, að fallast á þessa ætlun. En þó hitt væri nú sannara, að Mörður hafi tekið goðorð sitt og mannaforráð í arf, þá mun ei að síður mega fullyrða, að þeir Hrafn og Mörður hafi verið samgoðar (samþriðjúngsgoðar). Með því einu móti getur maður skilið hvernig á því stendur, að Hrafn er ekki talinn með höfðíngjum. Mörður var honum fremri að höfð-

íngskap, en ríki þeirra eitt og hið sama. Þá má og skilja orðin: „þóttu engir dómar lögligir, nema hann væri í“ (Njálss. kap. I), því þeir feðgar hafa sem optast nefnt hann í dóm þegar þeir fóru með goðorðið, og hann var á þíngi; en sá goði sem með goðorðið fór nefndi aldrei sjálfan sig í dóm. Hitt orða tiltækið: „þótti þat hvart lokleysu þíng er hann kom ekki til“ (Landn. 5. P. 3. kap.), sýnir líka að hann hefir ekki allt af haft goðorðið á hendi, því þá hefði hann verið skyldur til að koma á hvert þíng. Hann mun líka opt-ast hafa gjört það, en þó sèst af þessum orðunum, að hann hefir stundum setið heima, þegar honum bar ekki að fara með goðorðið.

Hrafn Hængsson mun hafa andast um 950, getur verið að Sæbjörn hafi þá fyrst tekið sèr „goða“nafn, og haft síðan goðorðið ásamt Merði lengur eða skemur, þó hans hafi lítið gætt. Hafi hann búið að Hofi eptir föður sinn, þá mætti ætla hann hafi andast litla fyrr en Mörður, og hafi þá Valgarður systurson hans tekið Hofsland — áður mun Valgarður lengstum hafa verið utan —. Þegar Mörður var dáinn 971, hefir Valgarður gengið að eiga Unni dóttur hans, og tekið upp Rangæínga goðorð; var þar vel á komið með þeim, er bæði voru til goðorðsins borin. Svo er að sjá sem Valgarður hafi farið utan, jafnvel optar en einusinni, meðan hann bjó að Hofi, en ekki hefir hann þó langvistum utan verið. En 990 getur hans síðast á þíngi, hefir hann þá farið utan um sumarið eptir þíng, en selt áður goðorðið „í hendur“ Merði syni sínum, 18 vetra gömlum; — því ekki mundu þeir Högni og Skarphèðinn hafa gjört sèr jafndælt við Mörð og þeir gjörðu sama haust, ef Valgarður hefði þá verið hèr; enda sagði hann við Mörð, er hann var aptur kominn: „Máttu sva hefna þess við Skarphèðinn er hann tók fèð af þèr eptir lát Gunnars“. Það var fyrst á 19. ári, 1009, að Valgarður kom út, og er næstum óefað að hann hefir átt eignir erlendis, sem hann hefir á þeim tíma setið að. Hann dó sama árið og hann kom út, og mun Mörður hafa haldið goðorðinu meðan hann lifði. Þannig verður niðurstaðan sú: að miðþriðjúngur Rángárþíngs hafi verið milli Þverár og ytri Rángár.

Haustþíngstaður Rángæínga mun hafa verið hinn sami og vorþíngstaðurinn, að Þíngskálum við Rángá — því Þínghóll hjá Stórólfshvoli mun hafa nafn sitt frá seinni tímum, sem fyrr segir. Hofsverjar skipuðu Ráæínga búð á alþíngi.



# I.

## *Áframhald um alþíngistollinn.*

---

**2.**, Eins og vèr gátum um í fyrra bindi blaðsíðu 2., er sagt í 1. gr. opins brèfs 18. júlí 1848, að þeim hluta alþíngisgjaldsins, er á jarðagózinu liggur, skuli jafna á jarðirnar eptir *leigumála* þeirra («paa Jordegodset i Forhold til de jorddrottelige Afgifter»), og í 3. grein lagaboðs þessa fól konungurinn dómsmálastjórnarherra sínum, að segja fyrir með reglugjörðarbrèfum til embættismanna, hvernig fara skyldi að finna þann hluta, er hver jörð ætti að gjalda, hvort heldur sem á henni sæti eigandi eða leiguliði, og eptir þessari skipun gaf stjórnarherrann bæði sýslumönnum og hreppstjórum reglur fyrir því, hvernig finna skyldi afgjaldið; eru brèf þau dagsett sama dag og lagaboðið. Þar er boðið í brèfinu til hreppstjóranna meðal annars:

$\alpha$, að þeir skyldu láta hvern landseta gjöra sèr sem nákvæmasta grein fyrir jarðarafgjaldi sínu, og í því skyni sýna sèr byggíngarbrèf sitt, ef hann hefði. Ef landseti einhver eigi vildi láta uppskátt við þá jarðarafgjald sitt, eða hermdi rángt til, svo þeir sæju, og þeir eigi gætu komist eptir, hvað rètt mundi vera á annan hátt, skyldu þeir meta afgjaldið á sama hátt, og ef eigandi sjálfur byggi á jörðunni.

$\beta$, ef eigandi sjálfur byggi á jörðunni, skyldi meta afgjaldið jafnt afgjaldi því, er lykist af jafndýrum jörð-

um þar í sveit, er sanngjarnlega væri leigðar; og væri engin slík jörð þar til, þá í samanburði við dýrleika annara jarða, er sanngjarnlega væri leigðar. En, ef dýrleiki þeirrar jarðar, er meta skyldi til eptirgjalds, væri ósamkvæmur dýrleika annara jarða þar í hreppnum, skyldi hreppstjóri gízka sem bezt á, hvort eptirgjald mundi sanngjarnlegast af þeirri jörðu, eptir því sem títt væri að byggja slíkar jarðir þar í hrepp, og

γ, ef eigandi að eins ætti nokkurn part í jörðunni, þá skyldi reikna afgjaldið af honum eptir afgjaldinu af þeim jarðarhundruðum, er hann hefði til byggingar.

Af þessu lagaboði og reglugjörðum er það nú auðsætt, að tollurinn á *að öllu leiti* að fara eptir *leigumála* jarðanna, og að þess vegna eigi beri að reikna hann eptir gjöldum þeim, er af þeim gánga til almennra þarfa; er þetta og með berum orðum ákveðið um prestsmötuna, eins og fyrr sagt, í opnu brèfi 2. marz 1853; og hið sama verður og að gilda um bænhústolla og aðra líka tolla, er af einstökum jörðum eru goldnir til presta, kirkna, eða á annan hátt eru til guðs þakka lagðir.

Enn fremur er það ljóst, að þótt tollinn beri að reikna eptir leigumála jarðanna, þá á þó eigi hvervetna að gjöra það eptir sömu reglu, heldur gildir önnur regla, er *leiguliði* býr á jörðu, en er *eigandi* sjálfur býr á henni, því í seinna skiptið á að fara eptir því sem optast, hvernig jörðin *sanngjarnlegast* mundi verða leigð, en í fyrra skiptið mestmegnis eptir því, hvernig hún *er* leigð, án alls tillits til þess, hvort sá leigumáli í rauninni er sanngjarn eða eigi.

Vèr skulum nú skoða þessar reglur nokkuð nákvæmar, og gæta að því, til hvers þær leiða í ýmsum tilfellum.

*a*, Þá er maður leigir af öðrum eitthvað það, er alþingistoll ber að lúka af, t. a. m. eyðijörðu, fjöru, o. s. frv., verður sama regla að gilda um það, og gefin er í brèfi dómsmálaráðherrans og getið var hèr að framan, um það er leiguliði býr á jörðu, að alþíngistollinn ber að reikna eptir leigunni, en alls eigi eptir arði þeim, er sá, er leigir, hefir af hinu leigða.

*b*, Ef leigan er eingin, verður alþíngistollurinn einginn; þegar því leiguliði situr afgjaldslaust á jörðu, gelzt af henni einginn alþíngistollur; þetta leiðir beinlínis af reglunni *α*, því, ef hreppstjórar þá mætti setja sanngjarnt afgjald á jörðina, uppheföi reglan sig sjálf, því samkvæmnin krefði þá og, að þeir ætíð mætti gjöra það, er þeim þætti afgjaldið of lágt.

*c*, Af jarðabótum getur eigi borið að greiða alþíngisgjald, og eigi þó þær sè áskildar af landsdrottni annaðhvort auk landskuldar eða upp í ákveðinn hluta hennar; þær eru einginn útborinn eyrir eða tekjur, er gángi til landsdrottins, heldur geta þær að eins með tímanum gefið honum tekjur, er landskuldin vegna þeirra fer að vaxa.

*d*, Þá er landsdrottinn hefir fleiri kúgildi til leigubnrðar á leigujörðu sinni, en innstæðukúgildin mega vera að lögum, ber eigi að greiða alþíngisgjald af leigunni eptir hin lausu, nema þau sè sett upp á leiguliðann í byggíngarskilmálunum, því þá má skoða leiguna eptir þau, sem part af afgjaldi því, eða hlunnindum, er landsdrottinn hefir af jörðunni. Það er sem sè ljóst, að hin lausu kúgildi eru óviðriðin jörðunni, þegar þau eigi eru sett í samband við hana, og að leigan eptir þau því eigi geti talist meðal jarðarskuldanna. Það væri og ósanngjarnt, að heimta toll af þeim

lausum kúgildum, er landsdrottinn ætti hjá leiguliða, en eingan af þeim, er aðrir kunna að eiga hjá honum, og því ósanngjarnara væri þetta, sem það er lángtum eðlilegra, að landsetinn fremur taki leigupeníng, ef hann annars vill nokkurn taka, af honum en öðrum.

*e,* Af festu virðist alþíngisgjald eigi verða tekið; hvorki talar brèf dómsmálastjórnarherrans um hana, og svo er hún eigi heldur gjald, er leiguliði geldur landsdrottni fyrir afnot þau, er hann hefir af jörðunni, heldur má skoða hana sem kaupverð, er maður geldur landsdrottni, til að geta feingið sèr leigða jörðina með ákveðnum rèttindum; og ef festan eigi er goldin áður, en maður kemur til jarðarinnar, verður hún eigi skoðuð öðruvísi, en sem hver önnur skuld, og hefir enganveginn sama rètt og landskuld.

*f,* Erfðafesta er hèr á landi með öllu óvanaleg; þegar hún er samfara eignarrètti, virðist ekki alþingisgjald geta lagst á gjald það, er árlega og eins venjulega við eigandaskipti gánga af jörðunni til seljandans eða eptirmanna hans, því hvorki hann nè þeir eru eigendur jarðarinnar leingur, og gjaldið getur því eigi skoðast, sem gjald er gángi af jörðunni til *landsdrottins,* heldur er það lángtum líkara vöxtum af skuld, er jörð stendur í veði fyrir. Væri þó gjald þetta lagt til annarar jarðar, ætti að skoða það sem önnur hlunnindi hennar, og ætti það því að ríka alþíngistoll þann, er af þeirri jörðu geingur. En sè erfðafestan regluleg, þannig: að erfðafestumaðurinn eigi fái nema ábúðarrètt á jörðunni fyrir sig og afkomendur sína, þá verður að vera rètt að reikna alþíngisgjald af árgjaldinu, er til landsdrottins geingur, sem af hverri annari landskuld.

*g,* Þó jörð sè bygð leiguliða til meir enn venju-

legra leiguliða nota, t. a. m., honum sè leyft að höggva skóg frekar, en leiguliðar mega gjöra, selja torf eða hey af jörðunni o. s. frv., þá virðist samt rètt, að alþíngisgjald sè tekið af allri landskuldinni. Að vísu má álíta, að landskuldin vegna þessa sè hærri, en hún ella hefði verið; en gjaldið allt, er samt landskuld, eða endurgjald leiguliða fyrir afnot jarðarinnar, þó þau sè óvanalega mikil.

*h*, Það ber opt við, að þar sem jörðu fylgja hjáleigur eða þurrabúðir, byggir landsdrottinn eigi sjálfur hjáleigurnar eða þurrabúðirnar, og hefir eigi neitt að sælda saman við leiguliðana þar; heldur byggir hann heimajörðina ásamt með öllum hjáleigunum og þurrabúðunum einhverjum einum manni með þeirri skyldu, að hann viðhaldi auk heimajarðarinnar hjáleigunum og þurrabúðunum; síðan byggir aptur fyrirsvarsbóndinn, eða sá, er torfan er bygð, hjáleigurnar og þurrabúðirnar út frá sèr með þeim skilmála, er honum lízt; en eigi getur hann þó upp á sitt eindæmi bygt þær til lengra tíma, en hann hefir jörðina í fyrirsvari; það er og nokkuð títt, þó eigi standi þannig á, að maður situr í annars byggíngu á jörðu; og yfir höfuð má svo vel til bera, að sá, er einhver sú eign er leigð, er alþíngisgjald hvílir á, fái leyfi til að leigja hana öðrum. Það er nú auðsætt, að alþíngisgjaldið eigi getur hèr lagst á báðar leigurnar, bæði frumleiguna og framleiguna, því þá legðist tvöfalt alþíngisgjald á sömu jörðu, heldur verður það að liggja á annari hvorri þeirra. Það virðist þá yfir höfuð að tala hið eðlilegasta og næst löggjöfinni, að alþíngisgjaldið fari eptir frumleigunni, því bæði er hún aðalleigan, og líka afgjöld þau, er eptir jörðina gánga til *landsdrottins;* en er menn eigi vita

frumleiguna, virðist rèttast, að meta torfuna alla eða jörðina til sanngjarns eptirgjalds, eins og boðið er í dómsmálastjórnarherra brèfinu að gjöra skuli, er menn eigi vita afgjald á leigubólum, og eins fyrir því, þó menn viti hver framleigan er.

*i*, Þegar jarðeigandi sjálfur býr á jörðu sinni, ber að beita reglunni í brèfi dómsmálastjórnarherrans, er nefnd er hèr að framan undir bókstafnum β, en með því að nú síðan er nýtt jarðamat á komið og menn mega álíta, að við það sè rèttur jöfnuður feinginn millum dýrleika jarðanna eptir gæðum þeirra, verður regla sú, sem þar er nefnd, að lagast eptir því. — Það er auðvitað, að jörðina ber að meta til afgjalds með öllum hlunnindum sínum, og eins ítökum þeim, er hún á í aðrar jarðir. Nú hefir eigandi leigt einhverjum öðrum eitthvað af hlunnindunum eða ítökunum, t. a. m. engjar, beit, reka eða annað, og er þá eins auðsætt, að alþíngistollurinn eigi getur fallið eða mínkað fyrir það.

*k*, Þegar eigandi yfir höfuð notar einhverja *sèrskilda* eign sjálfur, þó eigi sè jörð, er alþíngistollur liggur á, t. a. m. fjöru eða landspart, er eigi liggja undir nokkra jörðu, ber auðsjáanlega að beita sömu reglu, og er hann situr á sjálfs síns eign; meta eignina til sanngjarnrar leigu, og reikna alþíngistollinn þar eptir, en einganveginn eptir arði þeim, er eigandi kann að hafa af eigninni.

*l*, Sömu reglu ber og auðsjáanlega að við hafa, er maður notar eða hefir undir ákveðin hlunnindi, t. a. m. reka frá annari jörðu, er hann á, eða landspart frá henni, hvort sem hann er matinn til hundraða eða eigi, að meta verður hlunnindi þau og landspart til sanngjarnrar leigu og reikna alþíngisgjaldið eptir henni.

*m*, Þá er maður að eins á nokkurn hluta af ábýli sínu, á eptir reglunni γ, að reikna afgjaldið af honum eptir afgjaldinu af þeim jarðarhundruðum, er hann hefir til byggíngar. Þegar menn nú bera þessa reglu saman við regluna β hèr að framan, verða menn að álíta, að öggjafinn hafi viljað hafa það sem aðalreglu, að hver sá, er býr á sjálfs síns eign, skuli lúka alþíngistoll af henni eptir því, sem hún verði sanngjarnlega leigð, en að hann og jafnframt hafi haft þá skoðun, að þegar maður hefði leigt af öðrum nokkurn hluta af ábýli sínu, en ætti hinn hlutann sjálfur, þá mætti álíta þann leigumála á eignarhundruðum ábúanda nógu sanngjarnan, — og að óvíst væri, að annar sanngjarnari yrði fundinn, — sem hann sjálfur og eigandi hinna hundraðanna hefði orðið ásáttir um, að vera skyldi á þessum síðarnefndu, er hann tók þau til byggíngar.

*n*, Þegar maður á nokkurn hluta af ábýli sínu, en situr leigulaust á þeim hundruðunum, er hann eigi á sjálfur, verður samt að beita reglunni β til að finna alþíngisgjaldið af eignarhluta ábúanda. Það virðist auðráðið, að það atvik eptir eðli sínu, er óhæft til að losa nokkurn undan þeirri almennu skyldu, er lögin leggja á eigendur yfir höfuð, að lúka alþíngistoll af ábýlum sínum, eptir því er þau sanngjarnlega verða leigð, að hann eykur út bú sitt, og fær sèr að auk bygð leigulaust nokkur hundruð í sömu jörðu; og því ljósara verður þetta, sem einginn vafi getur verið á því, að ef þau hundruðin, er hann hefði til byggíngar leigulaust, lægji í annari jörðu, ætti hann beinlínis að borga alþíngistoll af eignarhundruðunum, og það eptir reglunni β. — Það er og auðsætt, eptir hinu fyr sagða, að í reglunni γ er gjört ráð fyrir, að leiga sè goldin af byggíngarhundruðunum, og getur því regla sú eigi komizt

þar að, er eingin leiga er goldin eptir þau. Loksins er það auðsætt, að þetta, er hèr er sagt, eigi stendur í neinu stríði við það, er vèr höfum sagt hèr að framan undir *b*. Ef ábýlið væri þó svo slæmt, að eigi yrði álitið, að nokkur leiga fengist eptir það, er auðvitað, að einginn alþíngistollur yrði fremur tekinn af þeim hundruðunum, er ábúandi á sjálfur, en hinum, er hann hefði til byggíngar leigulaust.

*o*, Ef maður að eins á nokkurn hluta af ábýli sínu, en ýmsir þann hlutann, er hann eigi á sjálfur, og hann situr á honum við ýmsa skilmála, þá leiðir beinlínis af reglunni γ, að matið sè afgjaldið af eignarhluta hans eptir meðalafgjaldinu af hinum hundruðunum, er hann hefir til leigu.

*p*, Sama regla virðist og að verði að gilda, er maður sjálfur býr að eins á nokkrum hluta eignarjarðar sinnar, en leigir hitt út öðrum eptir ákveðnum hundraðadýrleika, að meta verður afgjaldið af þeim partinum er hann býr á, eptir afgjaldi þeirra hundraðanna, er hann leigir öðrum, eða þá meðalafgjaldi þeirra, ef hann byggir þau fleirum en einum með mismunandi skilmálum.

*q*, Þegar maður á jörðu, er hjáleigur liggja undir, og býr sjálfur annaðhvort á heimajörðunni eða einhverri hjáleigunni, og heimajörðin og hver hjáleigan hefir sèrskildan dýrleika, ber sömu reglu að við hafa til að finna afgjaldið af ábýli eigandans, og nú var sagt, því heimajörðina með hjáleigunum er að skoða sem eina jörð. En þar er torfan öll er matin til dýrleika, en hvorki heimajörðin nè hjáleigurnar hafa sèrskildan dýrleika, virðist rèttast að meta afgjaldið af allri torfunni eptir afgjaldi og dýrleika annara jarða þar í hreppi, er sanngjarnlega virðast leigðar; draga síðan frá afgjaldi því, er þá kemur á alla torfuna, afgjöldin af hinum býlun-

um í henni; og ætti þá mismunurinn, er út kæmi, að vera afgjald það, er af ber að reikna alþíngistollinn af býli eigandans.

r, Þegar maður á nokkurn hluta ábýlis síns, ber eptir reglunni γ, að meta afgjaldið af eignarhluta hans eptir afgjaldinu af þeim hundruðum, er hann hefir til byggíngar. Hafi hann því sambýlismann, sem er leiguliði annars, ber ekki að hafa tillit til afgjalds þess, er sambýlismaður sá geldur. Og ef maður á sjálfur allt ábýli sitt, ber að meta það til afgjalds eptir reglunni β, í samanburði við aðrar jarðir þar í hrepp, sem eru sanngjarnlega leigðar, svo þó maður þá hafi slíkan sambýlismann, sem fyrr var nefndur, ber eigi að taka tillit til afgjalds þess er hann geldur, nema menn verði að álíta það sanngjarnt.

s, Þegar því tvíbýli eða margbýli er á jörðu, og hver á meira eða minna í ábýli sínu, ber að meta afgjaldið hjá þeim, er eiga allt ábýli sitt, eptir því sem jafndýrar jarðir þar í hrepp byggjast sanngjarnlega; en afgjaldið af eignarhluta hvers hinna, er eigi eiga allt ábýli sitt, eptir afgjaldinu af þeim hundruðum, er hann hefir til byggíngar.

3., Í lagaboðinu 18. júlí 1848 er með berum orðum boðið, að *leiguliðarnir* skuli greiða af hendi þann hluta alþíngistollsins, er falli á ábýlisjarðir þeirra, og sömu reglu verður að fylgja við alla þá, er einhverja þá eign hafa leigt, er alþíngistollur hvílir á. En þegar jarðeigandi býr sjálfur á eignarjörðu sinni, á hann að greiða alþíngistollinn af henni, sem eðlilegt er, sjá bréf dómsmálastjórnarráðherrans til sýslumanna 18. júlí 1848. Höfuðreglan verður því sú: að hverjum þeim, er á löglegan hátt uppber notin af þeirri jörðu eða eign, er alþíngisgjald liggur á, ber að greiða alþíngistollinn af

henni, hvort sem hann er eigandi hennar eða leigunautur; þó er hèr við það aðgætanda, að á torfum, þar sem fyrirsvarsbændur eru, eða þegar leiguliði byggir öðrum út eitthvað af leigujörðu sinni, ber án efa fyrirsvarsbóndanum eða þeim, er eignina hefir til byggíngar af eigandanum, að greiða alþíngistollinn af allri eigninni, bæði þeim hlutanum er hann sjálfur situr á, og eins hinum, er honum hefir verið bygður, en hann aptur leigt út frá sèr.

4., Af brèfi dómsmálaráðherrans til sýslumannanna sèst, að þegar leiguliði býr á jörðu, á alþíngisgjaldið eigi að eins að fara eptir jarðarskuldunum, heldur liggur það beinlínis *á þeim*, og á að vera einn hluti þeirra. Því er það með öllu eðlilegt, að hið opinbera hafi heimtíng á alþíngistollinum þar af leiguliðanum, en eigi landsdrottni, því úr því alþíngistollurinn liggur á jarðarskuldunum, getur landsdrottinn eigi goldið hann fyrri af þeim, en hann fær þær, en þær fær hann sem optast eigi fyrri en eptir gjalddaga tollsins. Sè samt leiguliði búinn að lúka landsdrottni allar jarðarskuldirnar, áður en tollsins verði að lögum krafist, virðist sem hið opinbera mætti halda sèr að landsdrottni, ef það vildi, en samt þarf það þess enganveginn, því eptir lagaboðinu getur það haldið sèr til leiguliðans, og það verður að vera hans skaði, hafi hann eigi notað sèr lögin og haldið eptir af skuldunum, sem tollinum nam.

5., Af því að hið opinbera hefir að eins á leigubólinu aðgang að leiguliðanum með alþíngistollinn, en eigi að landeiganda, nema leiguliði sè búinn að borga honum jarðarskuldirnar, leiðir aptur, að sè leiguliði eigi búinn að borga jarðarafgjöldin og geti eigi heldur borgað alþíngisgjaldið, verður hið opinbera að tapa því, eins

og það og eigi getur heimtað af landsdrottni þar meira af alþíngistollinum, en af þeim parti skuldanna, er hann hefir móttekið.

6., Eptir opnu brèfi 2. apríl 1841, hlýtur hið opinbera að meiga hafa rètt til að láta alþíngistollinn taka með lögtaki, ef hann eigi er greiddur í gjalddaga, en gjalddagi hans er á manntalsþíngum, og þarf sýslumaður eigi að taka í hann annað en peninga. Ef hann eigi er goldinn innan tveggja ára frá gjalddaga, fyrnist lögtaksrètturinn. — Það virðist samt, að þegar leiguliði hefir borgað allar jarðarskuldirnar, og hið opinbera vill halda sèr til landsdrottins, beri því eigi lögtaksrèttur gegn landsdrottni, því lögin gjöra hann eigi beinlínis að skuldunaut hins opinbera, heldur leiguliðann, og landsdrottinn getur eigi vitað, að hið opinbera vilji halda sèr að honum, fyrri en hann er krafinn.

7., Það er auðsætt af hinu fyrr sagða, að þegar taka á alþíngistoll hjá leiguliða lögtaki, getur hinu opinbera eigi borið rèttur, til að halda sèr til eignar þeirrar, er tollurinn er goldinn af, því í rauninni liggur hann eigi á eigninni, heldur á gjöldum þeim, er landsdrottinn fær af henni; en af þessu leiðir þá og, þegar landsdrottinn eigi borgar toll af eigu sinni, svo taka verði hann lögtaki hjá honum, getur sá er lögtakið gjörir, eptir NL. 1.—22.—19. eigi haldið sèr til eignarinnar, nema lausagóz sè eigi til.

8., Í 3. gr. opins brèfs 18. júlí 1848 er sagt, að *leiguliðar skuli greiða af hendi* alþíngistoll þann, er fellur á ábýli þeirra, en *jarðeigendur endurgjalda þeim.* En frá þessari reglu verða að geta gefist undantekningar,

*a*, Það leiðir af sjálfu sèr, og er líka auðskilið af

brèfi dómsmálaráðherrans til sýslumannanna, að leiguliða eigi getur borið endurgjald fyrir alþíngiskostnaðinn, fyrri en hann borgar landsdrottni allar jarðarskuldirnar, eða er búinn að því.

*b*, Ef landsdrottinn gefur leiguliða eitthvað upp af skuldunum, er auðsætt, að hann eigi þarf að endurgjalda honum þann hluta alþíngistollsins, er fellur á þann hluta skuldanna, er upp er gefinn.

*c*, Ef leiguliði hefir sagt rángt til jarðarafgjaldanna, eða það hefir orðið að meta jörðina til afgjalds, eða og að afgjöldin hafa verið reiknuð skakkt af hreppstjóra eða sýslumanni, svo alþíngistollurinn fyrir þá sök hefir orðið meiri, en vera bar, þá getur landsdrottni eigi borið að endurgjalda leiguliða það, er hann þannig hefir goldið um of.

*d*, Ef landsdrottinn og leiguliði semja svo millum sín, að landsdrottinn eigi skuli þurfa að endurgjalda leiguliða tollinn, þá hlýtur slíkur samníngur að vera gildur, sem aðrir löglegir samníngar.

Að vísu hafa nokkrir sagt, að það væri eigi siðferðislega rètt, að landsdrottinn gjörði slíkan samníng við leiguliða sinn, en þetta er með öllu ástæðulaus mótbára, er eigi hefir við neitt að styðjast; það er ekki ljótara af landsdrottni, að setja upp við leiguliða, að hann endurgjaldslaust skuli borga alþíngistollinn af ábýli sínu, en að hann endurgjaldslaust skuli greiða jarðartíundirnar af því og aðra tolla og skyldur, er liggja á því til hins opinbera, og því eptir eðli sínu hvíla á eiganda; en slíkir samníngar eru eigi álitnir neitt ljótir, heldur siðferðislega rèttir og með öllu gildir, og venjan er orðin svo rík í þessu efni, að leiguliða eigi er álitið að bera nokkurt end-

urgjald fyrir þetta, þó það sè eigi ákveðið með samníngum.

En fremur hafa nokkrir látið á sèr heyra, að það væri gagnstætt *lögum*, að slíkur samníngur væri gildur, því lagaboðið byði með berum orðum, að landsdrottinn *skuli* endurgjalda leiguliða alþingistollinn, en þessi skilningur er og með öllu rángur, því

1. hefir hann enga næga heimild í orðum lagaboðsins; þau eru eingan veginn þannig löguð, að eingin undantekning geti gefist frá því, bæði að leiguliði greiði af hendi alþíngistollinn, eða að landsdrottinn endurgjaldi hann leiguliða, heldur höfum vèr að framan sýnt, að undantekníngar verði að geta gefist frá hvorutveggju. Þess má og geta, að í danska textanum — er þá var eiginlega lagaboðið — stendur eigi orðið «skal», er sumir hafa viljað byggja svo mikið á, heldur stendur þar: «Det i forestaaende § ommeldte Bidrag udredes af Jordens Bruger mod Erstatning af Eieren». Að vísu stendur nú þetta hèr um bil á sama, því íslenzka útleggíngin er nógu nákvæm, en samt er það auðsætt, að aðaláherzlan í greininni liggur eptir danska textanum á því, að leiguliðarnir skuli greiða af hendi alþíngistoll þann, er fellur á ábýli þeirra, en eigi landsdrottnarnir; að sönnu er þar um leið leiguliðanum áskilinn endurgjaldsrèttur af landsdrottni, en aðaláherzlan, sem sagt, liggur þó eigi á þessu, heldur hinu.

2. er svo lángt frá því, að slíkur skilníngur sè lögum samkvæmur, að hann þvert á móti er þeim gagnstæður. Það er ekkert tíðara, en að lögin gefi reglur fyrir viðskipti manna, og segi, að þetta skuli vera rètt, er svo eða svo ástandi, án þess þó að banna mönnum um leið, að viðtaka um það efni aðrar reglur, ef þeir geta

komið sèr saman um það, og nefna menn lög þessi þýðandi (*«decluratorisk»*) lög; að ímynda sèr, að öll slík lög sè svo rígbindandi, að menn eigi megi neitt frá þeim víkja, væri hið sama sem að vilja útiloka allt samníngsfrelsi manna og svipta þá öllum ráðum yfir rètti sínum, en ekkert er gagnstæðara rèttarmeðvitund vorri eða lögum, en slíkt ófrelsi, er líka væri óhugsandi að nokkurstaðar gæti þrifist. — Það er máltæki meðal vor, að það sè lög er sjálfum semur, og á þessari grundvallarreglu er ákvörðunin í Jóns Bókar kaup: bálks kap. XIV bygð, þar sem segir: nú skulu haldast öll handsölnð mál þau, er haldast eiga að lögum, og lögbók mælir eigi í móti ɔ: allir reglulegir samníngar, er lögbók o. s. frv., sjá og Kr: 5. lög 5—1—2, þar er setníngin orðuð svo, að allir þeir samníngar skuli haldast, er eigi sè gagnstæðir lögum eða velsæmi. Það er því auðsætt, að hinn samníngur millum landsdrottins og leiguliða hlýtur að vera gildur, þar lögin eigi banna hann.

3. væri það og með öllu tilgángslaust, að lögin bönnuðu slíkan samníng; tilgángurinn með þvílíkt bann yrði að vera sá, að vilja verja leiguliðana með því fyrir ágángi landsdrottna, en þar sem landsdrottnum þó með lögunum eingar skorður eru settar fyrir því, hve hátt þeir byggi jarðir sínar, kæmi bann þetta fyrir ekki, því það er auðsætt, að landsdrottinn bygði þá jörðina þeim mun dýrara, sem alþíngistollinum gæti numið, ef hann endilega ætti að endurgjalda hann leiguliða, en vildi það ekki.

# II.

## *Ættir alþíngismanna árið 1867* (framhald).

—

### C. Þjóðkjörnir alþíngismenn:

1. STEFÁN EIRÍKSSON, hreppstjóri í Árnanesi, alþíngismaður Austur-Skaptfellínga; kvinna hans Guðrún Einarsdóttir frá Skógum Högnasonar og Sigríðar Sigurðardóttur frá Reyni.

### A. *Föðurætt.*

1. gr.

1. *Eiríkur Benidiktsson*; hans faðir
2. *Benidikt Bergsson* í Árnanesi; hans faðir
3. *Bergur Guðmundsson*, prófastur í Bjarnanesi, dó 1789; hans faðir
4. *Guðmundur Högnason*, prestur á Þvottá og Hofi, dó 1749; hann var bróðir séra Sigurðar í Einholtum Högnasonar, sjá ætt Ólafs prófasts Pálssonar, 5. gr. Nr. 5. 1. bindi bls. 32.

2. gr.

3. *Guðrún Ólafsdóttir* hèt kvinna Bergs prófasts Guðmundssonar og móðir Benidikts í Árnanesi; hennar faðir óskilfeinginn.
4. *Ólafur Jónsson*, briti á Hólum, dó 1759; hans faðir
5. *Jón Þorsteinsson*, á Nautabúi, dó 1687; hans faðir
6. *Þorsteinn Steingrímsson*; hans faðir
7. *Steingrímur* hefir lifað um 1600.

Það er víst, að faðir Ólafs brita, hèt Jón Þorsteinsson, en að eins sumir telja ættina þannig upp eptir.

3. gr.

2. *Sigríður Eiríksdóttir* hèt kvinna Benidikts í Árnanesi og móðir Eiríks; hennar faðir
3. *Eiríkur Oddsson,* prestur í Öræfum; hans faðir
4. *Oddur.*

4. gr.

3. *Vilborg Þórðardóttir* hèt kvinna Eiríks prests og móðir Sigríðar; hennar faðir
4. *Þórður Þorvarðarson* á Starmýri í Álptafirði eystra; hans faðir
5. *Þorvarður.*

B. *Móðurætt:*

5. gr.

1. *Þórun Jónsdóttir* hèt kvinna Eiríks Benidiktssonar og móðir Stefáns alþíngismanns; hennar faðir
2. *Jón Helgason,* sýslumaður í Skaptafellssýslu, bjó á Hoffelli; hans faðir
3. *Helgi Ólafsson* á Svertíngsstöðum í Eyjafirði; hans faðir
4. *Ólafur Helgason,* kom úr Rángárvallasýslu í Eyjafjörð; hans faðir
5. *Helgi.*

6. gr.

3. *Guðrún Hallgrímsdóttir* hèt kvinna Helga Ólafssonar og móðir Jóns sýslumanns; hennar faðir
4. *Hallgrímur Jónsson* í Árgerði; hans faðir
5. *Jón Hallgrímsson* í Hlíðarhaga, ættaður vestan úr Dölum; hans faðir
6. *Hallgrímur.*

7. gr.

2. *Sigríður Magnúsdóttir* hèt kvinna Jóns sýslumanns Helgasonar og móðir Þórunnar; hennar faðir

3. *Magnús Guðmundsson*, prestur á Hallormsstað, dó 1766; hans faðir
4. *Guðmundur Magnússon*, prestur á Stafafelli, dó 1725; hans faðir
5. *Magnús Guðmundsson*, bóndi á Vindborðsseli; hans faðir
6. *Guðmundur Ólafsson*, prestur í Einholtum, sjá ætt Ólafs prófasts Pálssonar 1. bindi bls. 32, 5. gr. Nr. 7.

8. gr.

3. *Kristín Pálsdóttir* hèt kvinna sèra Magnúsar á Hallormsstað og móðir Sigríðar; hennar faðir
4. *Páll Högnason*, prestur á Valþjófsstað, dó 1738; bróðir sèra Guðmundar Högnasonar, sjá ættina hèr að framan, 1. gr. Nr. 4.

—

2. JÓN GUÐMUNDSSON, málaflutníngsmaður við yfirdóminn á Íslandi, alþíngismaður Vestur-Skaptfellínga; kvinna hans Hólmfríður dóttir Þorvaldar prófasts Böðvarssonar, — sjá ætt Ólafs prófasts Pálssonar 1. bindi bls. 32, 5. gr. Nr. 2. — og seinustu konu hans Kristínar Bjarnardóttur frá Bólstaðarhlíð.

A. *Föðurætt:*

1. gr.

1. *Guðmundur Bernharðsson*, bjó í Kríuglu; hans faðir
2. *Bernharður Jónsson* í Ölversholti; hans faðir
3. *Jón.*

2. gr.

2. *Sigríður Magnúsdóttir* hèt móðir Guðmundar og kvinna Bernharðar; hennar faðir

3. *Magnús Þorleifsson*; hans faðir
4. *Þorleifur Kláusson* prestur á Útskálum, dó 1699; hans faðir
5. *Kláus Eyólfsson* á Stórhólmi, dó 1674 um nírætt; hans faðir
6. *Eyólfur Egilsson*; hans faðir
7. *Egill Einarsson* á Snorrastöðum í Grímsnesi; hans faðir
8. *Einar Ólafsson*, prestur í Görðum á Álptanesi, dó 1573; hans faðir
9. *Ólafur Þorbjarnarson*; hans faðir
10. *Þorbjörn Íngimundarson*, prestur; hans faðir
11. *Íngimundur*, hefir verið fæddur um 1400.

3. gr.

3. *Guðríður Jónsdóttir* hèt kvinna Magnúsar Þorleifssonar móðir Sigríðar; hennar faðir
4. *Jón Ólafsson* prestur á Fellsmúla, dó 1720; hans faðir
5. *Ólafur Gíslason*; hans faðir
6. *Gísli Diðriksson*; hans faðir
7. *Diðrik Þorsteinsson*; hans faðir
8. *Þorsteinn Sighvatsson*; hans faðir
9. *Sighvatur*, hefir lifað á 16. öld.

B. *Móðurætt*:

4. gr.

1. *Íngun Guðmundsdóttir* hèt seinni kona Guðmundar Bernharðssonar og móðir Jóns málaflutníngsmanns Guðmundssonar; hennar faðir
2. *Guðmundur Guðmundsson*, prestur í Reykjadal, dó 1822; hans faðir
3. *Guðmundur Teitsson* í Sólheimatúngu; hans faðir

4. *Teitur Arason*, sýslumaður á Reykhólum, dó 1735; hans faðir
5. *Ari Þorkelsson*, sýslumaður í Haga á Barðaströnd, dó 1730; hans faðir
6. *Þorkell Guðmundsson*, klausturhaldari á Þíngeyrum, dó 1662; hans faðir
7. *Guðmundur Hákonarson*, sýslumaður á Þíngeyrum, dó 1659; hans faðir
8. *Hákon Bjarnarson* í Nesi við Seltjörn, dó 1643; hans faðir
9. *Björn Gíslason* officialis í Saurbæ í Eyjafirði, var uppi um siðaskiptin og lifði fram yfir 1580; hann var bróðir Árna sýslumanns á Hlíðarenda Gíslasonar, sjá ætt Hilmars stiptamtmanns 1. bindi, bls. 11. 2. gr. Nr. 2.

5. gr.

3. *Guðrún Magnúsdóttir* hèt kvinna Guðmundar Teitssonar og móðir sèra Guðmundar í Reykjadal; hennar faðir
4. *Magnús Jónsson* á Brennistöðum í Flókadal dó 1764; hann var bróðir sèra Jóns Jónssonar í Stafholti, sjá ætt Hilmars stiptamtmanns 1. bindi, bls. 12. 3. gr. Nr. 4.

6. gr.

2. *Guðrún Einarsdóttir* hèt móðir Íngunnar; hennar faðir
3. *Einar Erlendsson*, bróðir Hjálmars Erlendssonar, afa sèra Þorsteins prófasts í Hítardal.

---

3. SIGHVATUR ÁRNASON, hreppstjóri á Eyvindarholti, alþíngismaður Rangæínga. Kvinna hans

er Steinunn Ísleifsdóttir frá Seljalandi Gissurarsonar, systir Sigurðar á Barkastöðum.

A. *Föðurætt:*

1. gr.

1. *Árni Sveinsson* á Utastaskála; hans faðir
2. *Sveinn Jónsson* þar og, dannebrogsmaður; hans faðir
3. *Jón Sveinsson* á Utastaskála; hans faðir
4. *Sveinn Oddsson* á Utastaskála; hans faðir
5. *Oddur Bárðarson* á Utastaskála, átti þá jörð; hans faðir
6. *Bárður Sveinsson*; hans faðir
7. *Sveinn* á Ásólfsskála, ýmist kallaður hinn *dygri* eða hinn *sterki*, var uppi um og eptir 1600.

2. gr.

3. *Arnlaug Árnadóttir* hèt kvinna Jóns Sveinssonar og móðir Sveins; hennar faðir
4. *Árni*.

3. gr.

2. *Þuríður Sighvatsdóttir* hèt kvinna Sveins dannebrogsmanns Jónssonar og móðir Árna; hennar faðir
3. *Sighvatur Þorsteinsson* á Efrahóli; hans faðir
4. *Þorsteinn*, hann dó á Efrahóli 91. árs gamall.

4. gr.

3. *Arnbjörg Einarsdóttir* hèt fyrri kona Sighvats Þorsteinssonar og móðir Þuríðar; hennar faðir
4. *Einar Teitsson*; hans faðir
5. *Teitur Einarsson* í Selkoti; hans faðir
6. *Einar*.

B. *Móðurætt:*

5. gr.

1. *Jórun Sighvatsdóttir* hèt kvinna Árna Sveinssonar og móðir Sighvats alþíngismanns; hennar faðir
2. *Sighvatur Einarsson* í Skálakoti; hans faðir
3. *Einar Einarsson* í Skálakoti, bróðir Arnbjargar Einarsdóttur, er fyrr var nefnd.

6. gr.

3. *Steinunn Gísladóttir* hèt kvinna Einars Einarssonar og móðir Sighvats Einarssonar; hennar faðir
4. *Gísli Jónsson* á Utastaskála.

7. gr.

2. *Kristín Guðnadóttir* hèt kvinna Sighvats Einarssonar og móðir Jórunnar; hennar faðir
3. *Guðni Sveinsson.*

8. gr.

3. *Guðrún Lafransdóttir* hèt kvinna Guðna Sveinssonar og móðir Kristínar; hennar faðir
4. *Lafrans Einarsson,* bjó út í Vestmanneyum.

—

4. STEFÁN HELGASON THORDERSEN, prestur í Kálfholti, þíngmaður Vestmanneyínga; kvinna hans Sigríður, dóttir Ólafs jústitsráðs í Viðey og miðkonu hans, Mörtu Stefánsdóttur amtmanns Ólafssonar.

A. *Föðurætt:*

1. gr.

1. *Helgi biskup Guðmundsson Thordersen,* dó 1867; hans faðir
2. *Guðmundur Þórðarson,* verzlunarmaður í Hafnarfirði, dó 1803; hans faðir

3. *Þórður Þórðarson* á Sámstöðum í Dölum, dó 1806; hans faðir
4. *Þórður Ólafsson* á Kjörseyri í Hrútafirði; hans faðir
5. *Ólafur Þórðarson* á Kjörseyri; hans faðir
6. *Þórður Árnason* á Narfeyri; hans faðir
7. *Árni Narfason* á Narfeyri; hans faðir
8. *Narfi Sigurðsson;* hans faðir
9. *Sigurður Daðason* í Bjarnarhöfn; hans faðir
10. *Daði Arason* í Snóksdal; hans faðir
11. *Ari Dalaskalli* hefir lifað á 15. öld.

2. gr.

3. *Ragnheiður Andrèsdóttir* var kvinna Þórðar á Sámstöðum og móðir Guðmundar; hennar faðir
4. *Andrès Jónsson* á Hlaðhamri í Hrútafirði; hans faðir
5. *Jón.*

3. gr.

2. *Steinun Helgadóttir* hèt móðir Helga biskups og kvinna Guðmundar Þórðarsonar; var Guðmundur hennar fyrri maður. Faðir Steinunnar
3. *Helgi Guðmundsson* í Hrútsholti dó 1782; hans faðir
4. *Guðmundur Jónsson* prestur á Prestbakka, í Hrútafirði dó 1741; hans faðir
5. *Jón Arnórsson* í Ljáskógum, lögrèttumaður og lögsagnari, dó 1726; hans faðir
6. *Arnór Ásgeirsson* í Ljáskógum; hans faðir
7. *Ásgeir Arnórsson* í Ljáskógum; hans faðir
8. *Arnór Loptsson* í Ljáskógum sýslumaður; hans faðir
9. *Loptur Guðlaugsson* í Ljáskógum; hans faðir
10. *Guðlaugur Loptsson;* hans faðir

11. *Loptur;* hann er af sumum, og þar á meðal Jóni Espólín, talinn son Lopts Ormssonar; en eg held þetta óvíst, eða að Loptur Ormsson hafi átt aðra sonu en þá Pètur og Stefán. Ætt sú, er komin er frá Lopti Guðlaugssyni, nefnist Ljáskógaætt.

4. gr.

3. *Guðrún Sigurðardóttir* hèt kvinna Helga í Hrútsholti og móðir Steinunnar; hennar faðir
4. *Sigurður Högnason* á Ánastöðum sýslumaður, dó 1765; hans faðir
5. *Högni Haldórsson* í Straumfirði; hans faðir
6. *Haldór Marteinsson* á Ökrum á Mýrum, prestur, dó 1655; hans faðir
7. *Marteinn Haldórsson* á Álptanesi á Mýrum; hans faðir
8. *Haldór Marteinsson* sama staðar; hans faðir
9. *Marteinn Einarsson* biskup, dó 1576; hans faðir
10. *Einar Snorrason* á Staðastað, Öldubryggjarskáld, officialis, dó 1538; hans faðir
11. *Snorri.*

Í ættartölubókum endar ættin með sèra Einari Snorrasyni, og er þar eigi getið föður Snorra; er það og títt, að ættir eru látnar enda á merkum mönnum, og eigi raktar lengra fram, eða að ættir eru raktar niður frá þeim en eigi upp; en það virðist valla geta verið vafa undirorpið, að faðir sèra Einars hafi verið sá Snorri Sveinsson, er átti Ytra-Skógarnes í tíð Haldórs ábóta Ormssonar, því sèra Einar Snorrason, er lifði þar rètt á eptir, átti þá jörð.

B. *Móðurætt:*

5. gr.

1. *Ragnheiður Stefánsdóttir* hèt móðir Stefáns prests í Kálfholti og hústrú Helga biskups; hennar faðir
2. *Stefán Ólafsson Stephensen* á Hvítárvöllum, amtmaður, dó 1820; hans faðir
3. *Ólafur Stefánsson* stiptamtmaður, dó í Viðey 1812; hans faðir
4. *Stefán Ólafsson*, prestur á Höskuldstöðum, dó 1748; hans faðir
5. *Ólafur Guðmundsson*, prófastur á Hrafnagili, dó 1731; hans faðir
6. *Guðmundur Jónsson* á Þóroddstöðum í Ólafsfirði; hans faðir
7. *Jón Guðmundsson* prestur á Siglunesi; hans faðir
8. *Guðmundur Jónsson*, þar og prestur, lifði á 16. öld, og fram yfir 1600.

6. gr.

3. *Sigríður Magnúsdóttir* hèt hústrú Ólafs stiptamtmanns og móðir Stefáns amtmanns; hennar faðir
4. *Magnús Gíslason* amtmaður á Leirá, dó 1756, hann var bróðir frúr Guðríðar, kvinnu Finns biskups, sjá ætt Hilmars stiptamtmanns 2. gr. Nr. 3, 1. bindi bls. 10.

7. gr.

2. *Marta* hèt móðir frúr Ragnheiðar og hústrú Stefáns amtmanns; var hún hans fyrri kona; hennar faðir
3. *Diðrik Hölter*, kaupmaður í Reykjavík; hans faðir
4. *Jóhann Pètursson Hölter*; hans faðir
5. *Pètur*; þessir tveir seinast nefndu feðgar, lifðu erlendis.

—

5. BENIDIKT SVEINSSON, yfirdómari á Elliðavatni, þíngmaður Árnesínga. Kvinna hans Katrín Einarsdóttir frá Reynistað Stefánssonar, og Ragnheiðar Benidiktsdóttur Vídalíns.

A. *Föðurætt:*

1. gr.

1. *Sveinn Benidiktsson*, prestur á Mýrum eystra, dó 1850; hans faðir
2. *Benidikt Sveinsson*, prestur í Hraungerði, dó 1839; hans faðir
3. *Sveinn Haldórsson*, prófastur í Hraungerði, dó 1805; hans faðir
4. *Haldór Bjarnason* á Melum í Trèkyllisvík; hans faðir
5. *Bjarni.*

2. gr.

3. *Anna Eiríksdóttir* hèt kvinna sèra Haldórs og móðir sèra Benidikts, hún var systir Jóns Conferentsráðs Eiríkssonar; þeirra faðir
4. *Eiríkur Jónsson* á Skálafelli; hans faðir
5. *Jón Jónsson* á Skálafelli; hans faðir
6. *Jón Sigmundsson* á Skálafelli; hans faðir
7. *Sigmundur* úngi *Jónsson* á Hnappavöllum; hans faðir
8. *Jón Sigmundsson* á Hofi í Öræfum; hans faðir
9. *Sigmundur* eldri *Ormsson* á Svínafelli í Öræfum; hans faðir
10. *Ormur*, hefir lifað á 16. öld.

3. gr.

2. *Oddný Helgadóttir* hèt kvinna sèra Benidikts og móðir sèra Sveins; hennar faðir

3. *Helgi Jónsson* á Hliði á Álptanesi.

4. gr.

3. *Ragnheiður Ólafsdóttir* hèt kvinna Helga á Hliði og móðir Oddnýar, var hún skilgetin dóttir Ólafs brita, og hálfsystir Guðrúnar, kvinnu Bergs prófasts í Bjarnanesi, sjá ætt Stefáns alþíngismanns Eiríkssonar hèr að framan 2. gr. Nr. 3.

B. *Móðurætt:*

5. gr.

1. *Kristín Jónsdóttir* heitir móðir Benidikts yfirdómara Sveinssonar og ekkja Sveins prests Benidiktssonar; hennar faðir
2. *Jón Örnúlfsson* eldri, var á Kjalarnesi; hans faðir
3. *Örnúlfur Valdason* í Álfsnesi; kona hans og móðir Jóns hèt Íngibjörg, en faðir Örnúlfs hèt
4. *Valdi.*

6. gr.

2. *Þorbjörg Sighvatsdóttir* hèt fyrri kvinna Jóns Örnúlfssonar og móðir Kristínar; hennar faðir
3. *Sighvatur Sighvatsson* í Grjóta í Reykjavík.

7. gr.

3. *Vigdís Símonardóttir* hèt kvinna Sighvats og móðir Þorbjargar; hennar faðir
4. *Símon.*

---

6. PÈTUR GUÐJÓNSSON, organsleikari í Reykjavík, þíngmaður Gullbríngu- og Kjósarsýslna; kvinna hans Guðrún, dóttir Lárusar Knudsens, kaupmanns í Reykjavík, og kvinnu hans Margrètar, dóttur Lárusar Hölters, beykis í Stykkishólmi; voru þeir Lárus og Diðrik faðir frúr Mörtu, sjá

ætt séra Stefáns Helgasonar hèr að framan 7. gr. Nr. 3, bræður.

A. *Föðurætt:*

1. gr.

1. *Guðjón Sigurðsson,* bjó um tíma á Sjáfarborg í Skagafirði; hans faðir
2. *Sigurður Grímsson* á Litlahamri í Eyjafirði; hans faðir
3. *Grímur Þorláksson*; hans faðir
4. *Þorlákur Grímsson,* prestur í Miklagarði, dó 1745; hans faðir
5. *Grímur Sigurðarson,* lögrèttumaður í Miklagarði, hann var bróðir Hrólfs sýslumanns Sigurðssonar; (sjá ætt Pèturs biskups 1. bindi, bls. 17, 7. gr. Nr. 5).

2. gr.

3. *Margrèt Jónsdóttir* hèt kvinna Gríms og móðir Sigurðar; hennar faðir
4. *Jón Jónsson* í Kambfelli; hans faðir
5. *Jón Jónsson* gamli í Hlíðarhaga; hans faðir
6. *Jón Jónsson*; hans faðir
7. *Jón Jónsson* í Stóradal, kallaður hreppstjóri; hans faðir
8. *Jón Magnússon* í Möðrufelli; hans faðir
9. *Magnús Björnsson* á Reykjum í Tungusveit; hans faðir
10. *Björn Magnússon,* bjó þar og um og eptir 1500.

3. gr.

2. *Herdýs Einarsdóttir* hèt móðir Guðjóns og kvinna Sigurðar; hennar faðir
3. *Einar Bessason,* hann er sagður að hafa verið af

ætt Kolbeins á Uppsölum, er uppi var á dögum Magnúsar lögmanns Bjarnarsonar, en eigi rakið, hvernig; þó mun mega rekja þetta saman og karlleagginn nokkuð lengra upp, en hèr er gjört.

4. gr.

3. *Guðfinna Sigurðardóttir* hèt kvinna Einars Bessasonar og móðir Herdýsar; hennar faðir
4. *Sigurður Þórarinsson* á Kambfelli; hans faðir
5. *Þórarinn Jónsson* í Stóradal, sonur Jóns hreppstjóra, og bróðir Jóns, er nefndur er hèr að framan 2. gr. Nr. 6.

B. *Móðurætt:*

5. gr.

1. *Guðlaug Magnúsdóttir* hèt móðir Pèturs og fyrsta kona Guðjóns; hennar faðir
2. *Magnús Erlendsson,* prófastur á Hrafnagili, dó 1836; hans faðir
3. *Erlendur Jónsson,* prófastur á Hrafnagili dó 1807; hans faðir
4. *Jón Bjarnason* á Enni á Höfðaströnd; hans faðir
5. *Bjarni Tómasson* á Lundi og Tungu í Stíflu; hans faðir
6. *Tómas Jónsson.*

Það er sagt um Jón Bjarnason, að hann hafi verið kominn af Brandi ríka í Fljótum og ættin talin þannig upp eptir, en móðir Tómasar, er sögð Guðrún Tómasdóttir Brandssonar ríka.

6. gr.

3. *Guðlaug Magnúsdóttir* hèt kvinna Erlendar prófasts og móðir sèra Magnúsar, hún var systir Gísla biskups Magnússonar á Hólum; þeirra faðir

4. *Magnús Markússon,* prestur á Grenjaðarstað, dó 1733; hans faðir
5. *Markús Geirsson,* prestur í Laufási, dó 1683; hans faðir
6. *Geir Markússon,* prestur á Helgastöðum, dó 1665; hans faðir
7. *Markús Geirsson* á Felli í Kinn; hans faðir
8. *Geir* (*Jónsson*).

7. gr.

2. *Ingibjörg Sveinsdóttir,* hèt kvinna Magnúsar prófasts og móðir Guðlaugar; hennar faðir
3. *Sveinn Sölvason* lögmaður norðan og vestan, dó 1782; hans faðir
4. *Sölvi Tómásson,* klausturhaldari á Múnkaþverá, dó 1759; hans faðir
5. *Tómas Sveinsson* á Stóruglerá í Kræklíngahlíð; hans faðir
6. *Sveinn Magnússon* á Guðrúnarstöðum í Eyjafirði; hans faðir
7. *Magnús Þorláksson* á Illugastöðum, hefir lifað á 17. öld.

8. gr.

3. *Málmfríður Jónsdóttir* hèt hústrú Sveins lögmanns og móðir Íngibjargar, hún var systir Þórarins sýslumanns á Grund i Eyjafirði; þeirra faðir
4. *Jón Jónsson* sýslumaður í Grenivík, dó 1762; hans faðir
5. *Jón Sveinsson* ýngri, á Hraunum og Túngu í Fljótum, dó 1707; hans faðir
6. *Sveinn Jónsson,* prestur á Barði í Fljótum, dó 1687; hann var bróðir Guðmundar, föður Ólafs prests á Hrafnagili, sjá móðurætt sèra Stefáns í Kálfholti hèr að framan 5. gr. Nr. 6.

—

7. **MAGNÚS JÓNSSON í Bráðræði hjá Reykjavík, varaþíngmaður Reykvíkínga, sat á þíngi 1867; kvinna hans Guðrún, alsystir Justitsráðs Jóns Hjaltalíns.**

A. *Föðurætt:*

1. gr.

1. *Jón Jónsson* á Stóra-Ármóti í Flóa, hann var bróðir frúr Valgerðar Jónsdóttur, kvinnu Hannesar biskups; sjá ætt Hilmars stiptamtmanns 3. gr. Nr. 2, 1. bindi bls. 11.

B. *Móðurætt:*

2. gr.

1. *Halla Magnúsdóttir* hèt kvinna Jóns á Ármóti og móðir Magnúsar; hennar faðir
2. *Magnús Jónsson* í Skálmholtshrauni, dó 1818; hans faðir
3. *Jón Oddsson* á Skálmholtshrauni, bróðir Sveins Oddssonar í Utastaskála; sjá ætt Sighvats alþíngismanns Árnasonar hèr að framan 1. gr. Nr. 4.

3. gr.

3. *Hlaðgerður Sveinsdóttir* hèt kvinna Jóns Oddssonar og móðir Magnúsar á Skálmholtshrauni; hennar faðir
4. *Sveinn Pálsson* á Votumýri; hans faðir
5. *Páll Sveinsson*; hans faðir
6. *Sveinn Pálsson*, hefir lifað á 17. öld.

4. gr.

2. *Margrèt Vigfúsdóttir* hèt kvinna Magnúsar í Skálmholtshrauni og móðir Höllu; hennar faðir
3. *Vigfús Einarsson* á Húsatóptum; hans faðir
4. *Einar Þorgilsson.*

8. **ARNLJÓTUR ÓLAFSSON**, prestur á Bægisá og Myrká, þíngmaður Borgfirðínga; kvinna hans Hólmfríður, dóttir séra Þorsteins Pálssonar á Hálsi í Fnjóskadal og fyrri konu hans Valgerðar Jónsdóttur frá Reykjahlíð.

A. *Föðurætt:*

1. gr.

1. *Ólafur Bjarnarson* á Auðólfsstöðum, dó 1836; hans faðir
2. *Björn Guðmundsson* á Auðólfsstöðum, dó 1843, 91 árs; hans faðir
3. *Guðmundur Bjarnarson*, fyrst í Höfnum, svo á Auðólfsstöðum, er hann keypti, dó 1787; hans faðir
4. *Björn Sveinsson* á Valdarási; hans faðir
5. *Sveinn Guðnason* á Þóreyarnúpi; hans faðir
6. *Guðni* hefir lifað á 17. öld.

Sumir nefna annars föður Sveins þessa Brynjólf á Hörghóli.

2. gr.

3. *Margrét Bjarnardóttir* hét kvinna Guðmundar og móðir Bjarnar á Auðólfsstöðum; hennar faðir
4. *Björn* á Valdalæk.

3. gr.

2. *Íngibjörg Steinsdóttir* hét kvinna Bjarnar á Auðólfsstöðum og móðir Ólafs; hennar faðir
3. *Steinn Steinsson* (Miðsteinn) á Hrauni á Skaga; hans faðir
4. *Steinn Jónsson* (elzti Steinn) á Hrauni á Skaga; hans faðir
5. *Jón Jónsson* yngri á Óslandi, bróðir Steins biskups Jónssonar; hans faðir

6. *Jón Þorgeirsson,* prestur á Hjaltabakka, dó 1674; hans faðir
7. *Þorgeir Steinsson* á Ketu á Skaga; hans faðir
8. *Steinn Þorgeirsson;* hans faðir
9. *Þorgeir* var sveinn Jóns biskups Arasonar og með honum á Sauðafellsfundi, bjó á Grund í Svarfaðardal (aðrir segja, sem víst er miður rètt, í Svínadal); ætt þessa mætti, ef til vill, rekja lengra upp.

B. *Móðurætt:*

4. gr.

1. *Margrèt Snæbjörnsdóttir* kvinna Ólafs á Auðólfsstöðum og móðir sèra Arnljóts; hennar faðir
2. *Snæbjörn Haldórsson,* prestur í Grímstúngum, dó 1820, bróðir Brynjólfs Haldórssonar afa þeirra Pèturs biskups og Jóns yfirdómara Pèturssona; sjá ætt Pèturs biskups, 5. gr. Nr. 2, 1. bindi, bls. 16.

5. gr.

2. *Sigríður Sigvaldadóttir* hèt kvinna sèra Snæbjarnar og móðir Margrètar; hennar faðir
3. *Sigvaldi Haldórsson,* prestur á Húsafelli, dó 1756; hans faðir
4. *Haldór Árnason,* prestur á Húsafelli; hans faðir
5. *Árni Haldórsson;* hans faðir
6. *Haldór Ketilsson,* prestur á Kálfafelli; hans faðir
7. *Ketill Ólafsson,* prestur á Kálfafelli, fram yfir 1633, hann var bróðir sèra Guðmundar Ólafssonar í Einholti, sjá ætt Ólafs prófasts Pálssonar 5. gr. Nr. 7, 1. bindi bls. 32.

6. gr.

3. *Helga Torfadóttir* hèt kvinna sèra Sigvalda á Húsafelli, móðir Sigríðar Sigvaldadóttur; hennar faðir
4. *Torfi Haldórsson*, prófastur á Reynivöllum, dó 1747, hann var bróðir sèra Jóns lærða Haldórssonar í Hítárdal; sjá ætt Hilmars stiptamtmanns 1. gr. Nr. 4, 1. bindi.

---

9. HJÁLMUR PÈTURSSON í Norðtúngu, alþíngismaður Mýramanna og Hnappdæla; kvinna hans Helga dóttir Árna Einarssonar í Kalmannstúngu og kvinnu hans Þuríðar Þorsteinsdóttur.

A. *Föðurætt:*

1. gr.

1. *Pètur Jónsson* í Norðtúngu; hans faðir
2. *Jón Sveinsson* á Söndum í Miðfirði; hans faðir
3. *Sveinn Sveinsson* á Skarði í Neshreppi; hans faðir
4. *Sveinn Sveinsson* á Óspaksstöðum; hans faðir
5. *Sveinn Ólafsson* á Saurum í Laxárdal; hans faðir
6. *Ólafur Hallsson* á Skríðnesenni í Bitru, hans faðir
7. *Hallur* hefir lifað á 17. öld.

2. gr.

3. *Þuríður Pálsdóttir* hèt kvinna Sveins á Skarði og móðir Jóns á Söndum; hennar faðir
4. *Páll Jónsson;* hans faðir
5. *Jón Pálsson* í Háfarifi; hans faðir
6. *Páll Þórðarson;* hans faðir
7. *Þórður Þorsteinsson* dó 1707; hans faðir
8. *Þorsteinn Þórarinsson*, prestur í Borgarþíngum, dó 1695; hans faðir

9. *Þórarinn Illugason* á Varmalæk og Hvítárvöllum lögrèttumaður; hans faðir
10. *Illugi Vigfússon* á Kalastöðum; hans faðir
11. *Vigfús Jónsson* á Kalastöðum; hans faðir
12. *Jón Pálsson*, bróðir Alexíusar Pálssonar, er var seinastur ábóti í Viðey.

3. gr.

2. *Dagbjört Pètursdóttir* hèt kvinna Jóns á Söndum og móðir Pèturs í Norðtúngu, hún var systir samfeðra Þorsteins prófasts Pèturssonar á Staðarbakka; þeirra faðir
3. *Pètur Guðmundsson* á Húki í Miðfirði; hans faðir
4. *Guðmundur Þorsteinsson;* hans faðir
5. *Þorsteinn Guðmundsson;* hans faðir
6. *Guðmundur Þorsteinsson*, bróðir Diðriks Þorsteinssonar, sjá ætt Jóns málaflutníngsmanns Guðmundssonar hèr að framan 3. gr. Nr. 7.

4. gr.

3. *Guðrún Bjarnadóttir,* seinni kvinna Pèturs á Húki og móðir Dagbjartar; hennar faðir
4. *Bjarni Gerra* í Strandasýslu.

B. *Móðurætt:*

5. gr.

1. *Íngibjörg Einarsdóttir* hèt kvinna Pèturs í Norðtúngu og móðir Hjálms alþíngismanns; hún var alsystir Haldórs sýslumanns Einarssonar í Höfn; þeirra faðir
2. *Einar Þórólfsson* í Kalmannstúngu; hans faðir
3. *Þórólfur Arason* á Síðumúla; hans faðir
4. *Ari Sigurðsson* á Fitjum; hans faðir
5. *Sigurður Arason,* dó 1707; hans faðir

6. *Ari Sigurðsson* á Fitjum; hans faðir
7. *Sigurður Ásgeirsson;* hans faðir
8. *Ásgeir Hákonarson*, prestur á Lundi dó 1580; hans faðir
9. *Hákon Björgúlfsson*, sýslumaður á Fitjum í Skorradal; hans faðir
10. *Björgúlfur Þorkelsson* á Fitjum; hans faðir
11. *Þorkell Vellingur* [þetta kallast Vellingsætt].

6. gr.

3. *Guðríður Einarsdóttir* hèt seinni kvinna Þórólfs, móðir Einars í Kalmannstúngu; hennar faðir
4. *Einar Bjarnason* á Hvanneyri í Borgarfirði; hans faðir
5. *Bjarni Sveinsson* á Ásbjarnarstöðum; hans faðir
6. *Sveinn Steindórsson.*

7. gr.

2. *Kristín Jónsdóttir* hèt fyrri kona Einars Þórólfssonar og móðir Íngibjargar; hennar faðir
3. *Jón Magnússon* í Kalmannstúngu; hans faðir
4. *Magnús Nikulásson*; hans faðir
5. *Nikulás Einarsson* í Þíngnesi; hans faðir
6. *Einar Jónsson.*

8. gr.

3. *Íngibjörg Bjarnadóttir* hèt kvinna Jóns Magnússonar og móðir Kristínar; hennar faðir
4. *Bjarni eldri Þóroddsson* í Kalmannstúngu; hans faðir
5. *Þóroddur* á Fitjum í Skorradal.

---

10. SVEINN NÍELSSON, prófastur á Staðastað, og riddari »dannebrogs» orðunnar. Þíngmaður Snæfellínga; hans fyrri kvinna Guðný Jónsdóttir frá

Grenjaðarstað, hin síðari Guðrún Jónsdóttir prests í Steinnesi Pèturssonar.

A. *Föðurætt:*

1. gr.

1. *Níels Sveinsson* á Kleyfum í Gilsfirði; hans faðir
2. *Sveinn Sturlaugsson* á Kleyfum; hans faðir
3. *Sturlaugur Pètursson;* hans faðir
4. *Pètur Sturluson* á Brekku í Saurbæ; hans faðir
5. *Sturla.*

2. gr.

3. *Guðrún Ólafsdóttir* hèt kvinna Sturlaugs og móðir Sveins Sturlaugssonar; hennar faðir
4. *Ólafur Arnbjarnarson* á Frakkanesi.

3. gr.

2. *Guðrún Ólafsdóttir* hèt kvinna Sveins og móðir Níelsar; hennar faðir
3. *Ólafur Bjarnarson* í Hvítadal; hans faðir
4. *Björn Guðlaugsson;* hans faðir
5. *Guðlaugur Magnússon* á Svarfhóli í Laxárdal hefir lifað um 1700.

4. gr.

3. *Þuríður Tómásdóttir,* hèt móðir Guðrúnar Ólafsdóttur; var Guðrún laungetin.

B. *Móðurætt:*

5. gr.

1. *Sesselja Jónsdóttir* hèt kvinna Níelsar á Kleyfum og móðir Sveins prófasts; hennar faðir
2. *Jón Guðmundsson* í Barmi; hans faðir
3. *Guðmundur Bjarnason;* hans faðir
4. *Bjarni Steinsson.*

6. gr.

3. *Ragnhildur Bjarnadóttir* hèt kvinna Guðmundar Bjarnasonar og móðir Jóns á Barmi; hún er af sumum sögð systir Vigdýsar kvinnu Lopts Ormssonar á Miðjanesi, er var merkismaður í sinni tíð.

7. gr.

2. *Íngibjörg Jónsdóttir* hèt kvinna Jóns Guðmundssonar og móðir Sesselju; hennar faðir
3. *Jón Kolbeinsson* í Gufudalssveit; hans faðir
4. *Kolbeinn Jónsson.*

8. gr.

3. *Guðbjörg* hèt kvinna Jóns Kolbeinssonar, og móðir Íngibjargar; hennar faðir óskilfeinginn.
4. *Össur Haldórsson* á Hallsteinsnesi.

---

## III.

### *Eptirrit af nokkrum gömlum skjölum.*

1.

Það giørum vier Stefner Biørnsson og Aurnolfur þorlaksson goðum monnum kunnigt með þessu ockru opnu brefi, að við vorum i hiä, säum og heyrðum ä, að Kolbeirn Sigurðarson handfesti Stulla bönda Magnussine svofelldann vitnisburð, að hann visse haft og halldið vera upp á hälfann siöunda taug vetra kyrkiunnar eign ä Myrum i Dijrafyrði, allann hälfann reka, viða og hvala, og allar aðrar fiörunytiar ath helmingi, fra Haukslæk hiä Alviðru, og til þess er sier mann ür skäladyrum i fiöru i Nesdal, ath hälf föllnum sið, fräteknum

reitsólum ä Fiallaskaga. Svo og sagðist firr nefndur Kolbeirn vita að hval rak ä Fiallaskaga fimm vetrum firer hina miklu Beolu, og Guðmundur Bönde Arason kom til hvalsins, og liet skiera nockuð af honum. Svo og ei sijður sagðist hann vita að Guðni bondi Oddsson kom til äður enn hvalurinn var allur uppskorinn, og lijsti hälfann hvalinn eign kyrkiunnar ä Myrum j Dyrafyrði, og fyrer það sama að äðurnefndum Guðna þötti firr nefndur Guðmundur háfa rängliga að sier tekið hälfann hvalinn, þá handlagði oftnefndur Guðmundur þrättnefndumm Guðna vi. málnytu kugilldi að næstumm fardógum. Sagðist äður nefndur Kolbeinn hafa verið dagligur mann Guðna bonda Oddssonar, og þar verið með hónum i þann sama tijma er þesse giórningur för framm með handsaulum þeirra i milli. Svo og visse eg hval og viðu bera ä þennan reka, og skipti sijðann j helminga j millum kyrknanna, hófðu Gnüps menn og Alviðru menn annann helming, enn Myramenn annann, Og svo heyrða eg fauður minn Sigurð Þorðarson og marga aðra enu hellstu menn seigia, að Myra kyrkia ætti allan halfann reka og allar hälfar fióru nytiar i firrsógðu Takmarki. Svo heyrða eg ei sijður enn ellstu menn það seigia, að Sigurður böndi Þörðarson ä Myrum, og Þörður böndi Stullason under Gnüpi hefði giórt helminga skifti kyrknanna imilli af óllum reka, og hier efter vil eg oftnefndur Kolbeinn sveria fullan Bokar eið ef þurfa þiker. Og til sanninda hier umm settum vier firr nefnder menn ockar Jnsigli fyrir þetta bref, er giórt var ä Myrum j Dyrafyrði miðvikudaginn næsta firir Bötolfs messu, þä liðið var frä hingaðburð vors herra Jesu Christi þushundruð, fiógur hundruð ättatiger og fiógur är.

2.

*Ex orig: sira Þorvalldz Stephanssonar*

Þath giorum vier Eirekur Þoruarðsson Sæmundur Simonarson Auðunn Sygurðsson jon jonsson Goðum monnum kunnigt með þessu voru brefi. Arum eptir Guðz burð. M. D. og xL. j Felli j sletta hlið. Barthalomeus messu dag, worum vier j hia saaum og heyrðum aa orð og handaband þessara manna Biskups jons af annare alfu. og bryniolfs bonda jonssonar af annare. Ath suo fyrirskildu, ath biskup jon selldi greindum brynjolfi jarðinnar yzta Mó[1] og suðsta Mó[1], er liggia j Barðz kirkiu sokn, að tilskildre Selfór fram aa
α β
(floka) dalnum (j Illugastaða land) þar sem at fornu hefir werið, og með ollum þeim gógnum og gæðum sem greindum jorðum eiga með laugum at fylgia. Hier j mót gaf nefndur brynjolfur jorðina backa og stein. dyr. j Suarfaðar daal j ualla kirkiu sokn með aullum þeim gógnum og gæðum sem þeim jorðum eiga at fylgia með laugum. skyldu huorir hallda þeim jorðum til laga sem keyptu. Og suara laga ripttingum aa það sem huorir selldu. Og til sannenda hier vm setium uier fyrnefndir menn wor jncigli fyrir þetta bref. Skrifað aa holum j bialltadal. sunnudaginn næstann fyrir faustu jnngang. tueimur arum sijðar enn fyrr seigir.

α] Þetta orð *floka* er með annarri hendi, þó gamalli sett uppi yfir línunni.

β] *I Illugastaða land* stendur útá spatíunne og er hier innboðað. Það er skrifað með nyarri hendi enn sjalft brefeð og öðru bleke.

γ] synist vera skrifað með sama bleke og brefeð.

---

1) Í brèfinu er hèr haft tvídublað 6.

(Þessar athugasemdir og yfirskriptin eru ritaðar með hendi Árna Magnússonar, en honum hefir gleymst að setja merkið γ] í brèfið,. því þar er það hvergi.

3.

Suofelldann vitnesburð berum við Erlingur Gíslason og brunmann tumasson at við hófum heyrt af hinum ellztum monnum halldin landamerki og jtauk aa millum gnups og alviðru .j dyrafirði, j þann sama tima sem jon bonde biornsson er kallaður var danur. atti gnup og alviðru. og þar fyrir. Inprimis at alviðra ætti land at garði þeim sem geingur ofan ur fialli og ofan j gnups aa fyrir innan lambhaga, enn at miganda læk mille gerðhamra og alviðru. Item at alviðra eige selstauðu j gnupsdal, svo sem þarfnazt aa haust framm, enn þar j gen aa gnupur j alviðru land skipstauðu og naustgiorð, bio iaurundur heitenn bauðuarsson. xx. uetur j alviðru eða leingur, hiellt og hafði þetta ataululaust, og alldrei kom hier misgreining aa svo uið vissum. fyrr enn þorgautur heitenn olafsson uar raðzmaðr undir gnupe, og hier epter vilium við sueria ef þurfa þyker. Og til sannenda hier vm festum við ockar insigle fyrir þetta vitnesburðar bref. Skrifat j schalhollte faustudagenn næstann fyrir peturs messu og pals arum eptir guðz burð M. D. xL og. v. aar.

4.

*Ex originali sira Jóns Torfasonar á Breiðabólstað.*

Þath giórvm vær Jon philippusson, Biórn þorgilsson[1] prestar. Magnus Bryniolfsson Ion gvnnsteinsson leikmenn Goðvm monnum kvnnigt með þessv vorv opnv

1) án efa = séra Björn Gíslason, bróðir Árna Gíslasonar.

brefi. Þaa liðit var fraa gvðȝ bvrð mDxL aar aa hrafnagile I eyiafirði fimmtvdaginn næstan fyrir mikaels messv. vorum vier j hiaa saaum og heyrðvm aa orð og handaband verðngȝ herra Ions með guðȝ naað biskup aa holvm og Einars Bryniolfssonar at suo fyrir skildu at biskup selldi Einare til fullrar eignar xx ar j jorðvnne hialmstoðum j eyiafirði er liggr j hrafnagils kirkiv sokn. En fyrnefndr biskup jon gallt aastriði jonsdóttr xc vpp j greinda jorð hialmstaði vegna arnfinns Einarssonar j þaa sæmd er arnfinnr varð henne skyllðvgr j tilgiof. Selldi aaðr skrifaðr biskup Ion fyrnefnda jorð hialmstaði með avllvm þeim gognvm og giæðvm sem henne hefir fylgt at fórnv og nyv og eigi er með logum fra komið. Hier j mot gaf Einar bryniolfsson ytra hol j kræklingahlijð fyrir xxc er liggr fyrir ofan skialldarvijk j glæsibæar kirkiv sokn með avllum þeim gognvm og giæðvm sem henne hefir fylgt at fornv og nyv og ecki er með logvm fra komið. skylldi hvorir hallda þeirre jorðv til laga sem keypti. Enn saa svare laga Riptingv aa þeirri jorðv sem selldi. Ogh til sannenda hier vm setti herra biskup jon og Einar bryniolfsson sin Incigle með vorvm fyrirskrifvðvm manna jnciglum fyrir þetta jarðakaups bref. skrifat aa espehole j eyiafirði aa sama aare og deigi sijðar enn fyr seigir[1].

5.

*Dómur um lamba rekstur.*

Þeim góðum mönnum, sem þetta bref sia eður heyra senda Jon Olafsson, Brandur Olafsson, þorgils Jonsson, þorgrijmur Arngrijmsson, Olafur Oddsson og

1) þessi 4 brèf hèr að framan eru rituð orðrètt upp úr brèfabók þeirri, er nefnd er í neðanmálsgreininni 1. bindi bls. 43.

Jon Einarsson, [goðum monnum kunnugt][1] með þessu voru opnu brèfi, að þa liðið var fra guðs burð 1536 J ase j vatzdal, þriðiudaginn næstann eptir Erasmi Episcopi um vorið vorum vier af Erligum manni Pali grijmssyni i döm nefndir að skoða og fullnaðar domz atkuæði ä að leggia um þä äkiæru er liotur arngrijmsson bar fram fyrir oss, að bændur og almuge villdu eigi reka sijn lomb ä sijna heiði, eptir gomlum vana og aunganu toll giallda. Nu af þui að vor landslaga bök uottar að suo skulu rekstrar vera, sem að fornu hafa vereð og suo langt og vijða að reka, þä dæmdum vier fyrgreindir domz menn aðurnefndan liot arngrijmsson skillldugann að leiða ij logleg vitni, að það hefði vereð haft og halldit skilldu rekstur ä dalz heiði ä millum giliär og gliufrär xx uetur eður þaðann að lengur, er þeir mundu til. Og vitnum leiddum, dæmdum vier huorn mann skillduganu j greindu takmarke, að reka á dalz heiði, er ætte x lomb eður fleiri, og giallda gillt lamb af x lombum eður fleirum j tollinn. Enn huor sem eij vill greiða tollinn, gialldi sauðinn með alldri enn fullrietti ä huorium iij vetrum; suo skal huor maður skilldugur vera að rijða ä heiðina, er ä xx lomb eður fleiri, og einginn af þeim fari fyrir fleiri, enn siälfann sig eður suari dömrofe. Samþ. etc.[1]

## 6.

*Landamerki milli Setbergs og Langadalz litla.*

Það giorum við Helge Helgason og Jon Eirecksson goð-

1) [ ] þetta er auðsjáanlega skakkt ritað fyrir „kveðju guðs og vora, kunnugt gjöraudi".

1) þessi dómur er ritaður úr dómabók, er Skúli landfógeti hefir átt.

um monnum kunnigt með þessu ockru opnu brefe, að við vorum þar J hia, saum og heyrðum ä fostudaginn næstann epter gregorius messu, J sijðra skogarnese J miklahollt3 hrepp, Auðunn Oddason sor svo felldann vitni3burð fyrir sira Helga Magnússyni, profaste J millum Hijtar är og skraumu sem hier epter skrifað stendur|: þesse er vitnisburður Auðunnar Oddasonar vm landamerke J millum setbergs og langadal3 litla á skogarstrond, að hann og han3 faðer biuggu ä setberge langa æfe og voru þa eingin landamerke halldinn onnur enn þa fyrgreindra Jarða J millum, að setberg ætti upp að merkegile enn langadalur ofann að upp a fiall og ofann J aa epter þui sem gilið geingur|: og Oddur Leppur sem þa atti Langadal hiellt hin þesse somu landa merke, og eignaði alldri langadal ofan yfer merkegil og onguan heyrði hann eigna langadal ofan yfer merkegil fyrr enn narfa þorvalldsson, og olst fyrskrifaður Auðunn þar upp, og var þar leingst vmm framm til þess hann var meir enn siotugur, so hann visse þar til, þótt hann væri vistum J oðrum sueitum. Heyrði hann og af sier elldre monnum þesse landamerke sogð J mille fyrskrifaðra jarða, enn eingin ønnur so hann visse||. Þetta er vitnisburður Auðunar Oddasonar vm landamerki mille val3hamar3 og bacha a skogarstrond, að fell það nu er kallað mið3aptan3 fell, enn að gomlu var kallað merkefell, ræður land3merkium J millum fyrskrifaðra jarða, stendur stor steinn vpp a fellinu, og sionhending vr steininum og vpp J fuglstapa, þa sem standa vpp epter floanum, huor að rauk annar3 og so vpp J gótur og þaðann og vpp J äna stimlu. Jtem sionhending vr fyrskrifuðum steine a merkefelle og fram J sio, heyrði hann af elldri monnum þesse landamerke greind, J mill-

um fyrskrifaðra jarða, enn einge onnur|| so heyrði hann og sinn foður segia og aðra gamla menn, að oddur þorðarson, er kallaður var Leppur, hefði rijðið a landamerki þesse enu sømu, þa er hann selldi Kolbeine keis jorðina backa a skogarstrond, og þetta væri saunn landamerki þar J mille|: og til sanninda hier vmm ꝛꝫ.[1]

7.

Það giöri eg Sygurðr prestr Þorlaksson goðum monnum vitanligt með þessu mínu brefe vpp ꜵ xvii vetur, sem eg hiellt Bergstaðe, voru þesse landamerke hallden millum bergstaða og Eirekstaða ath garðꝫ enda þeim er liggur ofan j ꜵ er girtur er af gelldingagerði er liggur vt epter hlijðinne, Sogðu mier og gamler menn er suo heitu Steinn Guðmundsson og Jon Geirsson ath þesse landamerke hefðe halldin verit laungu aður, enn eg kom þar enn nockrum vetrum seirna þa eg var j burt bar þeim til agreiningar þorkalli prest þorðar syne er þa hiellt Bergstaði og Andrese boðuarssyne er bio a Eirekstoðum vegna þorleifs Biornssonar þa kom þeim saman aðrnefndum þorleife og þorkalle prest ath þeir skylldu lata rijða ꜵ landamerke, Skyllde Eigill Grijmsson og þorvarðr Jonsson vera vegna Þorleifs, enn vegna Sijra þorkiels þesser prestar Sygurðr þorlaksson og kar Jonsson og það giorðum vær, fundum vær lyrta vpp j fiallinu rettsyne af fyrnefndum garðꝫenda og vorðu og aðra norðr a sletta fiallinu, stoðu þesse merke rettsyne huert af oðru helldum vær þesser fyrgreindir menn þesse landamerke verà og verith hafa| I annari grein heyrða eg mier elldri menn seigia ath

1) Þetta brèf er ritað orðrètt upp úr bók þeirri; er nefnd er 1. bindi bls. 40.

þesse væri landamerki millum fiosa og Eirekstaða at garði þeim er geingur ofan ur eirixstaða tiorn vtanverðre og rettsyne af honum og norðr a fiall. Og til sanninda hier vm setta eg mitt insigli fyrir þetta bref er giort var a mælifellsstað j tungusueit þriðiudaginn næsta fyrir Calixtus messu þa liðit var fra burð kristi þusund cccc tige tiu ára. — Guðbrandr Thorlaksson[1].

8.

Anno 1556 kom eg Jon Jonsson prestur til Bergstaða, og hiellt eg þann stað j 7 ar, og vm þann tijma var nog osamþicke vm fossadal a milli Bergstaða og stafns manna, Bio sa maður þa j stafni, sem Asgrijmur hiet, og kom ockur eigi saman huorki vm lambatollana nie helldur vm fossardal, hripsaði eg nockuð af lambatollunum, stundumx stundum xii, epter þvi sem menn voru goðvildarsamer mier að giallda, en af dalnum hafða eg eingin not vm þau aar, firr enn eg giorði sel þar sem nu er bærinn, enn það að stafn ætti ecke halfan fossardal, motz við Bergstaði epter þvi sem Bergstaða maldage Inni helldur, það heyrða eg alldrei nockurn mann umtala J þann tijma, til vitnis hier vm voru þesser epterskrifaðer menn viðstadder þa sijra Jón gaf þennann vitnisburð a holum J hialltadal þar J nya husenu Anno 1607[2].

---

1) þetta er ritað eptir pappírs bréfi, með þekkjanlegri hendi Guðbrandar biskups; ártalið er = 1490.

2) þetta er orðrétt ritað eptir pappírsbréfi; voru þar á fleiri bréf transskrifuð og eitt af þeim fylgjandi bréf; en aptan af endanum var búið að rífa nokkuð, og þar á meðal nöfn þeirra 4 manna, er bréfin höfðu transskrifað. þetta bréf sem hér er prentað hefir verið frumrit og eigi eptirrit af öðru bréfi.

9.

Það meðkiennist eg Jón Biornʒson prestur með þessari minni handskrift, að vm þau iiij ar eg bio a bergstoðum j suartardal, atti sa maður stafn, er liotur hiet og bio þa j stafni samdi honum lijtt við Bergstaða prest vm fossadal enn með því að eg villdi eigi eiga ertur við hann, þa giorðum við þann sama j millum ockar meðan við hofðum halld a þessum jorðum, að við skylldum baðer hafa dalinn til beitar vetur og sumar að Jafnaði og til sanninda hier vm set eg mitt signet hier fyrir neðann, skrifað J Grijmstungum 24 7bris anno 1607[1].

10.

Þat giore eg Þorsteirn prestur Gunnason goðum monnum kunnigt ath eg var ꜳ bergstoðum j suartardal fimtan ꜳr j samt liet eg beita og slꜳ þat gierði sem kallat var gielldinga gierði og liggur fyrir utan helg hus huam og talaði þar eingin maður upp ꜳ suo heyrða jeg þꜳ menn sem til saugðust hafa vitat i xL ꜳr þat segia at bergstaða menn hefðu beitt og sleigit þat sama gierði atolulaust j langan tima Suo heyrða jeg þorlak heiten þoresson segia at þar ꜳ bergstoðvm hefði verit þat landamerkia bref sem suoðan takmork hefði greindt j mille valadals og bergstaða ꜳ fiallinv at bergstaðir ætte vth j holma myre vr holma myre og i hafu klyptur vr hafu klyptum og austur j þann stora stein, sem þar stendur austur a holltenu vr þeim steine og þuert yfir vm kuarnings dal j þat gil sem kallat var þꜳ Rauðagil, vr þui gile og riett vpp ꜳ hellna fell. Reið eg norður til Vijkur og spurða eg síra gottskalk jonsson

1) þetta, og næsta brèf eptir, er ritað eptir frumritum.

sem þa atte valadal huat hann hielldi vm greind landamerki og sagði hann mier þat, og bar þar ekki a milli. Og til fullʒ vitnisburðar hier vm feste jeg mitt jnnsigle fyrir þetta bref skrifat a holltastöðum j langadal tueim nottum epter michaelsmessv vm haustit þa liðit var fra guðʒ burð þusund og fimm hundrut Lxx og ıx ar.

* * *

Guðbrandur biskup telur upp í brèfi einu út af deilu þeirra sèra Brynjólfs Árnasonar á Bergstöðum og Skúla mágs biskups, nokkra presta, er þá höfðu verið á Bergstöðum, og segir hann þar þannig: «sèra Þorsteinn Gunnason bjó fyrst á Bergstöðum, svo leingi sem elztu menn nú muna til, þar næst eptir hann sèra Jón Jónsson, sem kallaður var Prinni[1], þá eptir hann sèra Jón heitinn Björnsson sem [síðan hèlt][2] Grímstúngur, og þá var eingin deila nè ágreiníngur með Bergstaða prestum og Stafnsmönnum um Fossárdal, en sem sèra Brynjólfur kom til Bergstaða», o. s. frv. Það er og valla neinn vafi á því, að sèra Einar Úlfsson var prestur á Bergstöðum undan sèra Þorsteini Gunnasyni. Eptir þessu og seinustu brèfunum hèr á undan ætti því prestaröðin á Bergstöðum að vera þessi: *Sigurður Þorláksson* var þar prestur í 17 ár, seinna varð hann prestur á Mælifelli og hefir lifað þar enn 1490, en þá verið orðinn gamall; frá Valgerði systur hans er ætt komin. Síðan eptir sèra Sigurð hefir þar verið prestur *Þorkell Þórðarson* og þar á eptir *Einar Úlfsson*; þá *Þorsteinn*

---

1) Hann var og kallaður primni = primarius; líklega af því að hann hefir alment verið hafður forstöðumaður við stórveizlur; slíkir menn kölluðust annars venjulega siðamenn.

2) Þessi tvö orð eru sett eptir ágizkan, því þar sem þau hafa verið, var gat á brèfinu.

*Gunnason* í 15 ár, frá 1541—1556; þar eptir *Jón Jónsson Prinni* í 7 ár eða frá 1556—1563, hann var og seinna prestur á Felli í Skagafirði, er hann þjónaði í 6 ár, eptir því sem segir í dómi nokkrum, og hefir það verið frá 1576—82, því árið 1601 gefur hann út vitnisburð um Fell og kallar hann sig þar þá prest á Siglunesi, og segir, að 19 ár sè liðin, frá því hann hafi verið prestur á Felli; en 1609 drukknaði hann í Hraunsárósi. Það virðist ekki ólíklegt, eins og líka alment er talið, að hann hafi farið frá Felli til Sigluness 1582 og verið þar prestur til dauða síns 1609; en hvar hann hefir verið prestur í þau 13 ár, frá því hann fór frá Bergstöðum og þángað til að hann kom að Felli, veit eg eigi. Frá sèra Jóni Prinna er ætt komin.

Næst eptir sèra Jón Prinna hefir orðið prestur á Bergstöðum sèra *Jón Björnsson,* kallaður *siðamaður,* og verið þar 4 ár, eða frá 1563—1567, hann fór þaðan til Grímstúngna og lifði þar enn 1607; eptir hann hefir sèra *Brynjólfur* undir eins orðið prestur á Bergstöðum og þar var hann einlægt prestur til dauða síns 1627; það er og sagt um hann, að hann hafi verið prestur í 60 ár, enda kemur það og heim við þetta; það er og sagt í vísitatiu Guðbrandar biskups 1605, að sèra Brynjólfur þá hafi verið búinn að halda Bergstaða kirkju í 38 ár, en 1573 eða 1574 hefir honum þó líklega verið vikið frá um tíma, því hann átti þá, að sögn, barn í hórdómi; eins lèt Guðbrandur biskup dæma hann frá kjóli og kalli 1620, en sá dómur varð þýðíngarlítill, því Guðbrandur biskup sættist við hann undir eins á eptir, og lèt sèra Brynjólf eigi að eins halda kallinu, heldur og lofaði að hindra í engan máta vígslu Gísla, sonar sèra Brynjólfs, er þá varð kapellán hjá föður sínum.

Einu sinni áður hafði og biskup ætlað, að taka af sèra Brynjólfi Bólstaðarhlíðar kirkju, en úr því varð þó ekki.

---

# IV.

## *Sýslumanna æfir.* (framhald).

### *A.* Sýslumenn í Múlasýslu:

#### *Einar Magnússon.*

Faðir: *Magnús Þorvarðsson* í Njarðvík, Björnssonar skafins í Njarðvík. Margrèt Þorvarðsdóttir á Eyðum gaf þeim Birni dóttur sína og Njarðvík; en skafinn var hann kallaður af því, að, er foreldri hans fóru austur eptir pláguna seinni, fæddist hann á Reykjaheiði, og varð eigi laugaður fyrir vatnsleysi, og var því skafinn upp með knífi[1].

Kvinna: *Íngveldur Pètursdóttir,* þeirra

Börn: 1. *Hallur Einarsson* lögsagnari átti Guðrúnu,

1) Þessi saga um Björn stendur í ýmsum ættartölubókum; kona hans var laundóttir Margrètar, og er þess eigi getið, hvað hún hèt, þó kalla nokkrir hana Margrèti. Um Margrèti Þorvarðardóttur er getið hèr að framan 1. b. bls. 48: Margrèt hefir gefið dóttur sinni til giptíngar við Björn höfuðbólið Njarðvík; en varla hefir Björn verið af lágum stignm, annars hefði hún eigi gefið honum dóttur sína, þó laungetin væri. Björn var brúðkaupsvottur í Reykjahlíð 1522, er Þorsteinn Finnbogason gipti Páli Grímssyni Margrèti Erlendsdóttur (1. b. bls. 52) fyrir hönd bróður hennar Bjarna Erlendssonar; þar kallast hann Björn Skaffnsson í þeim eptirritum, er eg hefi sèð af því brèfi, og mun það rètt; faðir Björns hefir því líklega heitið Jón skafinn, og má vel vera, að sagan hlýði um hann, en fæddur hefir hann (ɔ: Jón) þá hlotið að vera fyrir en eigi eptir pláguna seinni.

dóttur séra Höskuldar Einarssonar í Eydölum, þeirra börn: Guðmundur, Einar, Hallur, Sigurður og Jarðþrúður. Frá þeim eru ættir[1].

2. *Magnús digri* í Njarðvík, lögrèttumaður, faðir Sigurðar, er átti Guðrúnu Marteinsdóttur sýslumanns[2].

3. *Íngibjörg*, móðir Árna Vigfússonar, lögrèttumanns á Ormarsstöðum[3].

4. *Pètur*, átti margt afkvæmi. 5. *Kolbeinn*, fór suður. 6. *Sigurður*. 7. *Árni*. 8. *Herborg* kvinna séra Magnúsar Hávarðssonar á Desjarmýri[4].

Einar var lögsagnari 1583, útnefndi hann þá dóm að Ási í Fellum um hreppstjórnar þíngsókn og 1584 var hann ásamt Þorvarði prófasti Magnússyni í að útnefna helmíngadóm að Egilstöðum á Völlum um lambseldi, er Refstaða kirkja ætti að bændum fyrir sunnan Dalsá. — Einar hefir að eins verið lögsagnari; hann bjó í Njarðvík og var kallaður Einar hinn digri.

### *Björn Gunnarsson*

Faðir: *Gunnar Gíslason* á Viðivöllum í Skagafirði, sjá um hann í Hegranes þíngi.

---

1) Börn Halls Einarssonar teljast í þeim ættartölubókum, er eg hefi sèð, nokkuð öðruvísi.

2) Sjá um Martein sýslumann Rögnvaldsson og börn hans hèr síðar.

3) Íngibjörgu þessa telja þeir Espólín og Ólafur Snógdalín dóttur Magnúsar digra, en eigi systur hans, sem hèr er gjört.

4) Enn voru börn Einars og Íngveldar, og getur þeirra hèr síðar, Þórunn kvinna Þorsteins Eiríkssonar prests Ketilssonar, og Sigurður fyrri maður Ragnhildar eldri Eiríksdóttur, systur Þorsteins.

Móðir: *Guðrún*, dóttir séra Magnúsar Jónssonar biskups Arasonar.

Kvinna: *Ragnhildur Þórðardóttir* Björnssonar frá Bustarfelli, Jónssonar frá Eyvindará, en móðir Ragnhildar hèt Guðlaug Aradóttir[1]. Þeirra

börn: 1. *Jón* á Skriðu, dó 1657, átti 1616 Margrèti Oddsdóttur Þorkelssonar á Hofi þrímenníng sinn[2], systur Bjarna Oddssonar, þau voru sammæðra við Þorbjörgu, er Pètur Pálsson á Staðarhóli átti[3]; þeirra börn:

---

1) Þórður Björnsson bjó á Eyvindará, var kona hans Guðlaug Árnadóttir, en eigi Aradóttir, — er þó stendur í sumum ættartölubókum — og systir Eyríks prestahatara (sjá 1. b. bls. 55), þeirra dóttir var Ragnhildur, kvinna Björns sýslumanns Gunnarssonar.

2) Jón og Margrèt hafa verið þannig þrímenníngar, að þau bæði voru komin frá Þorsteini Finnbogasyni lögmanns; hans megin: Úlfheiður Þorsteinsdóttir, hennar dóttir Guðlaug Árnadóttir, hennar son Jón Björnsson; en Margrètar megin: Vigfús Þorsteinsson bróðir Úlfheiðar, hans dóttir Íngibjörg, hennar dóttir Margrèt kvinna Jóns.

3) Þorbjörg kvinna Pèturs á Staðarhóli var Bjarnadóttir; var sá Bjarni prestur á Hofi næst á undan sèra Oddi, hann er venjulega kallaður Högnason, en sumir kalla hann þó Finnbogason, og þar á meðal sèra Jón Ólafsson, og er það athugavert, að hann á einum stað í ættartölubók sinni hefir fyrst skrifað hann Högnason, en dregið það út aptur og sett í staðinn Fimbogason; líklegt er að um þær mundir hafi tveir prestar til verið, er heitið hafa Bjarnar og annar þeirra verið Finnbogason en hinn Högnason. Móðir sèra Bjarna föður Þorbjargar hèt Íngveldur, og hennar systir Herdís, er fátækt fólk í Húnavatnssýslu var frá komið. Margrèt kvinna Jóns Björnssonar er í ættartölubókum, sem hèr, sögð dóttir sèra Odds, en í dómi nokkrum frá 1621, útnefndum eptir beiðni Magnúsar Björnssonar, er seinna varð lögmaður, um það, hverir skyldu taka við fjárhaldi barna Pèturs Pálssonar, er Íngibjörg Vigfúsdóttir sem móður móðir barnanna fyrst nefnd, svo þær systur Ragnheiður og Elín Pálsdætur sem föð-

*a,* Guðrún, er Ásmundur Jónsson á Ormstöðum átti, þeirra börn mörg.

*b,* sèra Hinrik á Stöð átti Margrèti dóttur sèra Bjarnar Jónssonar og börn.

*c,* Margrèt átti Þorbjörn Marteinsson og börn.

*d,* sèra Einar á Skarði í Meðallandi.

*e,* Sigríður[1].

Jón Björnsson hèlt um tíma Skriðuklaustur.

2\. *Páll* lögrèttumaður á Eyólfsstöðum átti Þuríði Árnadóttur sýslumanns Magnússonar, sjá hèr síðar; þeirra börn:

*a,* Árni átti Þóru, dóttur sèra Einars á Valþjófsstað og börn

*b,* Jón átti Hólmfríði Torfadóttur Einarssonar frá Hafursá og börn.

*c,* Íngibjörg átti Lopt Torfason frá Hafursá og börn.

*d,* Guðrún átti Magnús Arngrímsson[2] úr Njarðvík og börn.

*e,* Arnfríður átti Bjarna Högnason, þeirra dóttir Vilborg átti Eirík Bjarnason.

*f,* Solveig, hennar maður Guðmundur.

---

ur systur þeirra, og loks Margrèt Bjarnadóttir, sem móður systir þeirra. Það eru þannig allar líkur til, að Margrèt kvinna Jóns Björnssonar hafi verið alsystir Þorbjargar, en hálfsystir Bjarna Oddssonar.

1) Fleiri eru talin börn Jóns Björnssonar og þar á meðal Sigurður á Egilsstöðum í Hèraði; þeir 3 bræður: sèra Hinrik, sèra Einar og Sigurður, áttu fyrir konur, hver sína systrina, dætur sèra Bjarna Jónssonar, er prestur var á Stöð undan sèra Hinrik.

2) Faðir þessa Arngsíms hèt Magnús Arngrímsson, og faðir þess Arngríms Þorvarður; var Arngrímur eldri Þorvarðarson, bróðir Magnúsar Þorvarðarsonar föður Einars Magnússonar í Njarðvík, sjá hèr að framan.

*g*, Guðrún ýngri, hennar maður Þorbjörn, bl.
3. *Þórun* giptist 1611 Bjarna sýslumanni Oddssyni, er hèr getur síðar.

Eg held að Björn hafi fengið Múlasýslu eptir 1580 og 1585 finnst dómur hans um kirkjuskuld og mála konu, 1586 hefir hann látið dóm gánga á Egilsstöðum um penínga Vilborgar nokkurrar Bjarnadóttur. Um þær mundir hefir hann og haft bæði Múla- og Skaptafellssýslu, sem sjá má af vísitatíu sona Gísla biskups um austfirðíngafjórðúng 1588. En um 1589 hefir hann mist sýsluvöld, sem sèra Einar Sigurðsson um kvað. En menn halda, að hann hafi haldið Skriðuklaustur, meðan hann lifði. Björn bjó fyrst á Ásbrandsstöðum í Vopnafirði og síðan á Bustarfelli. Hann var ríkur maður í sinni tíð, því hann tíundaði 100 *c*. Björn sýslumaður Gunnarsson er sagt að verið hafi tvígiptur og hafi fyrri kona hans verið Guðlaug Árnadóttir, og þeirra sonur hafi verið Páll, er um tíma hafi haldið Skriðuklaustur og áður er nefndur. En Björns og Ragnhildar börn hafi verið Jón og Þórunn. Eptir dauða Björns giptist Ragnhildur aptur Snæbirni syni Fjalla-Þórðar. En líflát Björns bar svo til. Hann var á ferð nálægt 1603 og lèt flytja sig yfir Jökulsá hjá Kirkjubæ í Útmannasveit, jaki hljóp á flata ferjuna og hvolfði henni; fannst Björn eigi síðan[1].

---

1) Ætt sú, sem komin er frá Birni sýslumanni Gunnarssyni nefnist Bustarfellsætt. Að Björn hafi verið tvígiptur, er án efa tilhæfulaust, Guðlaug Árnadóttir var móðir Ragnhildar konu hans, sem fyr segir, en ekki kona hans.

*Erlendur Magnússon*[1].

Faðir: *Magnús* á Suðurreykjum, þorvarðarson, er þar bjó og Þórólfssonar, Eyólfssonar frá Hjalla.

Móðir: *Þóra* Sigurðardóttir frá Einarsnesi Jónssonar Magnússonar og Þorlaugar[2], dóttur séra Ólafs Kolbeinssonar í Saurbæ.

Kvinna Erlendar segja ættartölur að hafi verið Þórdís dóttir Hanriks Gerkens sýslumanns, (sjá Stranda og Húnavatnssýslu). Þórdís átti barn ógipt, varð vel rík, því hún erfði systkyni sín. Aðrar ættartölur og æfiágrip Þormóðar Torfasonar segja að kinna Erlendar hafi verið dóttir Magnúsar og Jarðþrúðar Oddleifsdóttur. En eg held hið fyrra sannara, einkum vegna ættnafna á börnum Erlendar; þau voru:

1. *Hinrik* átti Ástríði[3] dóttur Sigurðar Jónssonar í Ein-

1) Ætt þessa Erlendar sýslumanns Magnússonar getur hèr eigi verið rètt rakin upp, því Erlendur sonur Magnúsar þorvarðssonar hefir valla getað lifað svona snemma á tímum. Í sumum ættartölubókum stendur og að Erlendur sonur þessa Magnúsar hafi dáið úngur. Hitt mun lángtum rèttara — er nokkrir og segja — að Erlendur þessi Magnússon, er sýslu hafði í Múlasýslu og faðir var Torfa föður þormóðar, hafi verið son Magnúsar á Núpi í Eystrahreppi og Guðrúnar Erlendsdóttur, en móðir Guðrúnar var Guðný dóttir Torfa í Klofa. Fyrri kona þessa Erlendar hèt Anna þorsteinsdóttir launsonar Eyólfs Einarssonar í Dal (sjá 1. b. bls. 53), þeirra börn: Anna, Guðný, Steinunn; en seinni kona þórdís Hinriksdóttir Gerkens.

2) þorlaug var kvinna Jóns og móðir Sigurðar, en Jón er í sumum ættartölubókum, sem hèr, kallaður Magnússon, en föður Magnúsar eigi getið; hitt mun rèttara að Jón hafi verið Guðmundsson Magnússonar, sjá 1. b. bls. 12.

3) Að Hinrik hafi átt Ástríði dóttur Sigurðar Jónssonar í Einarsnesi efar einginn, en þar af leiðir þá — hvað og sèst af fleiru — að þóra systir Ástríðar, eigi gat verið amma Hinriks, eða hann átt ömmu systur sína, er þá var álitin mesta blóðskömm.

arsnesi og Ragnhildar Ásgeirsdóttur; þeirra börn: Guðrún og Íngibjörg, áttu báðar barn ógiptar; giptist svo Íngibjörg Bjarna en Guðrún Egli Hallottu sonum, varð lítið úr þeim og þeirra niðjum. Hinrik var og óspilunarmaður, brutlaði eignum sínum í hestakaupum; átti barn fram hjá, hèt Guðríður, eignaðist Jón Nikulásson (kallaðan) Ásgeirssonar og Guðrúnar Einarsdóttur í Þíngnesi. Hinrik seldi móður sinni 10 c í Svignaskarði, er hann hafði í arf fengið.

2. *Torfi* Erlendsson, sýslumaður, sjá um hann Árnesþíng.
3. *Anna* átti fyr Ásgeir Björgúlfsson Ásgeirssonar og Sesselju Halldórsdóttur[1]; þeirra börn: Guðrún, Kristín og Gróa, giptust bændamönnum og áttu börn. Anna giptist aptur Vigfúsi Eiríkssyni í Ási, átti ekki börn með honum. Hennar 3. maður Þorgeir, sonur Jóns Pálmasonar og Sigríðar, áttu ekki börn.
4. *Sigríður* kvinna sèra Einars Guðmundssonar á Stað á Reykjanesi, þeirra börn: sèra Erlendur í Hjarðarholti, sèra Guðmundur í Skarðsþíngum, Hannes og Þorleifur, kvæntust allir og áttu börn.
5. *Guðrún* giptist Þorvaldi Skúlasyni, bróður Þorláks biskups; þeirra börn: Jón, Björn, Íngunn, er giptust og áttu börn. Eptir dauða Guðrúnar kvæntist Þorvaldur aptur[2].

---

1) Sesselja var Hallsdóttir Ólafssonar prests í Saurbæ Kolbeinssonar og seinni konu Halls, Guðrúnar Þorsteinsdóttur úr Hjörsey Torfasonar í Klofa; hafa þau hjónin Ásgeir og Anna því verið fjórmenníngar.

2) Espólín og Ólafur Snógdalín telja enn alsystur Torfa Steinunni og laundóttur hennar Sigríði Árnadóttur, fyrri konu sèra Sigurðar á Skorrastað Árnasonar, er nefndur verður hèr síðar.

Eg hygg, að Erlendur hafi tekið Múlaþíng, er Björn Gunnarsson slepti, og víst er að Erlendur varð sýslumaður 1593 í Múlaþíngi, og 1597 var hann þar enn sýslumaður. Um það leyti komst Erlendur í vandræði útaf aðtekt á enskri duggu og óvarlegri meðferð gózins, og í því máli sigldi hann og dó í Hamborg. Fræðibækur segja, að hann lítinn tíma hafi og haldið Skriðuklaustur og að klaustrið þá hafi brunnið; þykir mèr líkast, að Erlendur hafi því og mist klaustrið. 1595 lèt Brostrup Gedde dæma á alþingi, hverjum tilheyrði það enska skip, er laskast hafði í Stöðvarfirði og Erlendur Magnússon hefði til sín tekið. Hafði Hákon Árnason skotið því máli undir lögrèttuna. Þórdís giptist aptur Jóni syni Odds og Guðrúnar voru þeirra börn: Úlfhildur, Jarðþrúður og Guðrúnar tvær. Þau Jón og þórdís bjuggu seinast suður í Reykjavík. Torfi sonur Erlendar og Þórdísar hefir verið borinn 1598 eða 1599, hefir því Erlendur eigi fyrri siglt en 1598, og líklega dáið í Hamborg árið eptir eða seinna. 1691 var Erlendur kirkjubóndi á Stóruvöllum í Rángárþíngi, þá hann ásakaði sèra Orm Ófeigsson fyrir að hafa sundurrifið hökul þar í kirkjunni og atyrt sig. Þar um var 1591, 8. dag maímánaðar haldið þíng á Skarði á Landi af Oddi biskupi og Eyólfi sýslumanni Halldórssyni með 12 dómsmönnum; varð lítið úr málunum. Síðan gjörðist Erlendur lögsagnari Þórðar lögmanns og dæmdi í Þverárþíngi 1593 sama ár og hann tók Múlaþíng eða part þess.

### *Jacob Hildibrandsson Winoch.*

Hann halda menn, að verið hafi frá Hamborg. Um ætt hans eða afspreingi veit eg ekki. Hann var orð-

inn sýslumaður 1599, því þá útnefnir hann dóm að Hólmum í Reiðarfirði um flutning ómaga nokkurs þaðan suður á Síðu. Sagt er að hann hafi komið sèr illa, og að sèra Einar Magnússon á Valþjófstað hafi gefið honum margar og stórar sakargiptir. Brèf eitt frá Oddi biskupi, útgefið 12. október 1598, sýnir, að hann hafi viljað kaupa af prestum hálfar kirkna og bænhús leigur. Dómur hans finnst og 1601 að Heydölum í Breiðdal um rèttaryrði. Fleira veit eg ekki um hann, utan að hann var dæmdur útlægur 1601, er hann stakk Bjarna Jónsson, er lèður var til fylgdar Adam King, enskum manni; voru og Bjarna dæmd 6 ♂ í rètt sinn, sárabætur og læknislaun.

*Árni Magnússon*

Faðir: *Magnús Vigfússon* Þorsteinssonar Finnbogasonar lögmanns, (sjá Þíngeyjar þíng).

Móðir: *Ólöf Eiríksdóttir*[1] Snjólfssonar á Ási í Fellum.

Kvinna: *Guðrún Jónsdóttir* frá Svarfhóli Ólafssonar prests í Hjarðarholti Guðmundssonar og Guðrúnar laundóttur Árna Gíslasonar á Hlíðarenda; Jón flutti sig frá Svarfhóli að Galtardalstúngu og dó þar 1579.

Börn: 1. *Jón,* átti Guðrúnu Jónsdóttur Einarssonar, en engin börn með henni; gaf fjármuni sína mági sínum sèra Eiríki í Vallanesi og dó hjá honum úr líkþrá 1579.

2. *Sigfús* eða *Vigfús,* prestur á Hofi í Vopna-

---

1) Það er með öllu rètt, er hèr er sagt um mann Ólafar Eiríksdóttur, og ber því að rètta það þessu samkvæmt, sem sagt er um hann 1. b. bls. 52.

firði átti Valgerði Skúladóttur, systur Þorláks biskups; þeirra börn:

*a,* sèra Sigfús á Dvergasteini, tvígiptur, átti börn.

*b,* sèra Árni á Hólmum í Reiðarfirði, dó ókvæntur, bl.

*c,* Björg, kvinna sèra Ólafs á Hofi í Vopnafirði; þau áttu 10 börn.

*d,* Íngun kvinna Jóns Ásmundssonar Jónssonar, átti börn.

*e,* Guðrún, kvinna Sigurðar lögrèttumanns í Krossavík Þorgrímssonar; átti börn.

*f,* Þorbjörg, kvinna Pèturs Ásmundssonar,[1] áttu börn.

*g,* Steinun, kvinna Pèturs eldra Bjarnasonar Oddssonar, sjá hèr síðar.

*h,* Íngibjörg, kvinna sèra Sigfúsar Sigurðssonar á Refstað.

*i,* Helga, kvinna sèra Guðbrands[2].

3. *Guðrún,* kvinna sèra Eiríks Ketilssonar; þeirra börn:

*a,* Ketill, prestur á Svalbarði í Þistilfirði, átti Kristínu Þorsteinsdóttur[3] og börn.

---

1) Jón Ásmundsson, maður Íngunnar Vigfúsdóttur, og Pètur Ásmundsson, maður Þorbjargar systur hennar, voru bræður, og var móðir þeirra Guðrún Jónsdóttir Björnssonar Gunnarssonar, sjá hèr að framan.

2) sèra Guðbrandur þessi var kapellán á Sauðanesi hjá föður sínum sèra Jóni Bessasyni; þau bæði hjónin veiktust, og urðu skammlíf, er barna þeirra eigi getið.

3) Þorsteinn var prestur á Svalbarði, næst undan sèra Katli.

*b*, Þorleifur átti Þórunni Einarsdóttur lögréttumanns Magnússonar[1] og börn.

*c*, Gísli, átti Þórunni Eiríksdóttur, barnlaus.

*d*, Árni, átti Guðrúnu laundóttur Bjarna Eiríkssonar og börn.

*e*, Jón, átti Unu Magnúsdóttur, barnlaus.

*f*, Haldóra, kvinna Jóns Magnússonar, bróður Unu fyrnefndrar, barnlaus.

*g*, Ragnhildur, twígipt, átti börn með báðum mönnum.

*h*, Ragnhildur ýngri, kvinna Þorláks Guðmundssonar í Kelduhverfi.

*i*, Vilborg, kvinna Erlends Steingrímssonar, barnlaus.

*k*, Guðrún.

4. *Guðrún ýngri Árnadóttir*, kvinna Rögnvaldar prests Einarssonar, þeirra börn:

*a*, Marteinn sýslumaður, sjá hèr síðar.

*b*, Arndís kvinna Odds Ásmundssonar[2], þeirra son Rögnvaldur.

*c*, Árni. *d*, Guðrún. *e*, Ragnhildur.

5. *Puríður Árnadóttir* á Egilsstöðum, kvinna Páls Bjarnarsonar sýslumanns Gunnarssonar,

6. *Helga Árnadóttir*, kvinna Nikulásar í Reykjahlíð, Einarssonar, Nikulássonar, Þorsteinssonar, Finnbogasonar lögmanns; þeirra börn:

---

1) Einar þessi Magnússon faðir Þórunnar, kvinnu Þorleifs, og Sigurðar fyrra manns Ragnhildar eldri, er Einar Magnússon lögrèttumaður í Njarðvík, er getið er hèr að framan, maður Íngveldar Pètursdóttur.

2) Oddur var bróðir Jóns og Pèturs Ásmundssona, er áttu dætur sèra Vigfúsar á Hofi og getið er hèr að framan.

*a*, Gísli lögrèttumaður á Rángá, átti Málmfríði Björnsdóttur[1], og börn

*b*, Árni, átti Guðnýu Jónsdóttur prests á Skinnastöðum og börn.

*c*, Jón, lögrèttumaður, kvæntist eigi, átti laundóttur, hún dó barnlaus.

*d*, Þórðís kvinna Haldórs Björnssonar[2], áttu börn[3].

Árni bjó á Eyðum, sem faðir hans, og var orðinn sýslumaður í Múlaþíngi 1601; mun hann þá hafa tekið við af Jacob Winoch; finnast 1601 til 1616 dómar Árna Hann sór embættis- og hollnustu-eið 1620. Eg held, að hann hafi tekið Bjarna Oddsson fyrir sinn umboðsmann á sínum seinni árum, eða afstaðið við hann nokkru af sýslunni, en sjálfur þó verið sýslumaður til dauða síns, er að bar 1632. — Árni tjáist að hafa verið maður vel að sèr, efnagóður, og hafði alla sýsluna; þó sýnist sem Hákon Árnason Gíslasonar hafi á fyrstu sýslu-

---

1) Björn faðir Málmfríðar, var son Hákonar Björnssonar í Nesi við Seltjörn.

2) Björn faðir Haldórs, var Björn Magnússon á Laxamýri.

3) Jón prófastur Haldórsson, telur bróður sèra Vigfúsar á Hofi Árnasonar sèra Sigurð Árnason á Skorrastað, er átti Guðrúnu dóttur sèra Jóns Einarssonar, hálfbróður Odds biskups, og son sèra Sigurðar Eirík, er átti Þórunni dóttur sèra Hannesar í Saurbæ. Jón Magnússon telur og bróður sèra Vigfúsar, Sigurð, er átt hafi Sigríði Árnadóttur; eins segir hann, að Guðrún dóttir sèra Jóns Einarssonar hafi gipst sèra Sigurði Árnasyni á Skorrastað. Espólín og Ólafur Snógdalín segja, að sèra Sigurður á Skorrastað Árnason, hafi átt fyrir fyrri konu, Sigríði laundóttur Árna Sigurðssonar, og Sesselju Erlendsdóttur systur Torfa; en fyrir seinni konu fyrrtèða Guðrúnu Jónsdóttur; lýtur margt að því, að þetta muni rètt vera, en þeir hafa talið báðir sèra Sigurð skakt til ættar.

manns árum Árna haft einhverja meðgjörð með Múlasýslu, því 3. maí 1603 finst dómur eptir Hákon, genginn á Egilsstöðum, og getur verið, að hann þá hafi haft sýsluna með Árna. — 1607 dag 7. maí að Hjaltastöðum, dæmdi Árni með 6 mönnum um reka, og kallast þá konúngs valdsmaður í Múlaþíngi.

### *Hákon Árnason.*

(Sjá Skaptár- og Árnesþíng).

Hèr að framan er getið þess, er Hákon 1595 dæmdi undir lögrèttuna um aðtektir Erlends Magnússonar á enska skipinu, og dóms hans á Egilsstöðum 3. maí 1603; virðist hann því hafa haft hálfa Múlasýslu um tíma.

### *Bjarni Oddsson.*

Faðir: sèra *Oddur*[1] á Hofi í Vopnafirði *Þorkelsson* Hallgrímssonar.

Móðir: *Íngibjörg Vigfúsdóttir* Þorsteinssonar Finnbogasonar lögmanns.

Kvinna: *Þórunn Björnsdóttir* sýslumanns Gunnarssonar sjá hèr að framan; þeirra

börn: 1. *Pètur*[2] á Bustarfelli átti Steinunni Vigfúsdóttur prests á Hofi í Vopnafirði Árnasonar sýslumanns Magnússonar, sjá hèr á undan, þeirra börn:

---

1) Sèra Oddur og Guðbrandur biskup voru bræðrasynir.

2) Pètur eldri Bjarnason var lögrèttumaður og bjó á Torfastöðum í Vopnafirði, er sagt hann hafi verið um sextugt, er hann eignaðist Steinunni konu sína, en hún hafi þá verið á 19. ári; hafi hann síðan lifað í 5 ár, og þau átt á þeim 5 árum 3 börn, en Pètur hafi átt 3 launbörn áður en hann kvæntist.

*a,* Björn sýslumaður, sjá hèr síðar[1].

*b,* Valgerður kvinna sèra Árna Skaptasonar á Sauðanesi, er dó 1770; þau áttu mörg börn[2].

*c,* Vigfús lögrèttumaður 1709[1].

2. *Þorbjörg Bjarnadóttir,* seinni kona Eiríks á Fitjum Oddssonar biskups.
3. *Sigríður Bjarnadóttir,* kvinna Bjarna sýslumanns Eiríkssonar á Búlandi, sjá Skaptafellssýslu.
4. *Pètur Bjarnason yngri,* átti Elísabetu Jochumsdóttur Mums, þau bjuggu í Axarfirði. Jochum Mum Jóhansson á Keldunesi var þjóðverskur í báðar ættir; hann átti Ólöfu[3] dóttur Jóns Einarssonar á Snartastöðum; hún var dóttur dóttir Finnboga lögmanns.
5. *Íngibjörg Bjarnadóttir,* kvinna Jochums Mums Jochumssonar, hann drukknaði 1661.
6. *Sigurður Bjarnason* átti Margrèti dóttur sèra Jóns á Sauðanesi.
7. *Gróa.*

Bjarni tjáist að hafa orðið sýslumaður um 1630 eða umboðsmaður Árna sýslumanns Magnússonar, en hafa feingið algjörlega alla Múlasýslu eptir Árna 1632. Bjarni bjó fyrst að Ási í Fellum, náði svo vegna konu sinnar Bustarfelli og flutti sig þángað. Bjarni tjáist að

1) Björn sýslumaður og Vigfús teljast almennt synir Pèturs yngra og Elísabetar, og er það án efa rèttara, því svo telur Jón Magnússon, er hlaut að vera því kunnugur.

2) Valgerður var tvígipt; hennar fyrri maður sèra Kristján Bessason á Sauðanesi, en seinni maður sèra Árni Skaptason.

3) Móðir Elísabetar er af sumum talin önnur.

hafa verið mesta hraustmenni, sem margir hans afkomendur. Hann var eigi ríkur maður og átti jafnan þraungt í búi; er til þess tekið, að hann eitt sinn hafi tíundað ein 5 ꝏ, og eitt sinn, er efnagóður bóndi nokkur í sýslu hans komst í óbótamál, og Bjarni hafði gjört eigur hans upptækar, hafi hann þakkað guði, að hann sendi honum nauðstöddum manni þá björg. — Um fjallferðalag Bjarna til ókunnra manna, geta Árbækur Espólíns; og annálar Björns á Skarðsá geta um bónorðsför Jóns Þorvaldssonar í Auðbrekku til Gróu dóttur Bjarna, hvar af hlautst Auðbrekku draugagángur, kendur Bjarna; því hann var haldinn fjölkýngismaður. Annars tjáist Bjarni að hafa verið höfðíngi í lund. — Hann hefir 1648 slept að minsta kosti hálfri sýslunni við Gísla Magnússon, og eptir 1640 hefir hann haft fyrir lögsagnara Hall Einarsson. Bjarni dō 1664, nærri áttræður.

*Gísli Magnússon*

Faðir: *Magnús lögmaður Björnsson* á Múnkaþverá.
Móðir: *Guðrún Gísladóttir* Þórðarsonar lögmanns.
Kvinna: *Þrúður Þorleifsdóttir* sýslumanns Magnússonar á Hlíðarenda, sjá Árnessýslu. Þeirra
börn: 1. *Björn Gíslason* sýslumaður í Rángárvalla- og Barðastrandarsýslum, sjá um hann þar.
2. *Guðríður Gísladóttir,* kvinna Þórðar biskups Þorlákssonar; brúðkaup þeirra haldið á Hlíðarenda með mikilli rausn 1674. Þeirra börn:
*a,* Þorlákur varð skólameistari í Skálholti, dó af átumeini, barnlaus.
*b,* Brynjólfur sýslumaður á Hlíðarenda (sjá Árnessýslu).

3. *Þorleifur Gíslason,* dó við Kaupmannahafnar háskóla.

Gísli Magnússon var fæddur að Múnka-Þverá í Eyjafirði 1621; nam fyrst lærdóm hjá sèra Gísla Jónssyni á Hrafnagili, þar eptir hjá Katli Jörundssyni í Skálholti, en 1637 var hann til læríngar í Hólaskóla og útskrifaðist það ár, sigldi 1638 til Kaupmannahafnar háskóla, kom híngað út aptur 1640, og var hjá föður sínum um veturinn, sigldi aptur 1641 til Leidens í Hollandi, og lagði sig þar eptir ýmsum vísindum, dvaldi þar á 4. ár, og ferðaðist þar til hinna nafnfrægustu borga þess lands, og gjörði sèr þær kunnugar; þaðan ferðaðist hann til Englands og um þess ríkis nafnfrægustu staði, fór þaðan til Kaupmannahafnar og síðan til Íslands, orðinn, að vitni Jóns biskups Vídalíns, einhver hinn lærðasti og margfróðasti af verðslegum mönnum; hann talaði latínu þjóðversku og hollenzku, sem sitt móðurmál. Hjá foreldrum sínum dvaldi hann síðan á 3. ár; 1648 fèkk hann Skriðuklaustur og hálfa Múlasýslu, er hann nokkru seinna fèkk alla. Árið eptir eða 1649 gekk hann að eiga Þrúði dóttur Þorleifs sýslumanns Magnússonar; voru þau fyrst á Skriðuklaustri í nokkur ár, en eptir andlát Þorleifs, er að bar 1652, flutti Gísli að Hlíðarenda og tók Rángárþíng 1659 og því hèlt hann til dauða síns í 37 ár. Í Múlasýslu hafði hann fyrir lögsagnara 2 seinustu árin, er hann hèlt hana, 1658 og 59, mág sinn Þorstein Þorleifsson. — 1658 misti hann konu sína Þrúði; voru þá börn þeirra í æsku, Björn 8 vetra, Guðríður 7 vetra, og Þorleifur nokkra vikna. 1686 flutti Gísli sig í Skálholt frá Hlíðarenda, til Þórðar biskups dótturmanns síns, og lifði þar í 10 ár, uns hann dó 1696, á 75. aldurs ári. Hann var alment kallaður Gísli

hinn **lærði** eða hinn **vísi**. Hann var og hinn fyrsti — það eg til veit — er á seinni tímum kom upp með akuryrkju, kornrækt og kálrækt. Gísli var mesti lánsmaður og auðnumaður; hann var og kallaður *Gjafa-Gísli* og til hans segja menn, að sèra Hallgrímur Pètursson hafi á alþíngi kveðið vísuna: «*Hodda geingur stafstuddur, stirðfættur meðal virða — burða var betri forðum — baldur að Gísla tjaldi,*» *o. s. frv.*

*Þorsteinn Þorleifsson.*

**Faðir:** *Þórleifur Magnússon* sýslumaður á Hlíðarenda (sjá Rángárþíng).

**Móðir:** *Sesselja Björnsdóttir* frá Laxamýri Magnússonar.

**Kvinna:** *Elín Þorláksdóttir* biskups Skúlasonar, hún dó 1726 86 ára gömul; þeirra

**einbirni:** *Þrúður*, hústrú Björns biskups Þorleifssonar, hún giptist 1681, bjó eptir að hún var orðin ekkja um hríð á Víðivöllum í Skagafirði, en fluttist þaðan að Hlíðarenda, og dó þar 1738, 72 ára gömul, barnlaus.

Þorsteinn sýslumaður fæddist 1635, lærði fyrst vel hèr í landi, fór síðan utan 19 vetra, og var við lærdómsiðkanir í Kaupmannahöfn, Amsterdam, Haag og Rotterdam, ferðaðist þaðan til Hamborgar, svo Kaupmannahafnar og kom aptur til Íslands 1658; varð hann þá fyrst lögsagnari Gísla sýslumanns Magnússonar mágs síns, og fèkk Múlasýslu 1659, er Gísli slepti henni algjörlega. 1661 kvæntist hann. Hann fèkk og Skriðuklaustur; en 1670 eða 1671 skipti hann við mág sinn Jón Þorlásson Múlasýslu — að undanteknum fjórum nyrðstu þínghánum — fyrir Möðruvallaklaustur, með

tillátssemi fógetans Jóhans Pèturssonar Kleins, og fyrir beiðni Gísla biskups. Um þrætu hans við Jón Eggertsson og önnur völd hans, sjá Hegraness sýslumannatal.

*Jón Þorláksson.*

Faðir: *Þorlákur Skúlason*, biskup á Hólum.

Móðir: *Kristín Gísladóttir* lögmanns í Bræðratúngu Hákonarsonar.

Kvinna: *Sesselja Hallgrímsdóttir* prests í Glaumbæ Jónssonar.

Börn: 1. *Jón* varð lögsagnari föður síns 1702; átti 1699 Guðríði Einarsdóttur biskups Þorsteinssonar[1].

2. *Vigfús* og 3. *Þorlákur*, dóu báðir úngir.

4. *Hallgrímur* skólameistari á Hólum, átti barn í lausaleik, og misti við það geistlegheitin.

5. *Björn* prófastur í Görðum á Álptanesi, dætur hans Þóra hústrú Haldórs biskups Brynjólfssonar, og Steiuunn kvinna Skúla landfógeta Magnússonar; Steinunn var laungetin.

Jón Þorláksson lærði á Hólum, og er hann var útskrifaður, sigldi hann til meiri lærdómsframa, kom svo inn aptur og var um hríð á Hólum, sigldi aptur 1659 og kom þá inn aptur 1664; fór enn utan 1665, komst í þjónustu höfuðmannsins Hinriks Bjelkes og fekk hans veitingu 1666 fyrir Möðruvalla klaustri; ætlaði sama árið inn með dönskum, en skipið var tekið af Skotum, svo hann komst eigi til Íslands fyrri en 1667, og heimtaði hann þá klaustrið.

Jón frá Ökrum í Skagafirði, sonur Eggerts lögrèttumanns, er þar bjó, Jónssonar sýslumanns í Haga á

1) Um börn Jóns sýslumanns Jónssonar verður hèr síðar talað.

Barðaströnd, Magnússonar sýslumanns í Ögri, var þá frumvaxta, og hafði eptir dauða föður síns, er druknaði í hèraðsvötnunum, eignast Sigríði stórráðu, er þá var ekkja og verið hafði seinni kona Benidikts Pálssonar, er haldið hafði Möðruvalla klaustur, og fèkk hann af Tómasi Nikulássyni, umboðsmanni höfuðsmannsins, Möðruvallaklaustur 1665 fyrir 500 spesíudala festu; en um þær mundir dó tèður Tómas í skipreika, og líklega vissi höfuðsmaðurinn ekki af þessari veitingu umboðsmanns síns. — Jóni Eggertssyni þótti nú mikið fyrir að standa upp fyrir Jóni Þorlákssyni, og risu af þessu miklar deilur; náði þó Jón Þorláksson klaustrinu 1669, en varð fyrir róstum af Jóni Eggertssyni (sjá hèr um meira í Árbókum Espólíns og æfi Þorsteins Þorleifssonar í Skagafjarðarsýslu). — Fyrir tilstilli Gísla biskups Þorlákssonar, skipti Jón Þorláksson lènum við mág sinn Þorstein Þorleifsson, eins og áður er á vikið, en Þorsteinn áskildi sèr af Múlasýslu 4 nyrðstu þingstaði sýslunnar, Skeggjastaða-, Ásbrandsstaða-, Brúar- og Ássþinghár; flutti þá Jón Þorláksson sig árið 1670 austur og tók Múlasýslu og Skriðuklaustur, en Þorsteinn flutti sig að Möðruvallaklaustri. Í þeim flutningi, er Þorsteinn var kominn vestur yfir Jökulsá, kom hinn nafnkendi brúarbilur, er braut brúna af ánni, og gjörði þar að auki margan skaða. Var það eignað fjölkíngi Sigríðar stórráðu, því hún hefði ætlað að tortýna Þorsteini. — 1669 átti Jón Þorláksson barn í lausaleik, er hann meðgekk, en við öðru barni, er honum var kent, vildi hann eigi gangast. Hann kvæntist og um þessar mundir. Hann hèlt Múlasýslu, utan fjórar nyrðstu þinghárnar til 1685, þá slepti hann eptir samkomulagi, sjö þinghám sýslunnar við Bessa Guðmundsson, er hann hafði tekið sèr

fyrir lögsagnara 1680, og hálfu Skriðuklaustri. 1693 tók hann sèr fyrir lögsagnara Höskuld Haldórsson, en hann varð undarlega veikur og dó 1701. Jón tók þá 1700 til lögsagnara Gísla lögrèttumann Eiríksson. 1702 slepti Jón Þorláksson við Jón son sinn enn 4 þinghám, og 1711 þeim þremur, er hann þá hafði eptir við Hallgrím son sinn. Jón var sýslumaður í 41 ár, var spakur og góður maður og af öllum vel þokkaður. Í embættisverkum var hann eigi haldinn neinn sköruugur, elskaði hann og kyrrlæti og friðsemi. Fyrst bjó hann á Skriðuklaustri, síðan á Víðivöllum í Fljótsdal og dó háaldraður 1712.

Skipti þau, er í Jóns Þorlákssonar tíð komu á Múlasýslu, voru orsök til þess, að sýslunni þar eptir var skipt í þrjá parta og síðan í tvo jafna parta, er enn viðhelzt. Eg tel því fyrst upp sýslumenn í nyrðsta partinum, og fer síðan suður eptir.

### *a,* sýslumenn í norðasta partinum:

#### *Marteinn Rögnvaldsson.*

Faðir: *Rögnvaldur Einarsson* prestur á Hólmum Magnússonar á Reykjum Björnssonar.

Móðir: *Guðrún* yngri *Árnadóttir* sýslumanns Magnússonar[1].

Kvinna: *Ragnheiður Einarsdóttir* Skúlasonar, bróðurdóttir Þorláks biskups Skúlasonar. Þeirra

börn: 1. *Páll* sýslumaður er hèr síðar getur.

2. *Guðrún* eldsta, kvinna Ketils prests Bjarnasjarnasonar, barnlaus.

3. *Guðrún* önnur, kvinna Björns sýslumanns Pèturssonar, er hèr verður síðar getið.

1) Sjá hèr að framan.

4. *Þuríður* (aðrir Jarðþrúður) kvinna sèra Eiríks í Múla Sölavasonar, þeirra börn: *a,* Sölvi *b,* Sigfús *c,* Steinunn og fleiri.
5. *Einar* átti Guðríði Þórarinsdóttur frá Hrafnagili Jónssonar þeirra börn: *a,* Þorbjörg *b,* Haldór.
6. *Þuríður* fyrri kona Vigfúsar Pèturssonar[1] frá Bustarfelli þeirra börn: *a,* Pètur lögrèttumaður á Hjartarstöðum. *b,* Ragnheiður.
7. *Steinunn,* kvinna Runólfs prests Ketilssonar[2]; þeirra börn: *a,* Jón. *b,* Steinunn. *c,* Guðrún og *d,* Katrín.
8. *Guðrún* yngsta, kvinna Finns sonar Böðvars prests á Valþjófsstað[3].

Marteinn lærði fyrst hèr á landi, sigldi síðan og stundaði bókmentir í 3 ár við Kaupmannahafnar háskóla, og í Kaupmannahöfn var hann 1659 og 1660. Þorsteinn fèkk Martein fyrir umboðsmann sinn 1671, í þeim 4 þínghám Múlasýslu, er hann hafði áskilið sèr; en 1682 sigldi Marteinn upp á taxtann og fèkk þá veitíngu fyrir sjálfann sig á tèðum þínghám, enda mun Þorsteinn hafa slept þeim við hann 1678, og eigi mátt halda þeim, eptir að hann var orðinn sýslumaður í Hegranessýslu. — 1685, er Bessi sýslumaður Guðmundsson fèkk sèr veitt hálft Skriðuklaustur, en Jón sýslumaður Þorláksson slepti því, með hálfum útjörðum, tók Marteinn sýslu-

---

1) Sjá hèr að framan

2) Sèra Ketill, faðir sèra Runólfs, var son sèra Eiríks og Guðrúnar Árnadóttur sýslumanns Magnússonar og er hans getið hèr að framan.

3) Guðrún 4. er enn talin hèr að framan kvinna Sigurðar Magnússonar Einarssonar dygra.

maður það út, af Jóni til Bessa. Marteinn hjó að Helgustöðum í Reiðarfirði, svo á Eyðum og seinast á Hallfreðarstöðum; hann dó á 57. aldursári 1688, en nokkrir skrifa að Marteinn eigi hafi dáið fyrri en 1691. Á sínum seinustu árum held eg, að hann hafi tekið Pál son sinn fyrir umboðsmann sinn. Það er sagt um Martein sýslumann, að hann hafi verið lærður maður og vel viti borinn, stöðuglyndur og mikilmenni að kröptum. Hann var með öðrum stúdentum í Kaupmannahöfn til varnar 1659 og 1660 er Karl Gustav Svía konúngur sat um borgina, og er mælt, að hann hafi sýnt karlmannlega vörn.

### *Páll Marteinsson*

Foreldrar: áðurnefndur *Marteinn* sýslumaður og *Ragnheiður Einarsdóttir*.

Kvinna: *Kristín Eiríksdóttir* prests á Kirkjubæ Ólafssonar prests Einarssonar. Sèra Eiríkur var 41 ár prestur á Kirkjubæ og dó 1690. Kvinna hans var Ólöf Jónsdóttir frá Hafrafellstúngu Einarssonar, Nikulássonar, Þorsteinssonar, Fimbogasonar lögmanns.

Börn: 1. Sèra *Haldór* á Breiðabólstað, dó 1749, átti Sigríði dóttur Ísleifs sýslumanns Einarssonar Þorsteinssonar[1]. Þeirra börn:

*a,* Ísleifur ráðsmaður í Skálholti átti Helgu[2] Haldórsdóttur.

---

1) Sjá Skaptafellssýslu.

2) Helga var systir Rósu móður Gísla prests í Norvegi launsonar Jóns sýslumanns Jakobssonar.

*b*, Kristín, kvinna Steindórs sýslumanns Finnssonar[1], bl.

2. *Eiríkur.* 3. *Gísli.* Hans son Gísli.

Páll var skólagenginn, var svo fyrst til aðstoðar föður sínum og fèkk vonarbrèf fyrir sýslupartinum 1688, og tók hann algjörlega 1689, er faðir hans slepti honum. Páll slepti aptur þessum sýsluparti við Björn sýslumann Pètursson 1695. Páll bjó á Eyðum og var haldinn vænn maður.

---

# V.

## *Kyrkna máldagar,* (framhald).

### *Nes Kyrkia.*

Nes J Aðaldal er Ceciliu kyrkia,. Kyrkia ä allt heima land. Þetta á hun Jnnan kyrkiu. iiij. krossa. Alltaris klæði ij. kantara kapa, gloðar kier, lyka abreyðsl vont. Olafs lykneski. Jarnstikur iij. merki ij. Tiolld vmm alla kyrkiu, sär vondur, og fontur, kluckur ij. läs, kaleykur, Glergluggur, Bok ein, ij marka psalltari, tekur prestur heima J leigu iiij. merkur vtann garðʒ af half kyrkiu, og ii. bænhusum, iij. merkur. Liostollur og heitollur af xiii. Bæjum. Kyrkia ä og Jarlstaði, er Hiallti prestur gaf, með Hrut holmum og tolf feðminge Torfs, og Brua landj, Jarlstaða holltt, Jarlstaða Teyg J Valahrijsum. Þetta J kuikfie. kyr ær iij.—ij ꝯ og vı aurar voru.

---

1) Sjá Árnessýslu.

*A Stað I Kinn.*

Kyrkia að Stað I Kinn[1] Er helguð Mariæ og Nicholao, thil þeirrar kyrkiu liggur allt heimaland, og Ofeigstaðer, Torfunes og Tiarnahuerfe, hið eystra og vestra, halfz hundraðz skogur J manafelli. Reki J Vijk vt þriðiungur af Tolftungi allz hualz, sijðann skal þriðiungur allz hualz thil þessarar kyrkiu. Aull trie skemri enn xx feta, Tueijr hluter hins stærra viðar. Þetta J kuikfie. Kyr ij. ær xij. Halfur þriðie tugur veturgamallz fiar, ij. kuijgur tuæuetrar, Þetta er Jnnann Kyrkiu. iij. messuklæði vond, ii. Alltarisklæði og hin þriðju Göð. ij brijkar klæði, Tiolld vond vmm kyrkiu, Legendu Bök xii manuðj að Dominicum. Skrijn eitt, krossar vi. forn skra. Missale ferio. Guðspioll ä selskins Bok. iij kluckur. Glergluggar iij. Alltaris steirn laus, Jarnstikur iiij og lampe, kaleykur, elldbere. Sermonum Bök, Dialogus Marju saga. Mork vax. ix merkur lysis. Þar er prestz skylld og diakns, Tekur prestur vtanngarðz halfa iiij mork J leygu, heima iiij merkur,. Heytollur og lysistollur af xi. Bæjum. Tijund tali anno ccc. Þetta hefur gefist thil sijðann syra Sturla kom. Kyr iiij. asauðar kugilldi. Þetta hefur hann Gefið, Alltaris klæði. Brijkar klæði og Gloðarkier, Torfskurð I Bergstaða land. iiij tolffeðmingar Uiðun I Staðar hollt. Fra Ofeygsfelle thil miosyndis, halfur attungur hualreka og viðar, og J flutningu millum Osa, halfur attungur huals og viðar.

*Helgastaða Kyrkia*

Kyrckia A Helgastoðum er helguð uorre Fru sanctæ

---

1) Í B stendur: „Kyrckia A þoroddstoðum í Kinn“ og er það óleiðrètt, og eins hefir með fyrstu verið skrifað í A, en þar er það aptur leiðrètt á þann hátt, sem hèr stendur, eins og sýnist með sömu hendi, sem bókin er skrifuð með.

Mariæ, og hinum heilaga Nicholao, Hun ä [1]heimaland halft, En bæði kyrkiu hlute og reiðslu hlute, A selfør I Haurksdal, og þijng Ey halfa og þingstøð vmm framm, Afriett J Nättfaravijk, og er þar Itala frä Mwla stað og Grenjaðar stað. — Kyrkia ä Hamraland halft, Enn allt forsland, og XIII kugilldj. Kyrkia er altiollduð með Biorum ij. og sotript, messufot ij og kaleyk, Glergluggar ij og kluckur iij. Sloppar ij. kantara kapur ij. Marju skrift og Nicholas lykneski, og ein Bök, xii. manaða tijðer, iiii. alltaris klæði, og varbok, iiij Krokstikur, I. messingar stika, i. jarnstika mykil, iiii. krossar kyrkiu kola, hokull Er Steindor gaf, Lysistollur og heytollur af VI. Bæjum. Þar er prestz skylld og diaknz. Tekur prestur heima J leygu iiij. Merkur, Mórk utann Garðz. Tijund tali Anno. III. merkur. iij hundruð J flytianda eyri |—o—| |—o—|.

*Einarstaða Kyrkia*

Að Einarstoðum J Reykiadal er Peturs kyrkia. Liggur thil kyrkiu land J [2]kuigierða dal, og v. kugilldi J heimajorðu. [3]Þetta J skruða. Alltaris klæði VI., yfersloppar iij. messu klæðe iiij. að øllu, kaleykar iij, kantara kapa, kista læst, Tiolld vond vm kyrkiu, Bækur iij. fornar og eru ä XII manaða tijðer. Aspiciens Bok að ottu song vmmframm vmm Jol. Ønnur tekur thil epter Jol.

---

1) þessu orði „heima“ er slept í B., en er þar seinna bætt við út á röndinni.

2) Í B hefir staðið: Kuijendadal, en er þar seinna breytt í Kuigierða dal.

3) Í B stendur: „þetta er Inann kyrkju“ og eins hefir fyrst verið skrifað í A, en þar er því breytt þannig, sem hér stendur, en óbreytt í B.

De sanctis, thil paska. legendu Bök vond. Laga songua Bok. Seqventiu Bok. Dominicu Bok ä sumarið I selskinne, salltare göður, Graðall, Capitularius skrijn, kietill, Gloðar kier, Elldbere, lijka abreyðsl, Broddstafur, Marju skrift, Peturs likneski, kross forn með v. likneskium. Röðu krossar iij. kistill og J helger domar, og vpphaf kross, Jarnstikur iiij, og ein mykil messingar stika, glergluggur ı, merki ij. Kyrkia a ij. kugilldi og xvıı. aurar, Þar er ij. presta skylld. Taka þeir heima J leigu iiii merkur. vtanngarðȝ ııı ꝍ og xıı alner[1], Heytollur og lysistollur af xviii. Bæjum. Tijund tali anno, halft iiij. hundrað og eyre. Epter song syra Eirijks, Er Þörgrijmur Böndj' skylldi að Giora for kyrkiu ä Einarstoðum, so að hun taki [2]|—o—| xx. hundruð, Hest |—o—|.

*Lundar Brecku Kyrkia*

Að Lundar Brekku a Kyrkia xxx hundraða J heijma landi. Þessum Bæjum liggur tijund thil Lundarbrecku. Af Jarlstoðum og Rafnstoðum. af Suguröarstoðum, vr Sandvijk, af Biarnastoðum, vr Tungu og annare Tungu, af Myre, af Halldorustoðum, af vollum tuennum, iiij. eru Bænahus. Lambaeldi liggur þangað, og ostollur, skiæðatollur af xııı Bæjum. Inann kyrkiu. Tiolld vmm kyrkiu, krossar iij, kluckur iiij, Alltaris klæði ij, munnlaug, merki ij, kyrkiu kola, Elldbere, Glöðar kier |—o—| Heytollur og lysis tollur af xiii Bæjum. Hier er prestȝ skylld og tekur hann heima J leigu iiii merkur, vtann garðȝ af iiii Bænhusum ii merkur. x Bækur, ııı salltarar, viii kugilldi, halft fimta hundrað J flytianda 'Eyre,

1) Hèr hefir verið vísað inn í A og skrifuð svo sem tvö orð út á röndina, en sèst nú ekki, þar það er rifið burt.

2) Þessu merki hefir hèr verið slept í A, en er þar sett fyrir ofan.

Marju skript er tekur hundrað, af Haurksdalʒ og Vydikier aller tollar, sem af auðrum Bæjum, eptir þvi sem herra Jon Biskup skipaði thil.

*Eyardalʒaar Kyrkia.*

Að Eyardalʒ á ä kyrkia J heijma landi, xxx hundraða. Jnnann kyrkiu. Tiolld vmm kyrkiu. ij krossar. Marju skript, lykneski ij. kluckur ij. og klucku brot hið þriðia. Alltaris klæði iij. Eitt merki. i. messu klæði, munnlaug vond, dominicu Bok per anni circulum og aunnur Bök vond, Elldbere. kyrkiu kola, dwkur slitinn, Brodd stafur. Þar skal vera prestur, og tekur heima J leigu iiij. merkur. Vtanngarðʒ af einu Bænhwse halfa mork. Af v bæjum lysistollur og heytollur. Tijund tali Anno x aurar. ii. kyr og v. asauðar kugilldi, hross og naut veturgamallt.

*Liosavatʒ Kyrkia.*

Að Lyosa vatne a kyrkia xxx hundraða J heyma landj. Jnnann kyrkiu. Tiolld vmm alla kyrkiu. Krossar iij. Marju skript. Nicholas skript. kluckur iij. Alltaris klæði ij. munnlaug. merki ij. kaleikur. Gloðar kier. elldbere. kantara kapa. Hier skal vera prestur og diakn. Tekur prestur heima J leigu iiij merkur, vtanngarðʒ iiij merkur. af x Bæum hey tollur, og liós tollur af viii Bæjum, hestur. xii. kugilldj. Stygur Böndi ä að lata giora forkyrkiu, lyka abreyðsl ii. marka messuklæði, iiij Bækur.

*Haals Kirkia.*

Að Haalse J Fnioskadal, er Peturs kyrkia. Kyrkiunne skal fylgia Bunaður allur sä, er hun hefur, það er skrijn með helgum dömum, krossar iiij. yfer häallt-

are, v. alltaris klæði, enn tuennur bunaður utar ä huoru alltare. Sylfur kaleykur og annar kaleykur. v. messu klæði. ii sloppar, kanta kapur ii, messingarstikur ij. Jarnstikur ij. litlar, ı. mykil Jarnstika, Elldbere, Gloðarkier, Broddur lyka kräkur, ı. kista, Borur, og vont klæði meður, messingar kietill, ıı. lykneski. iiij. kluckur, ıı. lecktarar, I Bokum, messu Bök ı. Aspiciens Bök, ii J spiolldum Enskar, aðrar ij litlar, iiii. lesbækur, Enskur gradall, og annar per usum: seqventiu Bök. Ordo per anni circulum, ij. alltaris steinar, kross hinn fimte, er Gafst thil og lijtil Marju skript. Staðurinn ä heimaland allt, Birningsstaði, Kambsstaði, Sandhaugaland, er Ysleyfur prestur gaf, lambeldi vmm fnioskadal, og oll torua milli Þuerär og Nioskœr, þijngmanna lækiar og Markdælar. Stað fylger Reki ä Fliotȝ Sandj. Sietungur Bæði hualreka og viðreka. fra Flíotȝ ösi og nær thil miðȝ Sandȝ, Siettungur við Liosvetninga J nättfaravijk. Millum Huanndala är, og Suijn är. Teijgur fylger J Kinn norður, vt fra Finnstoðum, og þyfe teijgur Jnnann garða, Afriett a heijði vt, Halsmanna tungur. Þetta ä staðurinn J kuikfie, xiij kyr, Lxxx asauðar meður Geytum. Hross v. x. veturgamla sauðj. halft iii. hundrað I gielldum nautum. Kista verðlaus, x. aura kieralld, ij Borð Jarnfestur, Þar skulu vera ij. prestar. og diakn. Þangað liggia ij. halfkyrkiur og viij. Bænhns. Sä er ä stað Byr, skal abyrgiast stað og øll staðarfie, hallda hwsum og Gorðum, hafa thil x vætta J skogi, og so tijmbur sem þarf thil hus, eður að Buhlutum að Giora, Eigi skal hann selia vr skogi, nema thil staðar böta sje lagt, eður annað fie sie ella lagt J staðinn. Hann skal hafa tijunder allar, og legkaup óll, En allt það sem meijra er gefið með lykum enn so, enn annars kostar giefið,

þä ä staður það, þess kostar að sa skal akueða og lysa fyrir presti eður nabuum er thil gefur, til huors að vill það fle fara lata. Riett er þuj fle að veria thil Boka eður messu klæða eður annarar kyrkiu prijði. Kyrkia a iii. merkur vax og Reykelsi. Nyu hundruð J virðingar fle, fjortan aurar J voru. cc. hundruð J flytianda eyre. fimm hundruð J aullum aurum gripa. iij. hundruð fyrir klucku malm. In summa. allt lausa Gotz a Hälse xx. c kuikfle að auk.

*Illugastaða kyrkia.*

Kyrkia ä Illugastoðum a iiij. kyr, iij. asauðar kugilldi, þetta J skruða: þrenn messuklæði að aullu, iiij. alltaris klæðj, yfer sloppar ij., kantara kapa, lyka abreyðsl. Tiolld vmm alla kyrkiu, kluckur iiij, krossar iij. marju skript, skrijn meður helgum domum, þionustu kier af silfre, Jarnstikur iiij, [1]og ij goðar. messingar stikur ij, vatnkietill, Gloðar kier, Elldbere, Munnlaug, Merki j, kyrkiu sär kista, Þetta er J Bökum. messubok per anni circulum. Texti. legendu bækur per anni circulum, Hymnarium sequentionarium, og ein vond Bök. Þar er tueggia presta skylld, Taka þeir heima J leigu iiij. merkur, vtanngarðz half siettu mork. Af ıx Bæjum heytollur og lysistollur. Nicholäs lijkneski. kross nyann. Brijk Göð. Nicholas [2]saga. Capitularium. Graduale og þo ei fullt. Jola Bök. ıx hundruð J flytianda[3]. ross iij. summa xviij.

---

1) Þessu „og ij goðar" er slept í B og eins hefir verið í A, en er þar seinna bætt við út á röndinni.

2) Í B og A stendur lykneski, en þessu hefir seinna í A, verið breytt með sömu hendi í „saga".

3) Í B hefir staðið „eyre", en er þar dregið út.

### *Draflastaða Kyrkia.*

Kyrkia ä Draflastóðum a xxx. hundraða J heimalandj. Jnnann kyrkiu xi alna Revill, er Brandur gaf. Tiolld [1]vond vmm kyrkiu, hialmur, Bokastöll. kyrkiu kietill. iij. alltaris klæði, Ellðbere, Glöðarkier, munnlaug, merki ij. yfirsloppur. ij. messingar stikur, krossar ij, Byskupa lykneski ij. steintialld, i kyr og hross, xxx. rapt viðar. Þar er prestskylld. Tekur hann heima iiij. merkur, vtann garðʒ half fimtu mork, heytollur og lysistollur af xiij Bæjum. Reuill sæmiligur, er syra Magnus Gaf. Bækur vi. epter Grijm prest og enn Bækur x. aura verðar, er Are prestur gaf að Magnuse Mariu skript og peturs skript[2], og hundrað J flytianda Eyri, er Eyrijkur gaf.

### *Flatøiar Kyrkia.*

Kyrkia J Flatey á tolftung vr allri Eyiu, meður aullum Gognum, halfa Brettingstaði, Jokulʒ är land, vi hundruð J viðum. Þetta Jnnann kyrkiu, messu klæði iij. alltaris klæði, kaleykur. kantara käpur ij, Tiolld iij. skrijn, krossar ij. Maríu skriptir ij. messingar stikur ıj, kluckur iiij. og ii. litlar, fostu tialld, abreyðsl, krakur, fontur meður Bunaðj. Ein Jarnstika, Biarnfell, kistill steyndur, Elldbere, Gloðarkier, messuklæða kista, munnlaug, sequentiu Bok, lesbok per anni circulum að Dominicum, enn thil Columba messu, De sanctis, iiij. kyr.

---

1) Orðið „vond“ bætt inn í A út á röndinni, með sömu hendi, en vantar í B.

2) Í B hefir staðið fyrir aptan „skript“ merkið |—o—| og svo verið slept endanum; en þessu hefir þar seinna verið breytt með annari hendi, svo það er nú þar, eins og í A.

af vii Bæjum Liostollur, [1]fiskatollur, tijund tali anno. iij. merkur. j. Bænhus ij. asauðar kugilldi.

*Grímsøiar kyrkia.*

Þesse er mäldage kyrkiunnar hins Heilaga Olafs J Grýmsey þa er Jon Byskup vijgði hana. Attungur J Eijnni, og viii vætter af hual huorjum þeim sem ä er hundrað vætta, huórt sem Rekur eða er fluttur, halft huort spik og Reingi, viii. merkur vax af Bóndum. kaupa þionustu mann þann er til kyrkiu Bere elld, og moka frä henne snio vm vetrum, og vinna það allt sem hun þarf nauðsynlega, suo að kiennemenn meigi þar veyta, fyrer þær saker Guðs Embætti, og liggia thil þess starfs xvı fiorðungar fiska. Þar er ij. presta skylld, og syngia huorn dag messu, og ij vmm fostu og ymbrudaga. Bændur skulu fæða presta, þeir sem eyna eiga ıı. missere, En ef þeir fæða Ey, þa skal lwka presti vi. aura voru. að miðju sumri, af huorjum halfum attungi. Enn ef þa kiemur ei vara framm. þa skal vætt skreijðar fyrer huorjar xii alner, og vera greijtt að viij vikum. iii.[2] hundruð skulu prestar hafa af huorjum manne. þeim sem er halfann manuð J eyjunne, til fangs eður leingur, Enn ij. alner af huorjum manne, er xii manuði er I eyunni. Fiora fugla af huorju hundraðj, af þeim fynglijngar monnum, Er Eyna leiga, En hiner giallde huorutueggja toll er eigi leiga. tuær alner af fiski. Enn fugla að tale. Af hual huorjum mans hlut J flutnijngu og fullann skurð, enn ecki af reka hual. Halfar kyrkiu tijunder skulu prestar hafa. En kyrkia halfar. Þetta ä kyrkian J lausa fie. J Tioru cccc. A Moðruvollum J

1) I B hefir hèr staðið „og" fiskatollur, en „og" er dregið út aptur.
1) Í A hefir verið dregið undir „iii" og skrifað út á röndinni „2".

Horgardal hallft fiorda hundrad. Að Jone a Hlöðum c. Kugilldi að Thorsteijne: Gallta, Tioru tunna. ccc að Socka [1]Ivarʒsyne. Að Biorgu ä Suertingstoðum c. Þetta I sauðum. Ær og veturgamall giellding ur, iij. fiorðungar smiors vax iij. fiorðungar, og v. merkur meður Reykelsi. Messuklæði [2]flegur, ein hwitn af pelle, og þar hokull með. Onnur fle minne. ii. hoklar vmmframm af sylke, Enn annar hrijng ofinn. Messu stackar ij. Alltarisblæjur vij. obunar. Ein buenn með pelle. Corporalia ij. kantara käpur iiij. Ein af pelli enn iij. af sæi. Alltaris klæði fimm og eru ij af pelli. Tuenn Bakstur Jarn, sloppar iij. fontur og fontklæði, krakar ij. Broddstafar ij. päll, sleggia, Reka, kistur iiij. munnlaugar ij. Elldbere. lyka kullt, ij. Brijkar klæði, Alltaris steinn laus. kiertistykur ij af messing. Jarnstykur iii. kaleikar ii. marjuskripter ij. Olafs lykneske, ii smellter krossar og þriðie obuinn. skrijn ij. kyrkiu sär. tiolld vmm alla kyrkiu. og saunghus, ii Biorar, Brijkar tiolld ii. Biarnfell, aspiciens Bok meður Uymnum, frä Trinitatis uiku, til Aðventum að Dominicum de sanctis allt, og so suffragium. Messu Bök de sanctis allt, og [3]vppfrä vppstigningar deigi að Dominicum thil Adventum. Lagasaungva kuer. Seqventiu Bök. psalltare, gradall, Capitularium, messu Bök aunnur og taka Bäðar samann per anni circulum. Aspiciens Bök við hina fyrre per anni circulum, Baðer sampt, Olafʒ saga, saung Bok thil paska, og pentuð[4] lesbok de sanctis, capitularium et Hymnarius a Einnre Bok fornt

1) B „Junars syne“.

2) B fern. Í A hefir og fyrst verið ritað eitthvað annað en „flegur“ líklega líka „fern“, en er þar leiðrétt í „flegur“.

3) B fra.

4) B bætir inní „pentuð“ og hefir því líklega verið slept í A af ógáti, því það stendur þar eigi.

og saungur proprium de sanctis. frä Jons messu thil Jola fostu, thil päska að Dominicum, Aspiciens bok forn. frä päskum til huijta daga, með ollum Hymnum, lesbok frä Jola fostu til paska. Homiliur a sumarið, lesbok allt sumarið thil Jolafostu að Dominicum. Kristinn Riettur. Messu bök vond, seqventiu Bök forn, Artijða skrä, stolar ij, lectarar ij, Stijgar ij, [1]dukar yfir ij. skriptum. Sallt karl, vatʒbolli, kluckur v. og ein brotinn vmmframm. Glergluggar iij. forn Bók J selskinne, J triespiolldum Bok, og saungur ä. Messubok forn mykil J selskinne [2]rotnu. Artijðaskra forn.

### *Þaungla Backa Kyrkia.*

Sa er maldagi a þaungla backa kyrkiu, hun ä allt heimaland, og ij hluti J Rekum. Sueijtar menn skulu leggia thil Tijund af flutningum og af hualskurð, og ollu þui fangi er þeir hliota af dauðum huolum milli Siglu-ness vesturs, og austur Tiorness, og allʒ þar J milli. Bæði a meiginnlandi, og J wt Eyum, J Kiefla vijk half tijund af Rekhual, Enn oll af flutningum. Af rekum Ogmundar Sueynssonar, þeim sem eru milli Reininess og Senuingar vykur, vætt spiks af Tuijtugum hual [3]og meira. Af Rekhuolum þorðar vr Laufæse. I hinu sama Takmarki, wætt spiks af øllum huolum. Enn ij vætter af reka Orms Øgmundar sonar J [4]þuisu Takmarki aunnur spiks. Enn aunnur Reingi, Af Hools landi vætt. Af [fi]arðar Botʒ landi vætt. Af Kaðalstaða

---

1) Dukar yfir ij, stendur ekki í B, en hefir með annari hendi seinna verið bætt inn í út á röndinni.

2) Í B hefir fyrst staðið: „rotinn" en er þar breytt í „rotnu".

3) B hefir haft „eðar" en er breytt í „og".

4) Í B hefir fyrst verið ritað „þessu", en síðan breytt til „þuisa".

landi vætt. Tijund og matgiafer [v]r allri sveyt, fyrir þa menn alla er thil logföstu eru skillder, og [e]ru xii maðuði, Eður frä fardogum til vetrar. Þar skal Giallda [ij] fiorðunga skreijðar fyrer þria menn, Enn halfann fiorðung ef maður [e]r a sumarið thil seliu manna messu, Eður frä vetur nottum thil fardaga fyrir froua menn. Golldner skulu vera fijska tollar að Marteins messv. Ef maður Er leingur Enn thil seliu manna messo, Enn Golldið maður maður fare burt ellegar. Eindagi ä hinn fimta dak vijku, er iiij vikur Eru af sumre, xij. alner fyrer hinn minna fiskatoll, Enn half mork fyrer hinn meyra. Vondul af sex sätum heys huorjum [1]of alla sueyt. Su er af vinna, meður þessum thillogum, að prestur skal vera að heimilis hwse, og syngia allar heimilis tijder, og huorn dag helgann, og fostu tijder að meinalausu, og skal prestur skylldur J allar nauðsyniar, wmm Guðz þionustu. Sa maður er kyrkiufie varðueijter skal gefa þurfa monnum hinn Tijunda hlut, af hual tijund. Enn ef þetta fie vinst ei thil prestskylldar, þä skal sä viðbæta er land ä, so að vinnist thil, og eigi þuerrj kyrkiu fie. Kyrkia er helguð meður Guði Petro og Andrea postolum, Oläfe og Magnuse og Nicholao og heyter Oläfz Kyrkia. Ef kyrkia Brennur, eður lestist so að ei ma tijðer J veijta. Þä skal eigi skylld prestvist hin næstu missere og skal aunguo þuerra, kyrckiu fie fyrer uppreist annarar kyrkiu. Halldast skulu thillogur allar, og kyrkiu fie, þott prestur misse kaups. Af Brecku landi og Eyrar landi vætt. Eiulfur

1) Í B hefir fyrst verið ritað „vm", en er þar breytt í „of". Stafir þeir, sem eru innan merkjanna [ ], eru teknir úr B; í A sjást þeir eigi, því þar geingur lappi, sem hefir verið límdur með kjölnum yfir þá.

Helgason Gaf thil kyrkiu, hual tijund af Rekum þeim, er hann a meður Backa landi og kom þeim þa eij J hug, er byskup liét Rita þennann maldaga. Þetta a Kyrkiann J skruða, ij. messu klæði og að auk messu serkur, og ij. höfuðlyn, kaleykur, alltarisklæði iij. krossar iij. Olafʒ lykneski ij. fontur og fontklæði, messufata kista, munnlaug, Ein Jarnstika, kantara käpa, Broddstafur. I Bokum, messu bok, tekur thil að Jolafosto, og thil Paska að Dominicum. Ønnur messu Bok a veturinn. Lesbok að Dominicum per Anni circulum. ix skrär vondar og Olafʒ saga, Mariu saga, Kyrkiu kola, kluckur ij og ij litlar. iiij merkur vax. I kuikfie, iii. kýr, xviii. ær, cc voru, iii ær. Olafʒ lykneski. In summa kugilldi kyrckiunnar ä Þongla Backa viij. halft annað hundrað J Busgognum, hundrað voru, [1]Ecclesia non dedicata.

*Grytubacka Kyrkia.*

Þesse er kyrkiu Eign ä Grytu Backa. Að hun ä þriðjung J heimalandi, og þui sem thil liggur J Rekum. Þetta J Skruða, Tiolld vmm kyrkiu. Messuklæði ein. alltaris klæði iiij. Oläfʒ lykneski, Thorlaks lykneski. Elldbere, Gloðarkier, Munnlaug, Messuklæða kista, Marju lykneki, [2]og kross sæmilegur. vi kyr. xii ær. kugilldi J gielldfie, hross og v. hundruð voru. Jarnstikur ij. litlar, og aðrar tuær meyre. Messu Bök per anni circulum, og spalltari og eij að skipuðu, ønnur messu bok að Dominicum a sumarið. Þriðia messubok tekur thil að

1) þessu er sleppt bæði í A og B, en hefir síðan í báðum verið bætt inn í út á röndinni.

2) „og kross sæmilegur“ vantar í B, en er þar bætt inn í út á röndinni.

Jolafóstu og framann thil páska að Dominicum. Capitularium, lesbok, Tekur thil að päskum og thil hvitadaga. Þriðia lesbok tekur thil að Jolafostu [1]og thil Dominicum, og thil langafostu, En síðan allt vt þaðann. kantarakapa. Ottusongs sloppur, kyrkiu kola, merki eitt, lyka kräkur, lyka abreyðsl, Seqventiu Bök per usum, per usum gradall, kyrkiu kietill, Broddstafur. Langafostutialld. Grallare, kaleykur sæmilegur, iiij. kluckur, lytil klucka, Brykar klæði ij. Alltaris Blæjur tuær, Stephanus saga, x merkur vax. xv vætta afreiðsla, vt fra Sandz borne til Senningar vijkur. Þar er prestz skylld, og tekur heima J leigu iiij. merkur. Enn vtanngarðz halft annað hundrað. Lysis tollur og heytollur af xvii Bæium. Tijund uno anno, halft annað hundrað, (Tekur vii vetur og xx og in:) x hundruð J forkyrkiu smijði, [Tveymur nättum fyrer Lafrans messu, kyrkiu messu dag]. Þetta luckti Þorsteinn Eyulfsson J Testamentum foður sijns og moður, messuklæði sæmeleg, og ønnur forn, Brijk sæmelega. Alltaris klæði. Bakstur Jarn. Bök de Sanctis, Matutinale frä Jons messu Baptistæ, og vt yfer Andries messu. ij. kugilldi Bufiar Gilld með þeirre Greijðslu, að þar af leigu Burðinum skalu gefast iij. fiorðungar smiors ärlega, og syngia sälu messu æfinnlega ártijðar dag hans.

*Hofða Kyrkia.*

Kyrkia J Hofða er Helguð Ambrosio og Nicholao, hun ä [3]heimaland. Þessi hialond, Kolsgierði, Sund-

---

1) B „að Dominicum".

[ ] þetta vantar í „B", en hefir þar verið skrifað út á röndinni seinna með annari hendi.

3) I A stendur út á röndinni „halft".

brecka, Tundrastaðer, þuerarland, Skögar, fleka halfann J Nioskadal, þetta ä allt Hofðaland J Rekum. fiórðung J hualreka, og halfann attung J ollum Lortra Reka, og flutningar, frä Skriðulæk til forsœr, halfann viðreka. frä Swlum til Torfdælar lækiar, ä valla staður fiorðung J hualreka, Enn halft Grundarmenn, og Hofðamennn. [Enn við reka J þessu takmarki halfann huorer Grundarmenn og Hofðamenn]. frä Rekamarki ä Þorgeijrs fiarðarhofða, ä Hofði hälfann hualreka thil Kerlingar. frä Kierlingu Jnn thil oss. a Hofði fiorðung J hualreka, enn halfann ef fluttur er. J þessu Takmarki við Þönglabacka menn. Jnn til oss ä Hofði halfann viðreka, og so öll aunnur fiorugogn, nema hual reka, þä a Hofði halft, fra Swlum og thil Gallta, ä Kyrkiann ein við sig, halfann viðreka og hualreka, halfann [2]Reka ä Sueris velli, En þriðjung ä þernu skieri ä Kyrkia Ein: Þetta ä hun Kuikfie. kyr v. iij. asauðar kugilldj, Búfiär gillt kugilldi, half v. hundrað J lagaurum. J skruða, Messuklæði ij. yfirsloppur, Alltaris klæði iij. fontur meður Bunaði, iii handklæði, kaleykur, messingar stijkur ij. Jarnstijkur iiij. litlar. Tiolld vmm alla kyrkiu, krossar ij, og lykneski iiij vnder, og hið fimta lytið, Mariu skript. Nicbulas lykneski, merki ij. klunckur iij. Ambrosius lykneski, Munnlaug, Hiälmur af Jarne, Gloðarkier, Elldbere. J Bokum, Aspiciens, Bækur vondar iij. að Dominicum, og meður Suffragium, og de Sanctis. Frä Jons messu Baptistæ, og framm vmm Andresmessu,

---

[ ] vantar í B, en er þar bætt við út á röndinni með annarri hendi.

2) í B hefir fyrst staðið „viðreka“, en síðar hefir því þar verið breytt í „reka“.

Daviðȝ psalltari, Sógu Bok forn, og ä [1]margar sogur, Ärtyða skrä, Sylki pwngur, og þionustu Buðkur, Lyka Abreyðsl, Lykakräkur. Kyrkiann ä enn þessar Bækur. Sanctorum Bök með lesi og saung, eigi Epter skipun. Messu Bök að Dominicum frä Huijtasunnu og thil Jolafóstu, iij[a] tekur til að nyuvikna fostu og til Päska. Eyrer fätt J [iij] mørkum vax. Dedicalio Ecclesiæ in festo Laurentii. Tekur prestur heyma J leigu cc. Heytollur og lysistollur af ii Bæium. Tijund tali anno xiiij. aurar. Hokull Rauður er kom J möt krosse, og v. alner liereptȝ. Guðmundur Bondi Tök sijðann vr nese iij. ær, iij tuævetra. Giellðinga, kuijgu vetur gamla, og xx alner Liett hafnar voð.

*Laufaas Kyrkia.*

Í Laufaase er Peturȝ kyrkia. Hwn ä heimaland allt, og Lömatiorn, Þorsteinsstaði, Smälond oll, vpp thil Gäsa gilȝ, og thil [3]Grafar ofann [til] Siks hia Neslandi, Land ä kursueynstoðum. meður Riettum Endemorkum. Selfor ä Fläteyardalȝ heijði, iiij. kum, og so margar ær [og] Geytur, sem sä vill er a stað Byr, vmm vi vikur og so afriett, [er] Laufaas hage heyter, þar liggur thil Reki ä Huallätrum fiorð[ungur] J fimm hlutum. A Eyrar stuf J Hualvatȝfirði [4]þriðiungur allȝ hua[lre]ka, og flutningar. J kieflavijk. x vætta afreiðsla, af tuijtugum h[ual] eður meyra. c vætta eður meyra. so mykil afreijðsla er og ä þo[ng]la Bakka. Af þessum Bæjum liggur hijngað tij-

1) Í B hefir verið ritað fyrst „Margrietar saga, en hefir seinna verið breytt þar í „margar sogur".

Það, er stendur innan merkjanna [ ], er tekið eptir B; í A sést eigi talan, því brèflappi hefir verið límdur yfir hana.

3) B „Grefar".

4) B þriðjung.

und til vr Gielldíng[a]vijkum ij[1] vi. Fagra Bæ. af Gnoll. af þorsteinsstoðum, af Skúg[ga]biorgum. fra Skarði. af Grund, af Loma tiorn. Ef Tijund af þe[ssu]m Bæjum er ecki ij. hundruð, þä skal sä er ä stað Byr, Tak[a] af Grytubacka þijngum, þar sem hann vill vtann heyma þar so myk[ið] að [2]fullne cc. Þetta ä kyrkjann I skruða og Innann kyrkiu, Messuklæði vii. að aullu, kapur ij. aunnur af pelle, alltaris klæði v. Tiolld vmm alla kyrkiu, Brijkarklæði ij. krossar iij. [og yfir framm hokull, Alltaris klæði, käpa, og Brykar klæði meður Baldur skinn, tuær storar krok stykur Er Biarne gaf][3], Marju skript, Peturʒ lykneski, kaleykar iij. skrijn, Glergluggar ij. Jarnstykur v. litlar, og i. mykil, Gloðarkier ij. Elldbere. sloppar iij. Jyka abreyðsl. J Bökum Graðall sæmelegur, seqventiu Bök, Goðar messu Bækur ij. per Anni Circulum, meður collectum, og aunnur með saung, messu Bök tekur thil að Påskum, og thil Jola fostu. Messu Bok Ensk, tekur thil að Jolum og framm vmm Päska, þä er Bok tekur thil að Jola fostu að Dominicum og thil päska. Lesbækur ij. per Anni Circulum, hin iij. tekur til að päskum, og framm vmm huijta daga. Messubok tekur til að Jola fostu og framm vmm Geisladaga. Aspiciens Bok De Sanctis, tekur til að krossmessu að haustið og thil Jola að saung og lese, viii fornar Bækur vondar. kyrkiu kietill, kyrkiu saar, fontur

1) Í B stendur hèr „vr“.

[ ] það, er hèr stendur milli þessara merkja, er tekið úr B, því það verður eigi lesið í A, hvað þar hefir staðið, vegna lappa, er þar hefir verið límdur með kjölnum.

2) B fylle, en þetta hefir verið dregið út, og ritað fyrir ofan „fulne“.

3) [ ] þetta hefir verið dregið út í B, en á röndinni er með annari hendi ritað: „þetta skal standa“.

og fonnt klæði, sógu Bök og ä margar heilagra manna sogur, Bakstur Jarn, kräkur, Broddstafur, Artijðaskrä. Þetta J kuikfie. kyr xii, vi asauðar kugilldi, ıı gymbrar kugilldi, x sauðer veturgamler. iij naut veturgomul, giellдfiar kugilldi, Bufiar kugilldi, Ross iij, Jnnan veggia, viii hundruð J virðingar fie, Þar er ııª presta skylld og diakns, Lysistollur og heytollur af ıx Bæjum. Kluckur iiij. Dedicatio Ecclesiæ, ııı. nottum fyrir Marju messu syðare. Þetta hefur sijra Eirykur thil kirkiunnar lagt Balldur skinns käpu, og [1]hokull með sama kosti. Duk sprangaðann, Alltaris Blæjur ij og hofuðlijn. Alltaris klæðí, og Brijkar klæði meður Balldurskinn. Tabula og Brijk með sama kosti, Messijngar stykur ii. krossar iiij. steinspialld.

*Sualbarðs Kirkia*

Kyrckia að Sualbarði Er helguð Jone postula. Þetta ä hun Jnnann kyrkiu. Messu klæði iiij, Alltaris klæði iij. yfirsloppur, kantara kapa, kaleykar ij. Tiolld vmm alla kyrkiu, Abreiðsl, kysta olæst, munnlaug, Gloðarkier, Elldbere, krossar iij. Jons lykneski, kluckur v. kyrkiu läs, Jarnstykur iij, kistill, kyrkiu kola, þionustu Buðkur — J Bökum. Messubok per anni circulum að Dominicum. lesBök Tekur thil að Jolafostu thil päska; Aspiciens Bok frä Jola fostu og framm yfer Jol, Aunnur frä päskum og thil huijta sunnu, Lesbok De sanctis a summarið, fornar ii. Bækur vondar, merki ij, ij Biarnfell, glergluggur i. psalltare forn, Artijða skrä, fontur og vmmbunaður með. Mariu skript, Glergluggur Goður, annar vondur. Þar er prestskylld[2], Tekur hann heima

1) B hokul.
2) Út á röndinni í A, er bætt inn í „í landi“.

J leigu iiij. merkur, half fimtu mork vtann garðz. Af ix Bæium heytollur og lysistollur. Tijund halft fiorða hundrað, v. kugilldi og v. hundruð voru. hokull cco með balldur skinn, psalltari Göður og Jons saga og fiortan körbækur, Brijk, paxspialld og stykur iij. kista læst, kantara kapa, laga saungua kuer sæmelegtt.

*Kaupangs Kirkia.*

Kyrkia J Kaupangi ä Messu klæðe ij. yferslopp Alltaris klæði v. Tiolld vmm alla kyrkiu, sotdriptt og handklæði, kaleyk ı, krossar iij, Marju skript, michials lykneski, Oläfz lykneski, klockur iij, Munnlaug, kyrkiu kola, Glöðarkier, Elldbere. x. merkur vax og Reykelsis Graðall. J kuikfie. kyr ı. gielldfiär kugilldi. Þar er prest skylld J landi, Tekur hann heima J leigu iiij. Merkur, vtann garðz hälfa fiorðu Mork. Af xiiij Bæjum, lysis tollur og heytollur. Tijund tali anno, half fimta Mork.

*Moðruualler J Eyiafyrðe.*

Kyrkia ä Móðruvollum J Eyiafyrði, Er helguð hinum Heilaga Martino, hun ä þriðjung J heijmalandi. J skogum so mykið sem þarf til husa vmmbota. Jnnann kyrkiu Messuklæði v. käpur iij. yfirsloppar iiij. Alltarisklæði vi, messubækur ij. Lesbækur iiij, saungbækur iii. Gradualia ij. Capitularium, Hymnarius, processionall, Martyrologium. Tiolld vmm alla kyrkiu, krossar v, Lykneskiur iiij. Texti i, Skryne, Tabulæ ij, kaleykar iij. dalmadykur iij, Gloðarkier ij. Elldbere, kistur ij, stolar v, stykur v, kluckur vii, Biarnfelle, fontur, Glergluggar iii, läs, kietill, Bakstur Jarn, propitiatoria ij, Marju skript, lesbok de Sanctis. Þar skulu vara ii prestar og diakn. Tekur prestur heijma J leigu iiii merkur, Enn

vtann [1]Garðs, half sioundu mork. Þar skal syngia huorn dag Messu, og huorn friadag Rumhelgann ii. Messur. Burtsaungur thil Guðrunarstaða [og] Finnastaða, Kierahols, Eijuindastaða og thil Æsustaða. Groftur og sälugiafer vr Oxnafelle og allt fyrir austann Eyiafiarðarä og allt þaðann vpp sem Bygt er. Af xii Bæjum ljostollur og heytollur. Tijund tali anno. þriu hundruð er Sigurður Seltiorn gaf [2]J Testamentum sitt. Eyrikur Bonde lagði með Lopte syne sijnum — ii dukar Glitaðer, Biarnfell Nytt, Brijkur ij, merki ij. pax spialld.

---

## VI.

*Um þriðjúngamót í Rángárþingi o. s. fr.* (Framhald).

—

Margt mælir með því, að milli Ytri-Rángár og Þjórsár hafi verið sèrstakt umdæmi. Það er afmarkað svæði, er sín áin rennur niður með því hvoru megin frá fjalli til fjöru. Innbúarnir hafa lengstum átt litlu meira saman að sælda við nágranna sína fyrir austan Rángá, en hina fyrir austan Þjórsá; en í því nánara sambandi hafa þeir staðið hver við annan innbyrðis, það leiðir af ásigkomulagi hèraðsins. Enda hafa flestar landnámsættir á þessu svæði verið venslaðir hver við aðra. En þó ekk-

---

1) B: garð. — [ ] þetta orð vantar í B.

2) hèr er bætt inn í út á röndinni í A „og hestur er þorgils af Guðrunarstöðum gaf". I B er öll þessi klausa þannig: „Tijund tali o s. frv. — testamentum sitt, og hestur er þorgils af Guðrunarstoðum gaf I Testamentum sitt"; svo heflt aptur verið dregið undir í B orðin „I Testamentum sitt" á fyrra staðnum.

Digitized by Google

ert væri annað, þá er *þíngstaðurinn* nógur til að taka af tvímælin. Hann er svo glöggur og svo fornlegur, að slíkum þegjanda votti verður ekki hrundið. Eða hvernig getur staðið á honum, ef hann er ekki *haustþíngstaður Rángvellínga?* — svo kölluðust til forna Land- og Holta-menn, eða innbúarnir fyrir utan Ytri-Rángá, til aðgreiníngar frá *Rángæíngum,* eða innbúunum fyrir austan hana, sem nú kallast *Rángvellíngar.* — Þó þess væri til getið, að vorþíngið hafi í fyrstu verið haldið þar, þá er það ólíklegt; bæði var það að þeir, sem voru *mestir* höfðíngjar, settu optast vorþíngið í sínu umdæmi, en Hofsverjar og Mörður gýgja voru mestir höfðíngjar í Rángárþíngi, enda eru búðarústir hjá þíngholti of fáar, til þess þar væri vorþíngstaður. Þær eru æðimiklu fleiri á Þíngskálum, og sjást þó ekki allar nú. Eða þó menn segði að goðinn mundi hafa gjört það þíngmönnum sínum til hægðarauka, að halda þíngið á tveim stöðum, þá vill svo til, að það er hèr um bil *jafnhægt* fyrir innbúana utan Rángár, að öllu samanlögðu, að sækja þíng að Þíngskálum og að Þíngholti, nema hvað áin er á milli, þegar til Þíngskála skal ríða, og er hún ekki svo mikið vatn, að menn mundu taka upp tvo þíngstaði fyrir þær sakir. Þannig verður niðurstaðan: að vestasti þriðjúngur Rángárþíngs hefir verið milli Ytri-Rángár og Þjórsár, eins og fyrr var gizkað á. Að vísu vita menn ekki fyrir víst, hvar höfuðhof hefir staðið í þessum þriðjungi. Þó eru líkur til að það hafi staðið á Skrokkhól, það er allmikill hóll á heiðinni skammt fyrir vestan Lúnansholt gilda bæjarleið í suðaustur frá Þíngholti. Kríngum hann vottar fyrir girðíngu, og á honum er tópt allmikil, og snýr nálægt frá norðri til suðurs. Það eru munnmæli, að jafnvel til skamms tíma

hafi menn trúað því, að «einhver forneskja» væri á hólnum, eða fylgdi honum, mun hann hafa verið helgur í fornum sið. (Nafnið »Skrokkhóll» er sagt að svo sè undir komið, að einn óaldarvetur hafi 18 — heldur en 30 — hrossskrokkar staðið undir honum gegnfrosnir). Þeir mágar Ketill einhendi og Þorgils í Lúnansholti munu hafa tekið hèr upp goðorð, hefir Ketill verið einna göfgastur landnámsmaður á þessu svæði, og flestar landnámsættir þar hafa teingst við ætt hans. Ekki er hægt að segja hverrar ættar Ketill hefir verið. Þess er tilgetanda, að hann hafi talið ætt sína til Hrafnistumanna, og þess vegna helzt hallað sèr þar að, sem Ketill hængur var fyrir, og hann hafi síðan gefið nafna sínum landnám sitt allt fyrir utan Rángá til móts við Herjólf, en þeir Þorgils síðan skipt því milli sín, því þeir munu hafa komið út undir eins. Hvílíkur maður Ketill einhendi hefir verið, má ráða af því, að afkvæmi hans mægðist við stórmenni. Eilífur son hans fèkk Haldóru Steinmóðardóttur af Ølvisætt, sem var meðal ágætustu landnámsætta. Þórdís hin mikla, dótturdóttir Ketils, átti Flosa Þorbjarnarson hersborinn mann, og fleira má telja ef lengra er rakið. Það kemur nú raunar nokkuð undarlega fyrir, að *dótturdóttir* Ketils skyldi eiga Flosa, sem í fljótu áliti sýnist vera jafnhliða Íngólfi (Flosi var mágur Orms, mágs Íngólfs), en að sonur hans skyldi eiga bróðurdóttur Aldísar hinnar burreisku, sem valla mun fædd löngu fyrir 890. Þó getur þetta staðizt, og er þá ekki ástæða til að rengja söguna. Ketill einhendi hefir hlotið að vera tvígiptur, og þarf hann ekki að vera fæddur fyrir 835 til þess Þórunn auðga geti verið fædd fyrir 860, en Þórdís hin mikla nálægt 880, verður hún þá á rek við Þuríði Þorbjarnardóttur, eptir því sem ætlað

er á aldur hennar hèr að framan, enda eru jafnmargir liðir niður frá þeim til Sæmundar fróða og Guðrúnar konu hans. Er því Flosi jafnaldri Jörundar góða, en ekki Íngólfs, mun lítill aldursmunur þeirra Flosa og Þuríðar, en Oddný hefir verið miklu eldri og naumast sammæðra, því þó Loptur hafi ekki komið út fyrr enn um 900, og þá ekki verið eldri enn 12—14 vetra gamall, þá getur Oddný naumast verið fædd löngu eptir 860. Er líklegt að þeir frændur Loptur og Flosi hafi komið út saman, líklega með Hásteini Atlasyni, eða í flóði hans, þeir voru allir af Gaulum og því án eaf skyldir. Sýnist og svo sem Flosi hafi kvænst áður hann kom út, því ekki er þess getið að foreldrar Þórdísar færi til Íslands. Um landnám Flosa virðast vera missagnir í Landnámu. Þar segir fyrst: »hann nam land fyrir austan Rángá, alla Rángárvöllu ena eystri». Þó segir að hann byggi »á Skarfanesi», en það er út við Þjórsá. Aptur segir að Flosi »átti öll lönd milli Þjórsár og Eyngár» »Eyngá» er ekki til. Enn segir að Þorsteinn tjaldstæðíngur nam land »með ráði Flosa». Landnám Þorsteins er nú að mestu leyti horfið undir Hekluhraun, það er fyrir ofan bygð á Rángárvöllum (enum eystri). Mun því meiníngin vera sú: að Flosi nam *Rángárvöllu alla hið efra milli Þjórsár* og *Eystri-Rángár*. Það er hið efsta af landnámi beggja þeirra Katlanna. Er ei ólíklegt að misritast hafi: *Eyngár* fyrir *Eystri-Rángár*. Hver skal þess getið að Valla-Brandur, sem átti dótturdóttur Flosa, mun ekki vera dótturson Ófeigs grettis, því dætur Ófeigs eru fæddar fyrir vestan haf, en Brandur er jafnliða sonum Úlfs örgoða. Áskell son Orms hins auðga, fèlaga Ófeigs, hefir átt Aldísi Ófeigsdóttur, og hefir faðir Brands verið þeirra son, en ekki sjálfur

hann. Er og auðsèð á Landnámu (Kmh. 1822. bls. 230. 5. P.) að söguritarinn hefir ekki vitað hvað son Áskels hèt, sá er »reysti fyrst bæ á Völlum». En þegar hann ritaði »*móðir* Valla Brands» mundi hann hafa viljað rita: *föður móðir,* en sèst yfir það og því hafa seinni afskrifarar bætt nafninu: »Brandur» inn í, á undan »hans son» á áður nefndum stað (sbr. sömu bls. neðanmáls).

Þá er að reyna hvernig tekst að koma þeim saman Eilífi og Haldóru. Það er auðsèð að þeir Ketill einhendi eru einna fyrstir landnámsmenn á Rángárvöllum, eptir Ketil hæng, því aðrir námu síðan land »með ráði Ketils einhenda». Munu þeir mágar hafa komið út kringum 890, hefir Ketill þá verið á sextugs aldri, og fyrir nokkru giptur seinni konu sinni Ásleifu Þorgilsdóttur. Hefir Þorgils þá verið roskinn en Þorsteinn háaldraður (máske kenníngarnafn hans bendi til þess að hann yrði ellmóður: lúnan = lúnaður = lúinn? nema »lúnan» sè írskt nafn, og hafi þeir komið vestan um haf, sem vel getur verið). Hafi Þorsteinn þá verið nær áttræðu, en Þorgils fimtugur, gæti Ásleif hafa verið á þrítugsaldri. Lèti nærri að Eilífur væri fæddur skömmu fyrir 890 kemur það vel heim við aldur Hjalta Skeggjasonar, er var þriðji maður frá Eilíf (Eilífur, Þorgeir, Skeggi, Hjalti), kæmi þá sem næst 26 vetur á lið. Það er nú ekki hægt að gizka nákvæmlega á aldur Konáls. Eptir því sem ætlað er á aldur Ketils einhenda hèr að framan, er hann á rek við Ófeig gretti, og kemur það vel heim við hitt að bræðrungar þeirra, Ketill örriði og Óleifur breiður eru jafnliða, upp eptir frá Bjarna spaka, því mætti ætla að Konáll væri á líku reki, þó getur hann verið töluvert yngri; samt er líkara að Aldís sè seinni konu barn

hans, og þá gæti Steinmóður verið fyrri konu barn, og svo miklu eldri, að Haldóra dóttir hans væri á rek við Aldísi föðursystur sína. En þess þarf óumflýanlega við; þau Steinmóður og Aldís geta verið alsystkin, þó hann sè töluvert eldri, og Haldóra þarf ekki að vera fædd fyrr en um 900, hafi hún gipzt Eilífi úng, og þeir Þorgeir og Skeggi kvongast rúmlega tvítugir. Hèr er því ekki um svo tæpt að tefla.

Hafi nú þeir mágar Ketill og Þorgils reyst hof og tekið upp goðorð, sem víst má telja, þá er ekki annað líkara, en að þeir langfeðgar hafi haft það hvor fram af öðrum, þó það verði nú ekki sannað, því engin er sagan. Hèr hefir líklega engin saga gjörst, innbúar hafa verið friðsamir, og höfðingjar kyrrlátir og lítið borið á þeim. Ef það yrði sannað að þeir Mörður gýgja og Hrafn Hængsson hafi nokkurn tíma farið með sitt goðorð hvor á alþíngi, þá er það sjálfsagt að Rángvellínga- (ytri Rángárvalla-) goðinn hefir hlotið að leggja saman við annan hvorn þeirra til alþíngis. En þó svo hafi verið, sem ekki er vert að fortaka, þá hefir það hlotið að vera einskonar undantekning, og varað að eins um lítið tímabil. Og hvað sem þessu líður, þá má með nokkurnveginn fullri vissu ráða það af Njálu, að Hjalti Skeggjason hafði Rangvellínga goðorð á sinni tíð. Að vísu er búð Hjalta á alþíngi sýnd meðal norðlendíngabúða, og getur nú verið að hann hafi skipað aðra búð en formenn hans, sem án efa hafa skipað Rángvellíngabúð (ekki Rángæíngabúð), en það getur eins vel verið missögn, það getur t. a. m. verið Hjaltdælabúð, sem Hjalta er eignuð. Samt er auðsèð að menn hafa haft það hugfast að Hjalti hafi haft búð til forráða á alþíngi, og þá líka farið með goðorð, enda er hann í Kristni-

sögu talinn með mestu höfðíngjum. Hann hefir nú ef til vill fengið með konu sinni hlut í Mosfellíngagoðorði, þó er það óvíst, en hvort sem var höfðu þeir Gissur hvíti og Geir goði goðorðið í það mund, sem samgoðar. Og þó Hjalti væri af ætt Ölvis barnakarls, þá er óvíst hann hafi átt hlut í goðorði Hreppa- og Skeiða-manna, að minsta kosti má sá hluti hafa verið mjög lítill, því ef mannaforræði ættarinnar hefir annars verið skipt, þá hefir það mátt berast mjög í sundur; og hvort sem var, hefir Ásgrímur Elliðagrímsson haft goðorð á hendi í þann tíma, og Bjarni spaki að líkindum með honum sem samgoði hans. Ásgrímur er í Kristnisögu talinn með mestu höfðíngjum, jafnframt þeim Gissuri hvíta og Hjalta, *þeir hafa því án efa haft sitt goðorð hvor.* Þess eru naumast dæmi að samgoðar fleiri en einn, hafi verið taldir *mestir höfðíngjar* undir eins, þannig er sleppt Geir goða, Bjarna spaka og Þorgils orrabeinsfóstra, eins og Hrafni Hængssyni áður, enda er fremur vantalið en oftalið í höfðíngjatölum. Nú hefir Ásgrímur því haft goðorð þeirra Ölvis afkomenda, frænda sinna, (Hreppa- og Skeiða-goðorð), því Gissur hafði Mosfellíngagoðorð, og það er ljóst að Þóroddur goði hafði í það mund Ölvusmannagoðorð. Það er því nokkurn veginn sèð, að ekki er um annað goðorð að gjöra, sem Hjalti geti hafa haft, en Rángvellínga goðorð. En af því hann bjó þar ekki, hafa menn almennt[1] ekki hugsað út í þetta, fyrst þess er hvergi getið beinlínis, má þó kalla að þess sè óbeinlínis getið í Njálu, svo ef Hjalti hefði búið fyrir austan Þjórsá, mundi engum hafa dottið annað í hug, en að hann hafi

1) Þetta eru þó jafnvel munnmæli í Rángarvallasýslu. Páll alþíngismaður í Árkvörn hefir að minnsta kosti þekkt þessa hugmynd.

verið þar hèraðshöfðíngi, eptir því sem hann kemur fram í Njálu. Þegar Hjalti kom því til leiðar að Gunnar tók sættum við þá Starkað, eptir víg Hjartar (Njálss. LIV k.), þá tók hann svo til orða: »Ekki hefi ek enn hlutast til málaferla yðvarra« — eins og honum hefði þó staðið það til, en höfðíngjar voru þó ekki vanir að »hlutast til« mála með *óviðkomandi mönnum óbeðnir* ef þíngfrið var ekki raskað. Það voru ekki Mosfellíngar, sem máli áttu að skipta við Gunnar í það sinn — enda er líkara að hann hafi ekki gipzt Vilborgu fyr en eptir þetta — því gat ekki legið í orðum hans: að líklegt mætti þykja hann veitti tengdamönnum sínum. En eðlilegt mátti þykja að hann, sem hèraðshöfðíngi, »hlutaðist til« mála með innanhèraðsmönnum þó þeir væri ekki þíngmenn hans sjálfs, það gat honum staðið til, óbeinlínis. Hitt er þó sterkari sönnun, að eptir brennuna þótti Kára það ekki nóg, þó Mörður »safnaði liði«, það hefði þó verið ærið, ef Mörður hefði átt allt mannaforráð út að Þjórsá. En Kári »reið í Þjórsárdal, til móts við Hjalta» (Njálss. CXXXII kap.), hann «safnaði liði og kveður upp almenníng», því hefir hann haft vald yfir almenníngi. Nú er óhugsendi — þó Hjalti hefði átt svo og svo mikið ríki í Árnessþíngi — að hann hafi þá riðið út um hreppa, því síður lengra, til að safna liði, er svo fljótt þurfti á að halda. Og það því síður sem Krossvað á Þjórsá var við Þjórsárdal sjálfan. Og þó Hjalti hafi kvatt þá nágranna sína, Þjórsdæli, til ferðar með sèr, þá var það ekki «almenníngur». Hann hefir því hlotið að «kveðja upp almenníng» fyrir austan Þjórsá um leið og hann reið austur um. Það virðist annars vera vera lík hugsun, sem kemur fram í því: «að safna liði og ríða eptir

brennumönnum«, eins og kom fram hjá Borgfirðíngum eptir víg Þorsteins Gíslasonar, nl. að það væri sameiginleg nauðsyn allra hèraðsmanna, fyrst höfðíngja, og svo alls almenníngs, að láta engum líðast það að ósekju, að heimsækja nokkurn hèraðsbúa með ófriði.

Fallist maður á þessa ætfun, að Hjalti Skeggjason hafi haft goðorð og mannaforráð á Rángárvöllum (ytri), þá virðist manni eðlilegt, að Hjalti gæti búist við því, að Gunnar mundi vilja töluvert «gjöra fyrir sín orð og vináttu» (N.s. LXIV kap.). Þá þykir manni það engin furða, þó Gunnari þætti meira undir um hann en marga aðra, að hann «væri ekki á móti honum». Þá getur maður skilið í því, hvers vegna Runólfur goði gjörði sèr svo mikið far um að sækja Hjalta til sektar fyrir goðgá hans (Ól. Tr.s. 217 k.). Þess er þó hvergi getið að þeir væri skyldir. Runólfur hefir verið trúmaður mikill í fornum sið, og því ekki þolað að eiga fyrir samþíngisgoða slíkan trúarníðíng sem honum hefir þótt Hjalti vera. Getur líka verið, að Runólfi hafi þótt nóg um uppgáng Hjalta og vinsældir hans í hèraðinu — þar sem svo lítið hafði borið á forfeðrum hans — og því gjarnan viljað ryðja honum af vegi. Þá fyrst getur maður kallað það viturlega ráðið af Hjalta, að smíða skip heima í Þjórsárdal og fleyta því ofan eptir Rángá. Það hefði verið óviturlegt vogunarspil, ef þingmenn hans hefði ekki verið við hendina, ef á hefði legið. Mörður var raunar teingdur Hjalta, en hann var líka frændi Runólfs, enda jafnan lítið trygð hans að treysta. Að vísu hefir Hjalti hlotið að hafa fjölmenni með sèr, því á ýmsum stöðum hefir hann orðið að draga skipið á landi, en nærri má geta, að það hefir ekki verið sá grúi, að Hjalta væri óhætt, þó Runólfur dragi her að

honum, enda mundi hann hafa gjört það, ef hann hefði ekki vitað, að ef Hjalti þurfti nokkurs við, gat hann óðara haft nógan liðsabla, er þíngmenn hans voru rètt við hliðina á honum.

Um bústað Hjalta ber monnum ekki saman, í sögum er hann ekki nefndur öðruvísi, en að Hjalti hafi búið «í Þjórsárdal». Munnmæli segja á Skeljastöðum (Skeljúngsstöðum?) og mun það satt vera, því þar hefir kirkja verið og sjást töluverð mannabein uppblásin. Gæti verið að föðurmóðir Hjalta hafi átt það land. Aptur segir Jón prestur Egilsson, að Hjalti hafi búið á Núpi, en Núpur er ekki í Þjórsárdal. Þó getur verið að Hjalti hafi átt þar annað bú. Mætti ætla að Steinmóður Konálsson hafi búið undir Núpi, Haldóra síðan erft Núpsland, og það svo fylgt ættinni. Þess hefir raunar verið getið til, að Steinmóður hafi búið á Hofi, og víst má telja að einhver þeirra frænda hafi búið þar og varðveitt hofið, en til þess voru nógir aðrir t. a. m. synir Ófeigs grettis, enda eru þetta allt lausar tilgátur. (En víst er það, að bæði Hof og Núpur hafa byggst snemma. Það sýna þær miklu og fornlegu girðíngar á báðum þeim stöðum, einkum eru þær stórgerðar kríngum Minna-Hof og Minna Núp, enda segja munnmæli að þar hafi bæirnir fyrst verið bygðir, enda stendur Minni-Núpur rètt undir núpinum og hjá Minna-Hofi virðist hofið hafa staðið. Skyldi ekki *Hof* og *Núpur* hafa verið *annar* og *priðji* vetursetustaður Þorbjarnar laxakarls?)

Nú var tekið upp nýtt goðorð í Rángárþíngi. Hinum nýu goðerðum var ekki markað svið í fyrstu, því það var ómögulegt. Hinn nýi goði varð að fá sèr þíngmenn, hvar sem bezt gekk. En það flýtur næstum af sjálfu sèr, að bráðum hafi það orðið ofan á, að ná-

grannasveit hans yrði aðalumdæmi hans. Eptir vinsældum Höskuldar Hvítanesgoða er það næstum vafalaust að hann hafi fengið svo að segja alla Landeyamenn í þíng með sèr, og Fljótshlíðíngar, frændur hans hafa »sagt sig úr þíngi frá Merði og í þíng með Höskuldi«. Hvort sem Hvolhreppsmenn hafa metið meira vinsældir Höskuldar, eða hitt að Mörður bjó nær þeim. Víst má fullyrða að *mestur hluti manna* austan frá Markarfljóti út að Fiská og Eystri-Rángá hafi hnígið undir Höskuld. Aðalumdæmi Marðar hefir þá verið Rángárvellir (eystri) svo ekki er að undra þó hann yrði að færa saman búð sína. Haustþíngstaður hins nýja goðorðs var á Hvítanesi. Það örnefni er nú ekki til. En á einum stað utarlega með Þverá að sunnan verðu er sagt að sjáist fornvirki nokkur, og halda menn það hafi þar verið.

Á vorþíngstað Rángæínga, Þíngskálum, er nú bær byggður. Sá maður er Brynjúlfur hèt flutti þángað byggðina frá Víkíngslæk[1]. Er þar nú tún grætt og rústir útslèttar. Þó vottar enn fyrir fjölda búðatópta til og frá um túnið. Gil er við túnið og stóð »blótsteinn« hjá gilinu, vatn gróf gilsbakkann svo steinninn fèll ofan í, það var skömmu áður en bærinn var byggður. Brynjúlfur tók steininn, og færði í bæarvegg, og er hann þar síðan.

---

Í Árnesþíngi er enginn hægðarleikur að finna þriðjúngaskipti. Vilji maður hugsa sèr þau eptir landslagi, lægi einna næst að það yrði á þá leið: að hinn austasti hlutinn hafi verið milli Þjórsár og Hvítár (Ölvusár), en að Sogið eða Grafníngshálsinn hafi skilið hina vestari. Það sèst nú af Landnámu að Ketilbjörn gamli

1) Það var skömmu eptir aldamótin 1800.

reysti hof að Mosfelli, það var eitt höfuðhof í Árnessþíngi. Afkomendur Ketilbjarnar höfðu goðorð og mannaforráð um Grímsnes og Túngur, hver fram af öðrum. Teitur mun hafa tekið við goðorði eptir föður sinn, hvort sem hann var son Ketilbjarnar eða sonarson hans, Gissurarson, *sem líklegra er*. Eptir Teit hefir Geir goði haft það, meðan Gissur hvíti var í æsku, þar eptir báðir þeir í sameiníngu til þess er Geir andaðist, en síðan Gissur einn.

Sagt er að í Úthlíð, þar sem Geir goði bjó, sè sýnd hoftópt, og bendir það til þess, að hann hafi haft goðorð út af fyrir sig að meira eða minna leyti. Getur verið að hann hafi fengið sinn hluta úr mannaforráði ættarinnar, afskiptan. En í því tilliti sem hèr er helzt um að gjöra, kemur það fyrir sama, því hvernig sem því hefir verið háttað, hafa þeir Gissur og Geir í rauninni verið samgoðar. Þó má gjöra hèr þann athuga: að jafnvel þó það væri bæði löglegt og venjulegt, að *eitt* hof væri í goðorði hverju, hvort sem það var lögfult eða ekki, þá gátu þau ef til vill verið fleiri. Það var altítt að fleiri áttu goðorð saman, en ekki bjó vanalega nema einn á því landi sem hofið stóð. Þegar nú sameigendur goðorðsins voru miklir trúmenn í fornum sið, og þaraðauk stórmenni, þá má næstum telja víst að þeir hafi haft nokkurskonar heimahof á bæ sínum, á líkan hátt og menn höfðu kirkjur á bæum sínum eptir að kristni var komin. Skyldi nú ekki hof þau sem staðið hafa í Úthlíð og Gröf (sjá bls. 42 hèr á eptir) vera þannig undir komin, eða »Goðavöllur» í túninu á Sandlæk í Gnúpverjahreppi, í honum er tópt mikil? Þess er vert að geta að Laxárholt er í Sandlækjar landeign.

Búð Gissurar hvíta eða Mosfellíngabúð er sýnd á

Þíngvöllum, en þar er líka önnur búð eignuð Geiri goða, enda mun það hafa verið ýmist, að samgoðar skipuðu eina búð á alþíngi, eða sína hvor.

Haustþíngstaður Mosfellínga virðist að hafa verið fyrir austan tún á Mosfelli. Þar eru fornar rústir á dálitlum brekkuhjalla. Í miðjunni er hríngmynduð tópt allglögg, líklega lögrèttan, en aðrar 4 (eða 5) nokkuð óglöggvari, eru þar um kríng, og líkjast þær, að því er sèð verður, fornum búðatóptum. Það er sagt að þetta hafi verið kot og heitið *Borgartún,* en rústirnar eru öldúngis ólíkar bæarrústum. Nafnið mun vera dregið af hinni hríngmynduðu tópt; hafa menn einhvern tíma ímyndað sèr hún væri af fjárborg, en það mun þó ekki vera, því hún hefði þá verið á all-óhentugum stað. Það er ekki ólíklegt að búðatóptir hafi áður verið þar fleiri. Þær geta verið blásnar af.

Nú er ekki beinlínis getið um fleiri landnámsmenn, sem tekið hafi upp goðorð í Árnessþíngi. Þeir eru raunar nefndir »goðar« Þorsteinn og Þóroddur, synir dætra Þormóðar Skapta, en ekki er þess getið hvernig þeir komust að goðorðum, eða hvar þeir áttu mannaforráð, nema hvað þess er getið að Þóroddur goði var »í Ölvusi«. Það er samt auðráðið af líkum, að Þormóður Skapti og þeir frændur hafa reyst hof að Hofi í Gnúpverjahreppi, hefir það verið höfuðhof, og fylgt því vorþíngishelgi Árnessínga. Hafa Hrepparnir og Skeiðin hnýgið undir þá frændur, og þetta hefir nú verið goðorð Þorsteins goða. Þess er hvergi getið, hvers son Þorsteinn var, enn víst hefir faðir hans verið göfugmenni, hafa þeir lángfeðgar búið í Gröf og haft þar hof — þar er örnefni, sem heitir »hofin« — þar af má, ef til vill, ráða að Hrunamannahreppur, hafi í fyrstu

verið goðorð út af fyrir sig, og getur það nú verið. En þegar ættirnar sameinuðust, hafa goðorðin gjört það líka, að minsta kosti hafa þau bæði verið einn þriðjúngur, þó þau þau hafi verið tvö í rauninni, sem hvorttveggja er til. Ekki er hægt að gizka á, hvernig goðorðið hefir gengið mann fram af manni í ættinni, því hún var fjölmenn og margir til þess bornir; en svo vitrir menn áttu í hlut að víst má telja, að allir hafi jafnan orðið ásáttir um, að þeir hefði goðorðið, sem bezt voru tilfallnir; einna líklegast er, að Elliðagrímur hafi tekið við goðorði eptir Þormóð skapta; en ekki verður sèð hvert Þorsteinn goði hefir haft það eptir hann en á undan Ásgrími, eða þeir Grafarfeðgar hafa alla stund verið samgoðar þeirra Elliðagríms og Ásgríms, sem næstum er líklegra. Enda getur verið, að þeir hafi eins fyrir því haft þriðjúngsgoðorðið á hendi í sömu röð hver fram af öðrum.

Það sèst af landnámu (5. P. k. 13.) að Þóroddur goði var Eyvindarson, Þorgrímssonar, Grímólfssonar hins gamla af Ögðum og Kormlaðar Kjarvalsdóttur Írakonúngs. Þorgrímur erfði Álf hinn egðska, föðurbróður sinn, landnámsmann í Ölfusi, hafa þeir frændur allir verið mestu stórmenni. Ormur hinn gamli, annar landnámsmaður þar, var jarlborinn maður. Er það óhugsandi, að slíkir menn hafi gjörst annara undirmenn. En þeir hafa gjört samband sín á milli, reist hof og tekið upp goðorð í Ölfusinu, hefir mannaforræðið tilheyrt hvorumtveggja, en goðorðið haldist í Egðaættinni, af því hún hefir verið fremri. Þar mun hafa staðið hið þriðja höfuðhof í Árnessþíngi, á «bæ Þórodds goða» og forfeðra, hans. En «bær Þórodds goða» hefir ekki verið á Hjalla þó svo sè almennt talið. Raunar mun hann hafa átt

þar annað bú, en hefir sjálfur haft aðal-aðseturstað sinn á Hrauni. Eru tvær sannanir fyrir því: Bærinn Hraun stendur á jaðri hins gamla hrauns sem liggur í vestanverðu Ölfusinu, og sem hefir brunnið áður en landið bygðist. Austanvert við bæinn er blautt mýrlendi. Nú má sjá að hið nýa hraun, sem brann 1000, hefir runnið allt ofan að bænum Hrauni og niður með túninu norðaustanvert, eða jafnvel yfir nokkurn hluta þess, og svo allt út í Mýri. Því var ekki furða þó menn hèldi, að eldurinn mundi hlaupa á bæinn. Hjalli er töluvert austar þaðan með fjallinu, og verður ekki sèð að honum hafi verið sú hætta búin af eldinum, að líklegt mætti þykja hann hlypi þángað. Hin sönnunin er, að á túnjaðrinum á Hrauni, við hið nýa hraun, er örnefni, sem heitir «Hraun-hof», þar er nú nýlega bygt býli, sem heitir Hof, sögðu ýmsir, að nýbýlismaðurinn hefði kallað það svo «af monti»; en kunnugir menn segja að þetta örnefni hafi allt af verið þar. Nú er tún grætt upp í hið nýja hraunið, svo ekki sèr gjörla fyrir jaðri þess þeim megin, en þó virðist liggja nærri að eldurinn hafi hlaupið á hofið, eða því nær, hafi það staðið þar sem bærinn Hof stendur nú.

En virðist það auðráðið, þó þess sè ekki beinlínis getið, að slíkur höfðíngi sem Hásteinn Atlason var, hafi gjörst yfirmaður yfir flestum eða öllum Flóamönnum, og Atli son hans eptir hann. Þegar Atli dó, var Þórður í æsku, en einhver hróðurhollur, líklega Loptur hinn gamli, hefir varðveitt föðurleifð Þórðar til handa honum. Mun hann hafa tekið mannvirðíng eptir það hann hefndi föður síns, en enginn þeirra frænda mun hafa verið kallaður »goði«, og ekki munu þeir hafa reist hof hèr á landi. Munu allir Gaulverjar hafa haldið trygð

við hofið á Gaulum, og látið blóta þar sín vegna. Loptur mundi ekki hafa farið utan til að blóta, ef þeir hefði haft hèr hof. Atli hefði líka flutt hofið í Traðarholt, þegar hann flutti þángað bygðina, ef það hefði verið til en þar til sjást engin merki. Haustþíng munu þeir lángfeðgar hafa haldið við eða í þíngdal, hann er nú í túninu á Stokkseyri, því bærinn hefir á seinni tímum verið færður undan sjó eins og aðrir bæir þar strandlengis, og þá einmitt verið settur á þíngstaðinn, svo ekki er von að fornvirki sjáist þar, enda hefir þíngstaðurinn að líkindum lagst af þegar ríki Flóamanna leið undir lok.

Nú kemur Grímkell goði eins og upp úr miðju kafi. Hann flyzt úr Borgarfirði í Grafníng, og byggir þar, reysir hof og tekur upp goðorð, og gjörist höfðíngi yfir Grafníngsmönnum, og svo er sagt hann hafi átt goðorð um Flóa og Ölvus. En það er alveg óskiljanlegt að svo mikið ríki skyldi liggja laust fyrir einstökum manni, sem kom úr öðru hèraði. Og þó Mosfellíngar væri skyldir honum, þá voru þeir þau prúðmenni að ekki mundu þeir hafa styrkt hann til ójafnaðar og yfirgángs, sem það hefði þó verið, ef hann hefði tekið undir sig þau goðorð, sem aðrir voru tilbornir. Mun Grímkell því ekki hafa átt goðorð nema í Grafníngi. En þegar hann reið »út um Ölvus og austur um Flóa«, þá hefir hann einmitt verið í liðsbón til höfðíngja, en ekki það hann ætti «goðorð í þeim sveitum öllum» (Harðars. kap.), þó söguritarinn hafi skilið það svo. Merkilegt er að þess er getið, að hann fór «út um Hjalla en austur um Arnarbæli». Þá mun Eyvindur faðir Þórodds hafa búið á Hjalla, en Örn gamli Ormsson í Arnarbæli, og hafa þeir báðir verið höfðíngjar

Ölfusmanna í það mund. Enn kom Grímkell til Oddgeirshóla, þar hafa þá þá án efa búið afkomendur Oddgeirs og átt nokkuð mannaforráð. Ekki er þess getið, að hann riði í Traðarholt, þess þurfti hann ekki, hann átti Mosfellínga vísa til liðveizlu við sig, og þá líka Þorgrím orrabein sem um þær mundir mun hafa verið fyrir Flóamönnum. Annað mál er það, að þó Þorgrímur væri vinur Grímkels, þá er öldúngis ólíklegt að hann hafi látið laust við hann mannaforráð það sem hann hafði á hendur fengið. Því þó aldrei hafi hann hyrt að halda því í hendur Þorgils stjúpsyni sínum, þá hefir hann unt þess Hæríngi syni sínum eptir sig, enda sjálfum sèr, meðan honum entist.

Þegar alþíngi var sett, voru þannig fimm aðalhöfðíngjar í Árnessþíngi, hafi Grímkell þá verið kominn, sem vel má vera, og næstum er líkara — þá er nú sjálfsagt, að Mosfellingar hafa tekið upp þriðjúngs goðorð, og Hreppamenn annað. Og þá er um að gjöra, hvert Flóamenn, Ölfusmenn eða Grímkell hafi tekið hið þriðja upp. Hvað Flóamenn snertir, þá var Þórður dofni í æsku og ríki hans í sárum eptir víg Atla. Má því ætla að Flóamenn hafi gjörst þriðjúngsmenn Elliðagríms, mun það hafa haldist þó Þórður tæki mannvirðing, því hann mun ekki hafa verið neinn atkvæðamaður í hèraðsstjórn, og þess vegna mun það hafa verið, að hann var kallaður Þórður «dofni», en ekki af því, hvað seint hann hefndi föður síns, til þess gat hann varla orðið ýngri, jafnvel þó menn væri bráðgjörfir i þann tíma. Þegar Þórður fór utan, má ætla hann hafi fengið Lopti gamla hèraðsstjórn í hendur; en þegar Þórður var tíndur, og Þorgrímur orrabein fèkk Þórunnar, þá hefir öll föðurleifð Þorgilsar Þórðarsonar komið

í hendur honum, mannaforráð og annað. Ekki er á-ástæða til að ætla, að Þorgrímur hafi skipt um samgoða, mun hann hafa verið þriðjúngsmaður Elliðagríms, þeir voru tengdir. Þegar Þorgrímur fèll, mun Flóinn alveg hafa horfið undir yfirráð hreppamanna. Þó getur verið og er líklegt, að Þorgils orrabeinsfóstri hafi gjörst þar hèraðshöfðíngi er hann kom út, en ekki hefir hann tekið upp goðorð, mun hann hafa hallast að Þorsteini goða sem þriðjúngsmaður — því hann mun um þessar mundir hafa haft goðorð þeirra frænda. Þorsteinn og Þorgils hafa verið vinir, sem sèst af því að Bjarni leitaði þángað kvonfángs. Þorsteinn goði hefir dáið litlu eptir að Þorgils fór til Grænlands, en Bjarni tekið við búi og kvongast þá. Goðorð hafa þeir Ásgrímur átt báðir saman, en Ásgrímur verið fyrir þeim. Mannaforráð það, er Þorgils hafði átt, hefir þá dregist til Ásgríms, hefir hann haft það þaðan af og ekki látið laust þó Þorgils kæmi til, enda verður ekki sèð, að hann hafi gjört tilkall til þess. Það er vitaskuld, að Þorgils sjálfur hefir aldrei gjörst þíngmaður Ásgríms, mun hann hafa sagzt í þíng með Þóroddi goða, og má ætla, að fleiri eða færri nágrannar hans hafi fylgt því ráði með honum, en slíkt verður að skoða sem undantekníng, og má ei að síður álíta, að Ásgrímur hafi, yfir höfuð að tala, haft allt mannaforráð milli Þjórsár og Hvítár (Ölfusár). Það er sjálfsagt, að Kaldnesíngahreppur (sem nú heitir Sandvíkurhreppur) hefir allt af haft töluverðar samgöngur Ölvusið, því hann liggur vestast í Flóa við Ölvusá, og er hún þar alla jafna góð yfirferðar á ferjum eða ísum. Þó verður ekkert á því bygt. Þórir hefir án efa numið þar land *með ráði Hásteins,* og gjörst hans undirmaður, því hafa niðjar hans ekki heldur náð

mannvirðíngu í hèraðinu. Þórir á Selfossi (ɔ: Selþórir?) mun hafa dáið í «Þórishóla», þeir eru milli Selfors og Laugardæla.

Þess er áður getið að haustþíngstaður Hreppa- og Skeiða-manna var við Laxárholt og er líklegt að Flóamenn hafi sókt það þángað líka þegar alt var orðið að einu goðorði. Búð Ásgríms Elliðagrímssonar er sýnd á Þíngvöllum, en engin búð er eignuð Flóamönnum nè Bjarna spaka, svo menn viti, og má ætla að þessir hafi allir átt búð saman, að fráteknum undantekníngum.

Nú er þá um að gjöra hvort heldur Ölvusmenn eða Grímkell hafi tekið upp hið þriðja þriðjúngsgoðorðið. Hvorirtveggja eru líklegir til þess, því hvorirtveggja voru skörúngmenni. Líklegast er að þeir hafi sameinað sig um þriðjúngsgoðorðið. Það þótti ef til vill liggja nær að Grímkell hafi gjörst samgoði Mosfellínga, vina sinna og frænda, en nærri má geta að Grímkeli hefir þótt gott að komast í samband við Ölvusmenn, því úr því mátti kalla að allir höfðíngjar í Arnessþíngi væri bandamenn hans, þar sem Elliðagrímur var tengdur Mosfellíngum, er ávalt virðast hafa verið Grímkels önnur hönd. Aptur hefði Grímkell getað búist við því að minna bæri á sèr, ef hann gengi í þriðjúng með Mosfellíngum, því þeir mundu þó jafnan hafa farið með goðorðið á alþíngi. En Ölvusmenn hafa skipzt um goðorðið við Grímkel, og hvorum verið stirkur að öðrum. Það mun líka hafa þótt vel fallið að Sogið skipti þriðjúngum. Og fyrir satt má hafa: að goðorð Grímkels hafi, eptir dauða hans, lagzt undir Þórodd goða, enda virðist svo sem Þóroddur hafi þá fyrst hafist til sinnar mestu virðíngar, er Grímkell var dauður.

Sagt er að fornþíngstaður sè fyrir norðan Arnar-

bæli í Ölvusi, og mun það vera haustþíngstaður Ölvusmanna. Búð Skapta lögsögumanns er sýnd á Þíngvöllum og er það búð þeirra Ölvusmanna. En engin búð er eignuð Grímkeli, og ekki er hægt að vísa á haustþíngstað Grafníngsmanna, að svo stöddu. Þannig virðast þriðjúngsmótin í Árnessýssþíngi hafa verið þau, sem í öndverðu var gizkað á.

Vorþíngstaður Árnessínga sèst enn að nokkru leyti. Búðarústirnar eru austur frá Hofsholti skammt frá Búðaforsi, sem nú er almennt kallaður »Búði«, þá rann Þjórsá mest fyrir sunnan Árnesið, sem enn sèr merki til, en lítil kvist rann fyrir norðan það, í henni var Búði, hefir hann þá verið fegri enn nú, er hann var mjórri. Er sagt að heiðnir menn hafi blótað hann, og muna gamlir menn eptir að steinn stóð við ána fyrir neðan fossinn, sem sagt var að væri blótsteinn, en nú er hrunið yfir hann úr berginu sem þar er upp yfir. Búðirnar hafa verið þannig settar, að þær mynduðu hrínga tvo, kríngum tvo slètta heiðardali og hafa dyrnar verið á hliðvegg þeim er að dalnum snýr. Fáeinar búðir hafa þó verið á dreif þar um kríng, sumar eru nú blásnar af, svo ekki sjást nema grjótdreifar, einkum eru það hinar austustu og þar á meðal þær sem staðið hafa á suðausturbrún eystradalsins. Dómhríngurinn stendur suður í Árnesi, næstum bæarleið frá búðunum, undir stuðlabergs hól allstórum sem Þínghóll heitir. Er hann hlaðinn af grjóti úr hólnum, uppdreginn utan, nema norðan til, þar gengur hann í hólinn, hann er krínglóttur, nál. 5 faðmar í þvermál innan, en veggirnir $4^1/_2$ fet á þykkt að ofan. Dyrnar hafa snúið til suðurs og eru nú að nokkru leyti hrapaðar saman, og dómhríngurinn næstum slèttfullur af foksandi, svo dýpt hans

verður ekki sèð. Fyrir nokkrum árum hefir verið tekið grjót úr honum, er fjárrètt var hlaðin þar við hólinn, enda mun hann hafa verið hálfhruninn áður. Hofið að Hofi virðist hafa staðið fyrir neðan tún á Minna-Hofi. Þar er ferhyrnd gyrðíng, á stærð við lítinn kirkjugarð. Völlurinn innan í henni er búnguvaxinn, eins og þar hafi verið útslèttuð einhver byggíng. Er ekki ólíklegt að hofið hafi verið slèttað út þegar kristni var kominn, því það er kunnugt að menn gjörðu sèr far um að eyða öllum menjum heiðnimar. Á seinni tímum hafa þrír litlir kofar verið bygðir í girðíngunni, líklega lambhús, og sjást þar tóptir þeirra, miklu nýlegri en girðíngin. Hún snýr frá suðaustri til norðvesturs, og er litlu minni að breidd enn lengd. Heiman frá garði á Minna-Hofi liggur forngarður ofan að Þjórsá og myndar hann suðaustur hliðvegg girðíngarinnar. Mörg önnur fornvirki eru kríngum Minna-Hof.

---

## Viðauki.

---

Milli Rángárþíngs og Árnessþíngs hafa frá því fyrsta verið miklar samgöngur yfir Þjórsá. Þegar á landnámstíð hafa menn tekið *ferjur* upp og fundið *vöð*. Í Landnámu 5. P. er getið um Sandhólaferju og má nærri geta að þá þegar hefir víðar verið flutt. Enda segja munnmæli að fornmenn hafi rekið hross yfir á Hrosshyl, til að vita hvort þar væri fært, sett þar síðan ferjustað. Fyrir ofan Minna-Núp heita »Ferjuhólar» við ána, má flytja þar yfir, ef hún er lítil, og virðist hafa verið tíðkað einhvern tíma, það er af örnefninu að ráða.

Og mjög er líklegt að ferjustaður hafi verið við Kolviðarhól í Þjórsárdal, meðan dalurinn var bygður. Það er nálægt Skarfanesi hinu forna, og mundi þaðan hafa verið flutt. Varla má finna fegri ferjustað enn þar er. Vað var á Þjórsá skammt fyrir framan Hof. Þá rann Þjórsá mestöll fyrir sunnan Árnesið, sèst þar enn breiður farvegur og rennur kvísl í. Sèr gjörla hinn forna veg á vellinum frá þíngstaðnum Þíngholti út að farveginum. Og í Árnesinu, þar sem það er óblásið, sèst gjörla forntroðinn vegur, uppgróinn, sem liggur vestur eptir. Nú er Árnesið allt blásið að vestanverðu út að ánni þar sem hún er nú, en fyrir vestan hana tekur við Gnúpverjahrepps-vegurinn. Þetta vað hefir heitið Holtavað, og hefir það einmitt verið undir Þíngholti sem Flosi «beið Sigfússona og annara sinna manna». Nálægt því sem þetta vað var, er nú á dögum «Eyarvað», nema hvað það er fyrir utan Árnesið. «Hofsvað» heitir skammt fyrir ofan «Búða», að því liggur forn vegur, og hefir það einhvern tíma verið tíðkað, en mun aldrei hafa verið gott, þó er það enn fært, ef áin er lítil, og hefir Guðmundur bóndi Magnússon á Minna-Hofi eitt sinn farið þar yfir. Hið alkunna nautavað er sagt að hafi fundist á dögum Páls byskups, er naut hans struku austur að Skarði, og fóru þar yfir. Fyrir neðan Minna-Núp halda sumir að vað hafi verið, og er það ekki ómöguiegt, þar er áin allbreið, og laut, lík fornum vegi liggur þángað austur yfir heiðina frá þjóðveginum. Þó mun þar nú ill- eða ófært yfir sökum stórgrýtis. Fyrir neðan Haga (í Gnúpverjahreppi) er Hagavað, það er nokkuð djúpt, og er nú næstum af lagt, síðan «Krossavað», sem nú heitir Gaukshöfðavað fanst aptur. Það

voru gömul munnmæli, að fyrir neðan Gaukshöfða, vestast og fremst í Þjórsárdal, hefði verið vað, og heitið «Krossavað» — því á höfðanum er steinn við veginn, sem kross stóð á í páfadómi. Enn í dag skal hver sá sem í fyrsta sinn fer um veginn, gefa til steinsins hrísluánga, bein eða annað. Sá maður sem Bergsteinn hèt, Hreiðarsson, bóndi á Yrjum í Landsveit, fann þetta vað aptur fyrir hèr um bil 20—30 árum, og vóð sjálfur fyrst þar yfir í frosti og ísskriði. Það má víst fullyrða að Kári hafi annaðhvort farið yfir á þessu vaði, eða verið fluttur frá Skarfanesi, þegar hann reið í Þjórsárdal til móts við Hjalta, og sömu leið — hina skemmstu — hafa þeir víst farið austur aptur. Ekki er hægt að gizka á, hvers vegna vað þetta hefir lagzt af, þó má vera að áin hafi breytt sèr nokkuð. Nú þykir þar gott vað og er mjög tíðkað. Það er nú kallað «Gaukshöfðavað»[1].

---

1) Svo er sagt að orsökin til þess að Bergsteinn fór að reyna vaðið væri sú: að tvö haust, hvort eptir annað, sá hann mann fara þar yfir. Sá reið ofan á milli á trèdráttarhesti brúnum. Aldrei spurðist til þessa manns, og var hald manna að það hefði verið útilegumaður.

Bergsteinn drukknaði síðar í Þjórsá, með Hreiðari bróður sínum, er þeir komu af Eyrarbakka um haust. Þeir fóru yfir á Eyrarvaði og vóð Bergsteinn fyrir sem hann var jafnan vanur, — því báðir höfðu jafnan einn reiðhest. — Það sást frá Minna-Hofi að þeir áttu dvöl nokkra þegar þeir komu austur í Árnessið, og hèldu menn þeir hefði þá leyst upp, og náð brennivíni að hressa sig á — en þeir voru báðir hneigðir fyrir það. — Nú gjörði fjúk og dimmaði af nótt, höfðu þeir því villzt og lagt út í ána móts við Minna-Hof í stað þess að leggja út í kvíslina, fyrir austan Árnessið. Þar fundust hestar þeirra morguninn eptir.

*Brynjúlfur Jónsson.*

---

# VII.

*Literæ testamenti Thorstani Eiulphi*[1]

In nomine domini amen. Eg Þorsteinn Eyulfsson heill að likhama og samvitsku, kennandist mig skylldugan að giøra mínum skapara vorum herra Jestu Kristo makligar þakkir fyrir það lán, sem hann hefir veitt mèr óverðigum, því skipar eg þvílíkt testamentum fyrir mèr, og minni sál, sem hèr fylgir: í fyrstu að eg fel mig og mína sál undir myskunardóm allsvaldanda guðs föðurs í himnaríki og hans sætu móður, jungfrú sanctæ Mariæ, kiosandi mínum likham leg í skrúðhúsinu á Hólum fyrir altarinu, hvar sem eg andast á Íslandi, og flytjast uppá erfingja minna góðs, þar til gefandi Hóla kirkju jarðir: Helgustaði í Fljótum, Hamar og Bakka, og tuttugu kúgildi í þriðjungar fè, með þeirri grein og skilmála, að hvern dag, sem guð krefur mig andar, segist í hverri viku sálumessa við altari í skrúðhúsinu fyrir minni sál æfinlega, en syngjandi sálumessa á árstíðardag minn

---

1) Þorsteinn lögmaður Eyúlfsson var einhver hinn mesti höfðíngi hèr á landi í sinni tíð, og má lesa um hann í lögmannaæfum Jóns Sigurðssonar; hann var uppi á 14. öld, varð afargamall og dó um aldamótin 1400. Brèf þetta er hèr prentað eptir gamalli brèfabók, en stafsetníngunni, er þar var, er eigi með öllu fylgt. Slík brèf, sem þetta, virðist mèr að í ýmsu lýsi þeim tímum, er þau eru gjörð á.

með sálutíðum, nefna til bæna hvern sinn um dag í ártíðaskrá með öðrum framliðnum mönnum; þeim lærðum manni, er mig syngur til moldar, þrjú kugilldi, meður olean, prestum þeim öllum, er standa yfir greptri mínum, gef eg fimm aura hverjum, og segi þar til sálu messu fyrir minni sál; ítem prestum til sálumessna fimm hundruð; ítem fátækum mønnum þrjú hundruð í kosti og tvö í vaðmálum innan siöundar; þrjú hundruð til þingeyra, tvö til Reyniness staðar, tvö til Möðruvalla, þriú til Munkaþverár; kúgilldi Vallna kirkju, Grytubakka kirkju ii ásauðar kúgilldi, ii kyr, og ii naut tvævetur, ii hundruð til Breiðabólstaðar, kúgilldi í Árskóg, tíu aura til Tjarnar og aðra til Upsa, kúgilldi til Kvíabekks, Urða kirkju fimm kúgilldi, undir þá grein og skilmála, að bondi sá, sem býr á Urðum, skal gefa fyrir minni sál þrjá fjórðunga smjörs og halfvætt skreiðar hvern Andresmessu dag æfinlega og láta segja sálumessu hvern minn ártíðardag, skipar eg, og gef hinum heilaga Thorlaki og kirkjunni í Skálhollti fimm kúgilldi, Item skipar eg kristfè í þá beztu jörð, sem eg á norðanlands á Íslandi, í Grund í Svarfaðardal, átta ásauðar kúgilldi og átta kýr; skal þar fæðast á karlgilldur ómagi æfinlega eptir skipan og ráði Hóla kirkju formanns, hinn skyldasti úr minui ætt sá, er framfærslu þarf með. Skal þetta mitt testamentum standa og halldast obrigðiliga, nema eg hittumst annarstaðar gjørt hafa. Bið eg alla góða menn fyrir guðs skylld fyrirláta minni sál þá hluti, sem eg hefi mót þeim gjort með orðum eða verkum. Setur eg þá exeqvutores testamenti ráðsmann á Hólum og prófast í Eyjafirði. Og til sanninda hèr um setta eg mitt innsigli fyrir þetta testamentum, gjört á Hólum þriðjudaginn í Hvítasunnu viku, Anno domini

M.ºCCC.ºLxxxºviº. Og sakir þess að vèr bróðir Jón með guðs náð á Hólum vorum nær, er þetta testamentum gjørðist, fyrir því stýrkjum vèr það og staðfestum með voru innsigli.

---

## LEIÐRÈTTÍNGAR
og helztu prentvillur í 1. bindi.

—

Bls. 17. lín. 1.: *seytjándu*, les *sextándu*

— 24.; gr. 8. kvinna sèra Guðlaugs í Görðum og móðir Sigríðar ömmu Bergs amtmanns, var:

3. *Valgerður Þórðardóttir*, hennar faðir
4. *Þórður Gíslason* prestur í meðallandi, dó 1728, hans faðir
5. *Gísli Finnbogason* prestur á Sandfelli, hans faðir
6. *Finnbogi Gíslason* prestur til Dyrhóla, dó 1669.

En Guðný Erlendsdóttir var móðir sèra Guðlaugs, og er hennar ætt rakin í 8. greininni.

Skakt J. P. — ~~30.: Þar er fyrsta kona Ólafs jústitsráðs í Viðey nefnd Sigríður, en hún hèt Jóhanna Katrín~~.

— 58. línu 12: œ̈r, les: æ̈r

— 70. lín 2.: *figur* les: *fiogur*

— 82. lín 22.: *Hólsmanna*, les: *Holtsmanna*, og þar sem *Hólsmenn* síðan eru nefndir í ritgjörð þeirri, á það að vera *Holtsmenn*.

## EPTIRMÁLI.

Ástæðurnar fyrir því, að þetta annað bindi af tímariti mínu kemur eigi fyrri út en þetta, eru þær: að fyrst var eg í vafa um, hvort eg ætti að halda ritinu áfram eða eigi, því kaupendurnir voru svo fáir og fjölguðu eigi, en allir sjá, að það er eigi nema vitleysa ein, að vera að láta prenta þær bækur, er enginn vill kaupa nè lesa, því það er að verja tíma sínum og peníngum til einskis; og í annan stað komst eg eigi að prentsmiðjunni, meðan verið var að prenta alþíngistíðindin. En með því eg þó eigi enn með öllu er úrkula vonar um, að rit þetta gángi út með tímanum, hefi eg samt ráðist í, að láta annað bindið út koma, og hefir það nú meðferðis:

1. Endann af ritgjörðinni um alþíngistollinn.
2. Áframhald af ættum alþíngismanna 1867.
3. Nokkur forn brèf, einkum um landamerki jarða.
4. Áframhald af sýslumannaæfunum.
5. Áframhald af kirknamáldögunum,
6. Endann af ritgjörðinni »um þriðjúngamót í Rángárvallaþíngi og Árnessþíngi« og
7. Testamenti Þorsteins lögmanns Eyólfssonar.

Eg skal geta þess, að kirknamáldagarnir og eins forn brèfin eru orðrètt prentuð bæði í þessu bindi og líka hinu fyrra eptir skjölum þeim, er lögð eru til

grundvallar fyrir prentuninni, og nefnd eru, og hinni sömu stafsetníngu fylgt hèr og þar er. Að vísu eru skjöl þessi og máldagar eigi allstaðar auðskilin, og virðast setníngarnar sumstaðar nokkuð ruglíngslegar, líka sýnast sum orð þar nokkuð óviðkunnanleg, og eins stafsetníngin á nokkrum stöðum; þannig mætti margur halda, að orðin: »*spaltari*« og »*dak*« er koma fyrir í þessu bindi væri prentvillur, en þetta er eigi svo, heldur eru bæði þessi orð svona skrifuð í báðum eptirritunum af kirknamáldögunum, bæði A og B, og hafa þau því án alls efa verið rituð þannig í frumritinu sjálfu. En eg hefi eigi álitið mèr skylt, að breyta nokkur staðar stafsetníngunni, nè geta þess, hvar mèr þætti torskilið, eður hver skilníngur þess mèr finndist rèttastur.

Loksins bið eg alla þá, er eigi hafa enn sent mèr borgunina fyrir fyrra bindið, að senda mèr hana sem fyrst, eða þá bækurnar aptur, ef þeir hafa þær óseldar; fyrri en eg fæ og nokkuð talsvert af borguninni fyrir þetta annað bindi, get eg eigi heldur látið 3. bindið út koma.

Reykjavík, í aprílmánuði 1870.

*Jón Pètursson.*

---

**KOSTAR Í KÁPU 46 SK.**

---



# TÍMARIT

GEFIÐ ÚT

AF

JÓNI PJETURSSYNI.

---

3. BINDI.

---

REYKJAVÍK.

PRENTARI: EINAR ÞÓRÐASSON.

1871.

## EFNI.

---



---

## LEIÐRÈTTINGAR.

Í 2. B. bls. 17 er í ættartölu Stefáns alþingismanns Eiríkssonar, móðir konu hans nefnd Sigríður, en hún hèt Ragnhildur.

- - — bls. 117, línu 2, les »með guðs náð biskup« o. s. frv.

- 3. B. bls. 28. Sumar ættartölubækur geta ekki, hvers son Brandur faðir Egils hafi verið, og er ættin frá honum upp hèr talin eptir Ólafi Snógdalín; en ef hún er rètt talin, þá hefir Árni faðir Brands verið bróðir Ara Þorvarðssonar, er í þrætum átti út af arfi Teits lögmanns.

# 1.

## *Nokkrar almennar athugasemdir um hin helztu atriði fyrir lögmæti samninga og annara skjala.*

---

Samningar manna á meðal eru gildir og órjúfanlegir að lögum, hvort sem þeir eru munnlegir eða skriflegir, og þurfa almennt eigi að vera vissum formum bundnir, einungis verða þeir, er þá gjöra, að vera myndugir og fullveðja menn, eins og líka það, sem um er samið, eigi má vera gagnstætt lögum og velsæmi. En þótt nú þessi lagaregla, að samningar, svo bindandi sèu, eigi þurfi skriflegir að vera, eða vissum formum bundnir yfir höfuð að tala, sè sönn og rètt, þannig að sá, er lofar, hvort sem hann gjörir það skriflega eða munnlega, er skyldugur að efna loforð sitt, er það þó rèttara og hagfelldara, að þeir, er samning gjöra sín á milli, semji hann skriflega, og það af fleirum en einni ástæðu. Fyrst og fremst er það nauðsynlegt að hafa samninginn skriflegan, þegar hann er langur og margbrotinn, þar eð að öðrum kosti hvorki þeir, er gjöra hann, nè þeir vottar, er við kunna að vera staddir, þegar tímar líða, geta munað eða borið vitni um það, er samið var, svo að báðir málspartar af þessari ástæðu geta orðið fyrir miklu fjártóni. Allir áríðandi samningar verða því að vera í skriflegu formi, svo að vissa fáist fyrir efni þeirra. Skriflegir samningar hafa einnig að lögum ýms rèttindi fram yfir munnlega samninga, þannig geta menn með

hægara móti selt og veðsett skriflegar kröfur, sem sè skuldabrèf, heldur en hinar munnlegu; munnlegar kröfur geta heldur eigi í málum komizt til skuldajafnaðar gegn skriflegum kröfum, sbr. norskulaga 5—13—4; svo standa og munnlegar kröfur í dánarbúum og þrotabúum á baki fyrir skriflegum kröfum, samkvæmt sömu laga 5—13—36; hinar skriflegu kröfur veitir og hægra að sanna sbr. n. l. 5—1—6.

Þegar skriflegir samningar eru gjörðir, verða hlutaðeigendur nákvæmlega að gæta þess, að það sem um er samið sè rètt og greinilega tilgreint, svo að enginn efi eða misskilningur geti fyrir komið, eins og líka samningurinn verður að undirskrifast af þeim, er í honum tekur sèr skyldur á hendur, því annars getur hann eigi álítizt að hafa skuldbundið sig; en ekki er það nauðsynlegt, að hann setji undir hann sitt innsigli, þó það ef til vill sè rèttara og varúðarverðara, þar eð sá, er ritað hefir nafn sitt, þegar svo er, á hægra með að þekkja undirskript sína en annars, og auk þess er eigi eins hætt við, að samningurinn verði falsaður. Þar eð það er nauðsynlegur skilmáli fyrir gildi hvers samnings, eins og áður er um getið, að hann sè undirskrifaður af þeim, er í honum tekur sèr skyldur á hendur gegn öðrum manni, verður sá, er vill njóta rèttar síns eptir skriflegum samningi, að sanna, að nafn þess manns, sem í honum hefir skuldbundið sig, og undir hann skrifað, sè af honum ritað, ef sá, er skuld skal greiða, ekki vill kannast við nafn sitt, eða neitar, að hann hafi ritað það. En geti sá, er skuld á að heimta eptir hinum skriflega samningi, eigi sannað undirskript þess manns, er skuldina á að lúka, hefir skuldaheimtumaður samkvæmt norskulaga 5—1—6 sbr. 1—14—6 þann rètt

gegn skuldunaut sínum, að hann getur krafizt, að hann annaðhvort gjaldi það, er skuldabrèfið ræðir um, eða fyrir dómi með laganna eiði synji fyrir það, að hann hafi sjálfur ritað nafn sitt undir skuldabrèfið, eða leyft öðrum í sínu umboði að gjöra það. Lík regla gildir og, ef skuldunautur kemur fram með þá mótbáru, að skuldabrèfað sè falsað að efninu til, eða neitar að hann hafi skrifað undir það í því ástandi, sem það er í á þeim tíma, þegar skuldaheimtumaður krefst skuldar sinnar, því í þessu tilfelli verður skuldunautur að fullnægja skuldabrèfinu, nema hann staðfesti neitun þessa með eiði. Þetta sem nú er sagt sýnir ljóslega, að samningurinn að nokkru leyti er álitinn að vera rèttur, einmitt af því hann er í skriflegu formi. Á hinn bóginn er það og af þessu auðsætt, að þar eð sá, er skuld hefir að krefja, þrátt fyrir hagnað þenna, auðveldlega getur misst rèttar síns, ef sá, er skuld á að lúka, staðfestir mót betri vitund neitun sína með eiði, er það rèttara og varúðarverðara fyrir þann, er vill vera viss um að ná rètti sínum, að láta tvo votta undirskrifa og vera viðstadda, þegar einhver samningur er gjörður, svo að hann hafi ónækan vitnisburð fyrir því, að sá, er ritað hefir nafn sitt undir samninginn, og í honum skuldbundið sig, í raun og veru hafi gjört það.

Þó er engin lagasönnun fengin fyrir því, að nafn þess, sem undir samningnum stendur, sè ritað af rèttum hlutaðeiganda, fyrr en þeir vottar, er undir hafa skrifað til vitundar, með eiði fyrir dómi hafa staðfest, að þeir hafi ritað nöfn sín og verið viðstaddir, þegar samningurinn var gjörður milli málsparta, og verða þeir því áður, en þeir rita nöfn sín sem vottar, annaðhvort með eigin augum að hafa sèð hlutaðeigendur undirskrifa

hann, eða að minnsta kosti í áheyrn vottanna kennzt við nöfn þau, er undir samninginum standa.

Þeir vottar, sem rita nöfn sín undir skriflegan samning til vitundar, án þess að hafa gætt þessa, geta orðið fyrir fjárútlátum, og ef til vill hegningu; því hver sem sèr samninginn verður að álíta að vottar þeir, er standa undir honum, hafi nákvæmlega gefið gætur að því, að hlutaðeigandi annaðhvort í viðurvist þeirra hafi ritað nafn sitt undir hann, eða að öðrum kosti kannast við nafn sitt í áheyrn þeirra; og kaupi nokkur í trausti til þessa skuldabrèf með vottum undirskrifuðum, sem reyndar kannast við nöfn sín, en eigi geta staðfest vottorð þetta með eiði, eru þeir orsök í því, ef kaupandi verður fyrir fjármissi.

Þeir sem rita nöfn sín nndir samning sem vottar, verða einnig að hafa vissu fyrir sèr í því, að málspartar sèu einmitt þeir sömu menn, er þeir segjast vera; svo eiga og bæði vitnin að undirskrifa nöfn sín samstundis, þar eð það að öðrum kosti getur verið efunarmál, hvort full lagasönnun sè fyrir því, að rèttur hlutaðeigandi hafi skrifað nafn sitt undir hinn gjörða samning. Einnig mega hlutaðeigandi málspartar eigi nota þá menn sem votta undir samninga, sem að lögum vilhallir eru álitnir annaðhvort vegna skyldugleika eða mægða við þá, eða sem á einhvern hátt eru viðriðnir því máli, sem um er rætt í samningnum; þannig eru eptir norsku laga 1.—13.—17. vilhöll vitni: maður og kona; foreldrar og börn, og systkyni, og jafnnátengdir; vinnuhjú í málum húsbænda þeirra; eins og líka þeir, sem vegna afbrota svo sem þjófnaðar hafa misst virðingu manna á meðal, ekki eru álitnir áreiðanlegir vottar, sbr. sömu laga 1.—13.—20.

Þar eð full lagasönnun fyrir undirskript hlutaðeiganda fyrst er fengin, þegar vottar þeir, er ritað hafa nöfn sín undir hinn gjörða samning, hafa staðfest vottorð sitt með eiði á þann hátt, sem áður er umgetið, og vottar þessir, þangað til þeir eiðfestir verða, geta dáið eða að öðrum kosti misst traust það, er að lögum má bera til þeirra, er það hið vissasta og bezta, að hlutaðeigandi skrifi nafn sitt undir samninginn eða kannist við undirskript sína í viðurvist þess embættismanns, er kallast Notarius publicus, sem sýslumenn og bæarfógetar hèr á landi auk annars eru, og láta hann með tveimur tilkvöddum vottum rita vottorð sitt á skjal það, sem hlutaðeigandi málspartar í viðurvist hans hafa undirskrifað eða kannast við, og að því búnu orðrètt bóka það í embættisbók sína; því á þenna hátt fæst bæði óræk lagasönnun fyrir undirskript hlutaðeiganda, sem og vissa fyrir því, að samningurinn eða skjaldið eigi verði falsað. Öll áríðandi skjöl og samningar ættu því af hlutaðeigandi málspörtum að undirskrifast eða viðurkennast í viðurvist áðurgreindra embættismanna; með því og kostnaðinn eigi er að telja í því efni í samanburði við þá rèttarvissu, sem þannig ávinnst fyrir hlutaðeigendur. Í stöku tilfellum er það í lögum boðið, að vottar skuli viðstaddir vera, þegar samningar og önnur skjöl eru gjörð, og rita nöfn sín undir þau, svo að form þetta má álíta nauðsynlegt fyrir þeirra lagagildi. Þannig á sá, er arfleiðsluskrá gjörir, að því fyrir er mælt í tilskipun 25. septbr. 1850 23. gr., annaðhvort að hafa ritað nafn sitt undir hana, eða kennzt við hana annaðhvort fyrir Notarius publicus eptir því, sem fyrir er skipað í opnu brèfi 8. janúar 1823, eða fyrir tveim vitnum, er tilkvödd hafa verið í því skyni, og ritað á arf-

leiðsluskrána vottorð sitt; skulu þau geta unnið eið að því, ef þörf gjörist, að arfleiðandi hafi þá verið með fullu ráði, er hann ritaði í viðurvist þeirra nafn sitt undir arfleiðsluskrána, eða kenndist við hana. Svo er það og boðið eptir norsku laga 5—1—7, að vottar eigi viðstaddir að vera og rita nöfn sín undir til vitundar, þegar samningur er gjörður við þann, er ekki kann að lesa eða skrifa. Skjalið ber í áheyrn vottanna að lesa greinilega fyrir þeim, sem ólæs er og óskrifandi, sem um leið eiga að sjá um, að það sè rètt lesið, svo að hinn óskrifandi á síðan ekki með sönnu geti borið það fyrir sig, að honum hafi verið ókunnugt efni samnings þess er við hann er gjörður. Sjálfur á hann að staðfesta hinn gjörða samning með því að setja innsigli sitt undir hann, eða með því að hönd hans er stýrt, meðan hann ritar nafn sitt, eins og sagt er í tilskipun 15. ágúst 1832. Vitundarvottarnir eiga eptir áðurgreindri lagagrein að kjósast af þeim, er ólæs er og óskrifandi, sem og virðist eðlilegast, svo að hann eigi verði fyrir svikum og prettum af málsparti sínum.

Formum þessum ber jafnan að fylgja, þegar sá, er samning gjörir, eigi er fær um að skrifa nafn sitt, þar eð þá eru líkindi fyrir því, að sá hinn sami eigi heldur sè lesandi á skript. Jafnvel þótt lagagrein þessi beinlínis eigi við, þegar menn af vankunnáttu, hvorki eru skrifandi eða lesandi, á henni samt einnig að fylgja, þegar samning skal gjöra við þann, er blindur er, því þó hann væri fær um að rita nafn sitt, þá vantar samt það, sem mestu varðar, að honum sè kunnugt efni samnings þess eða skjals, er hann á undir að skrifa. Svo að enginn efi geti verið á því, að vitundarvottarnir hafi í þessu efni gjört skyldu sína, eiga þeir neðan á

skjali því, er þeir undirskrifa sem vottar, að geta þess, að skjalið orðrètt hafi verið lesið í áheyrn þeirra fyrir þeim, er ekki er fær um að skrifa eða lesa, sem og er boðið í tilskipun 25. septbr. 1850 23. gr., þegar sá, er ekki er lesandi á skript, gjörir arfleiðsluskrá á efnum sínum. Þar eð þeir, sem semja sín á milli, eins og áður er getið, verða að vera myndugir og fullveðja menn, skal hèr stuttlega drepið á ákvarðanir laganna í því efni.

Þegar þess í lögum er krafizt, að menn sèu myndugir og fullveðja, svo að samningar þeir, er af þeim eru gjörðir, hafi lagagildi, er það einungis að skilja um þess konar samninga, er lúta að því að skuldbinda sjálfa þá eða fjármuni þeirra; og þar af leiðir þá, að eigi er nauðsynlegt, að sá, er eptir samningi þyggur eða tekur á móti ýmsum munum að gjöf, sè myndugur, einungis, að hann hafi náð þeim vitsmunum og aldri, að hann hafi ráðdeild á því að staðfesta eða ganga að samningnum, sem einungis veitir honum gagn og rèttindi, með jáyrði sínu.

Í tilliti til myndugleika manna verður að lögum að greina á milli ómyndugra, myndugra, giptra kvenna, og ekkna.

Ómyndugir eru karlar og ógiptar konur, sem ekki hafa náð 18 ára aldri, vitfirringar, og þeir sem af sèrstökum ástæðum svo sem sakir eyðslusemi eða fávizku af yfirvaldinu eru gjörðir ómyndugir, sjá D. L. 3—17—1 og opið brèf 4. janúar 1861. Slíkir menn geta eigi að lögum skuldbundið sjálfa sig eða fjármuni sína, og verða því foreldrar, fjárhaldsmenn og yfirfjárráðendur þeirra vegna að gjöra samninga þeim áhrærandi. Þó er það álitið, að hinn ómyndugi hafi full ráð yfir fjármunum þeim, er hann ávinnur sèr með eiginn handafla sínum; hann getur og að lögum

ráðið sig hjú, sè hann fullra 16 ára að aldri og fermdur, eptir vinnuhjúa tilskipun 26. janúar 1866. Gjöri hinn ómyndugi samt sem áður samning við þann, er myndugur er og fullveðja, er sá samningur eigi að fullu ógildur, þar eð hinn myndugi er skyldur til að halda hann, ef sá, er hefir fjárforráð hins ómynduga á hendi, staðfestir hann með jáyrði sínu, en gjöri hann það eigi, er samningurinn að lögum ógildur. Af þessu er það auðsætt, að sá sem gjörir samning við einhvern, verður áður að gæta að því, hvort hlutaðeigandi sè myndugur eða ekki, svo að hann hafi vissu fyrir rètti sínum gegn hinum sama.

Til myndugra manna teljast bæði hinir svo nefndu hálfmyndugu og fullmyndugu. Hálfmyndugir eru karlar og konur ógiptar, sem eru á milli 18 og 25 ára að aldri. Þessir geta gjört að lögum arfleiðsluskrá á eigum sínum eptir tilskipun 25. septembr. 1850 20. gr., en geta þó eigi, þó heita megi fjár síns ráðandi, eptir eigin vild skuldbundið fjármuni sína, með því að selja þá eða veðsetja, heldur verða í þeim efnum að leita samþykkis tilsjónarmanna sinna, sem eru skyldugir að sjá um, að eigur þeirra ekki eyðist að ófyrirsynju, eins og segir í D. L. 3—17—34. Með tilsjónarmanni (curator) hafa hinir hálfmyndugu ekki að öllu leyti hin sömu ráð sem hinir fullmyndugu; þannig geta þeir eigi að lögum gengið í borgun fyrir skuldum annara, þó tilsjónarmaður gefi til þessa sitt samþykki, með því og þess konar samningar einungis geta orðið hinum hálfmyndugu til skaða, en til einkis gagns. Það sem hinir hálfmyndugu sjálfir ávinna sèr með vinnu sinni, hafa þeir að fullu ráð yfir, þar eð löggjöfin einungis hefir takmarkað ráð þeirra yfir þeim erfðafjármunum, sem

þeim kann að hafa hlotnazt. Karlmenn 22 ára að aldri geta eptir tilskipun 21. desember 1831 fengið leyfi til þess að verða fullmyndugir, ef þess konar leyfi má álíta að komi þeim að notum; og eiga þeir þá með bónarbrèfi sínu að senda vottorð tilsjónarmanns síns, og hlutaðeigandi sóknarprests um það, að þeir hafi náð þeim sálarþroska, sem nauðsynlegur er hverjum manni, til þess að geta stjórnað efnum sínum. Eins og áður er ávikið um hina ómyndugu, er samningur sá, er hinn hálfmyndugi gjörir viðvíkjandi eignum sínum, gildur að lögum, ef tilsjónarmaður hans staðfestir hann fyrir hönd hins hálfmynduga.

Fullmyndugir verða karlar og konur fullra 25 ára og geta þá gjört alla þá samninga, sem að öðru leyti eru gildir að lögum.

Giptar konur eru að lögum, enda þótt þær áður hafi myndugar verið, undir tilsjón bónda síns, svo að þær á engan hátt í samningum geta skuldbundið sig og félagsbúið, því öll ráð þess heyra einungis manninum til sem konunnar forsprakka. Hún hefir því eigi vald á að selja eða veðsetja búsins eigur án vilja og vitundar bónda síns, og bóndi hennar getur þannig, ef á móti er brotið, brygðað samninga hennar, og þarf eigi að borga peninga þá, sem kona hans kynni að hafa til láns tekið, sbr. dönsku laga 5—1—13. Þó er það álitið, að konan geti á eigin hönd ráðið vinnukonur, og í forföllum bónda síns á löglegan hátt gjört þá samninga, sem eru öldungis nauðsynlegir í búsins þarfir. Á hinn bóginn verður og maðurinn að fá samþykki konu sinnar til einstakra samninga, t. a. m. ef hann í arfleiðsluskrá vill ráðstafa öllu fèlagsbúinu; ef hann vill gefa einhverjum próféntu sína, þar eð konan almennt

er eigandi að hálfu búinu, og maðurinn er skyldur til þess að sjá fyrir henni eptir megni, sbr. dönsku laga 5—1—10.

Ekkjur og þær konur, sem eru að lögum skildar við menn sína, eru án tillits til aldurs almennt að álíta sem fullmyndugar, þannig að þær að eigin vild geta stjórnað fjármunum sínum og skuldbundið sig í samningum við aðra. Í dönsku laga 3—17—41 er þess reyndar getið, að ekkja megi eða eigi að taka sèr lögráðanda, sem veiti henni aðstoð sína og ráð í öllu því, er áríðandi má þykja, og sem eigi til vitundar með henni að skrifa undir samninga þá, er hún gjörir; en lagagrein þessi er skilin þannig, að ekkjan megi sjálf ráða því, hvort hún vilji taka sèr lögráðanda eða ekki, eins og líka dómstólarnir álíta þá samninga, sem af henni eru gjörðir, góða og gilda, þótt lögráðandi ekki hafi skrifað undir þá með henni. Samt sem áður er það ráðlegast að sá, er samning gjörir við ekkju, sjái svo um, að lögráðandi undirskrifi hann með henni, sem og jafnan á að fylgja, þegar lögráðandi er settur ekkju af yfirvaldinu, en ekki er kjörinn af henni sjálfri, því sè svo má ekkjan hvorki selja eða veðsetja fasteignir sínar, nè ganga í borgun fyrir skuldum, nema því að eins að hennar skipaði lögráðandi skrifi undir slíka áríðandi samninga með henni. Eptir norsku laga 1—21—9 geta ekki ekkjur eða myndugar konur gengið í borgun fyrir sakamenn.

Eins og það er nauðsynlegt fyrir gildi samninga, að þeir sèu gjörðir af myndugum mönnum, svo er það og ekki síður eðlilegt, að þeir sèu gjörðir með frjálsum vilja, og að jáyrði ekki sè fengið með svikum og prettum, eða hafi rót sína í vanþekkingu eða ókunnug-

leika á hinum helztu atriðum fyrir gildi samningsins.

Þannig liggur það í augum uppi, að sá sem með sviksamlegum fortölum er fenginn til að kaupa nokkurn hlut, sem vantar þá eiginlegleika, er kaupandi mátti álíta, að hluturinn hefði eptir sögusögn seljanda, svo sem ef tannbak mót betri vitund væri selt sem gull, hefir fullan rètt á að brygða kaupin og heimta fullar bætur fyrir skaða þann, er hann liðið hefir, því sá sem svíkur á jafnan að gjalda svika sinna. Í Jónsbókarlaga kaupabálki 11. kapítula segir og, að það sè falskaup, ef maður selur gull eða brennt silfur, smíðað eða ósmíðað, það er skírt skal vera, og fyrir skírt var selt, því sè það eigi skírt, þá skuli það kaup aptur ganga, og eigi sá, er kaupi, að hafa andvirði sitt aptur frá hinum, er seldi.

Ekki heldur er sá samningur gildur, er gjörður er af þeim, sem með ofbeldi og ógnunum hefir verið knúður til þess; þó er það eigi allskonar nauðung og þvingun, sem gjörir samninginn ógildan að lögum; þannig er það eigi ólögleg kaup og sala, þó einhver notandi sèr af neyð annars selji honum einhverja muni dýrara en öðrum, eða taki af sumum hærri leigur af lánuðum peningum af sömu ástæðum en öðrum, þar það er undir þeim, er kaupir eða tekur peninga að láni, sjálfum komið, hvort hann vill ganga að þeim kostum, er hlutaðeigandi býður honum, eða ekki. Það er því einungis sú ógnan og hótan, sem ólögleg má álítast, og sem lýtur að því að svipta hlutaðeigandi lífi, frjálsræði og æru, sem hefir áhrif á gildi samningsins, og á þá sá, er þannig leiðist til að gjöra einhvern samning, eptir norsku laga 5.—1.—4. að lýsa því yfir svo fljótt sem

unnt er, og verður honum þá leyft að staðfesta með eiði, að hann á þenna hátt hafi verið fenginn til að gefa jáyrði sitt. Ef hann þá vinnur eiðinn fyrir dómi, og stefnir þeim, er með slíkum ógnunum og ofbeldi hefir neytt hann að gjöra samninginn, til þess að heyra eiðinn unninn, verður sá hinn sami laus við skuldbindingu sína; en lýsi hann því ekki yfir svo skjótt sem unnt er, er það álitið, að samningurinn sè gjörður með frjálsum vilja, nema hann komi með nægar sannanir fyrir áburði sínum, sem allajafnan mun reynast óklјúfanda, þar slíku ofbeldi og ógnunum sjaldan er beitt nema undir fjögur augu eða í þeim kringumstæðum, að hlutaðeigandi ekki getur notið votta.

Það er og einnig skilyrði fyrir lagagildi samnings þess, er gjörður er, að hlutaðeigandi málspartar eigi sèu í villu, hvað hlut þeim viðvíkur, er um er samið; eða við hverja þeir semja, því hafi málspartar ætlað sèr að semja um annan hlut en þann, sem í samningnum er tilgreindur, eða annarhvor málsparta hafa ímyndað sèr, að hann semdi við annan en þann, er hann á við, er sá samningur án lagagildis. Hið sama gildir og, sè villan fólgin í því, að annar málspartur þykist hafa selt einhvern hlut, en hinn þegið hann að gjöf. Gjöri hins vegar einhver samning við annan mann af rangri ímyndun um gagn það og ábata, er hann af því kynni að hafa, þá hefir það engin áhrif á lagagildi hans, því slík villa er samningnum sjálfum óviðkomandi, og mundi þar að auki, ef til greina væri tekin, valda óvissu í viðskiptum manna á meðal, sem allajafnan með öllu ókunn málsparti þeim, er við er samið.

Eins og áður er drepið á, eiga samningar að vera greinilega samdir, svo að efni þeirra sè glöggt

og ljóslega tekið fram; þó er það eigi nauðsynlegt að állt sè nákvæmlega tilgreint, einungis að í samníngum finnist ýms atriði, er bendi á það, er hlutaðeigendur mega álítast að vilja að gilda skuli sín á milli; því hafi hlutaðeigendur ekki nákvæmlega sín á meðal samið um einhver atriði, sem vanalegt er að tilgreina, verður það að álítast, að þeir í því efni hafi viljað halda sèr til þess, sem lögin í þeirri grein ákveða að gilda skuli; en sèu engin lög til, verður að fara eptir því, sem venjan og skynsemin bendir á að gilda eigi í þeim efnum, sem um er að ræða.

Eins og lögin ekki almennt hafa bundið samninga við vissar formur, þannig er það hlutaðeigendum heimilt að koma sèr saman um þá skilmála í samningnum, sem báðum málspörtum þykir bezt henta, einungis mega þeir, eins og áður er getið, ekki koma sèr saman um eða áskilja sèr það, er gagnstætt er lögum, opinberri siðsemi eða almennings gagni.

Að samningurinn eigi megi vera lögum gagnstæður, er einungis að skilja um þau lög, sem eigi má víkja frá, og sem banna eitthvað og leggja við hegningu, ef á móti er brotið, en lýtur öldungis ekki að þeim lögum eða lagásetningum, sem eptir verður að fara, þegar hlutaðeigandi málspartar ekki hafa samið um eitthvað það, sem hnigur að rèttarsambandi þeirra, og sem því koma fram sem skýrandi og upplýsandi samning þann, sem af málspörtum er gjörður. Þegar því skal ráða úr því, hvort lagasetningin sè bindandi eða skýrandi, þarf nákvæmlega að rannsaka orð og atvik þess lagastaðar, sem um er að ræða í hvert skipti. Þó eru mestu líkur fyrir því, að þau lög jafnan sèu skýrandi en eigi bindandi, er lúta að samningum þeim, sem um fjármuni

ræða, enda þótt löggjafinn með tilliti til almennings hagnaðar og velsæmis á stundum hafi öðruvísi fyrir skipað; þannig má sá, er lánað hefir peninga gegn veði í fasteign, að því fyrir er mælt í tilskipun 27. maí 1859, eigi heimta hærri leigu á ári en 4 rd. af hundraði hverju; það er og bannað í tilskipun 25. september 1850 14. gr. að selja eða veðsetja arf þann, er maður á í vændum; eigi má heldur gefa slíkan arf. Það má og ætla að löggjöfin af líkum ástæðum hafi gefið ýmsar bindandi ákvarðanir fyrir landsdrottna gegn leiguliðum þeirra, og má í því efni vísa til Jónsbókarlaga landsleigubálks, tilskipunar 21. marz 1705, 22. júlí 1791, m. fl.

Sè samningur sá, sem gjörður er milli hlutaðeigenda, gagnstæður rètti annars manns, svo sem, ef einhver selur þann hlut, er hann ekki átti, er sá samningur eigi að öllu ógildur, því sje það kaupanda ókunnugt, verður seljandi að greiða honum bætur fyrir svik þau, er hann þannig hefir gjört sig sekann í, svo getur og samningur þessi orðið gildur, ef hinn rètti eigandi þar til gefur sitt samþykki. Eptir Jónsbókar kaupabálks 14. kapítula, kallast það kaupfox, ef maður kaupir það, er hinn átti ekki í, er seldi, nema að þess ráði væri selt, er átti. Sè tveimur seldur hinn sami hlutur, skal hin fyrri sala gilda, en eigi hin síðari: þessi lagasetning er og skýlaust tekin fram í Jónsbókar landsleigubálki 6. kapítula, er svo segir: »Ef maður selur eina jörð tveim mönnum að leigja, þá skal sá hafa, er fyrri tók, og svo skal hvervetna, þar sem maður selur 2 mönnum hið sama, að sá skal hafa, er fyrr kaupir eða leigir»; og kaupabálki 14. kapítula: »Það má eigi haldast, ef maður selur það öðrum, er hann hefir áður

öðrum selt». En sè hinum seinni kaupanda það ókunnugt, að hluturinn sè áður öðrum seldur, er það auðsætt, að hann getur krafizt skaðabóta af seljanda, og má hann þá eptir áðurgreindri lagagrein í landsleigubálki, samanber norsku laga 5.—3.—42., ef jörð er honum seld, kjósa aðra eins góða jörð, ef seljandi á hana til, en sè seljanda það ómögulegt, ber honum að greiða kaupanda auk peninga þeirra, er hann kynni að hafa greitt af jarðarverðinu, jafnmikið og nemur árs landskuld af jörðunni, sem um var samið. Þegar málspartar hafa gjört samning sín á meðal, má hvorugur þeirra af ásettu ráði eða af óaðgætni brjóta gegn því, er ákveðið var, en sje samt brotið gegn því, verður sá hinn sami jafnan að bæta það að fullu, með því líka samningur sá, er gjörður er, leggur hlutaðeigendum þá skyldu á herðar, að efna loforð sitt, og þar af leiðir þá aptur, að sá er vísvitandi eða af óaðgætni ekki efnar það, er hann lofað hefir, verður, ef sá, er loforðið var gefið, krefst þess, að bæta fyrir misbrotið. Þar eð það kann að vera vafa undirorpið, hvaða aðgætni að hlutaðeigandi á við að hafa í samningnum, er það betra og haganlegra að taka það fram greinilega, einkum ef sèrstakrar varkárni og aðgætni á að gæta, því lögin heimta einungis, að sú aðgætni sè við höfð, sem hver reglumaður á að gæta í þeim efnum, sem um er að ræða í hvert skipti, og sem með sannsýni má af hverjum manni heimta. Eins er það og haganlegra, að málspartar tilgreini, hvað mikið hver á að greiða, ef hann annaðhvort vísvitandi eða af óaðgætni, er honum má tilreiknast, gjörir þeim, er hann hefir mök við, einhvern skaða, svo að hann þurfi ekki að sanna að lögum, hve mikið fjártjón hann hafi beðið. Þar eð einungis sá skaði á

almennt að bætast, sem gjörður er vísvitandi eða af ó-aðgætni, eins og áður er getið, þurfa hlutaðeigendur eigi að bæta þann skaða, er fyrir kann að koma af tilviljun eða hendingu; þannig er það með berum orðum tilgreint í Jónsbókar kaupabálki 16. kapítula, að sá sem tekur kýr eða annað búfè á leigu eigi ekki að ábyrgjast þeim, er til leigu selur, fyrir bráðasótt og lungnasótt, kefling eða lambburð, aldri eða lysturreið; þó er í sama bálki 21. kapítula ábyrgð á lánsfè undanþegin frá þessari almennu reglu, því þar segir, að sá skuli lán ábyrgjast, er lèð var, og komi heilu heim, og verður því sá, er lánar, að áskilja sèr, að hann sè undanþeginn reglu þessari, ef hann eigi vill bæta þann hlut, er hann lánað hefir, þó farist af einhverjum ástæðum, er eigi getur handvömm kallazt.

Að öðru leyti getur það í kaupum og sölum verið vafa undirorpið, hvort heldur seljandi eða kaupandi skuli bera þann skaða, sem hluturinn, er seldur er, kann að verða fyrir, frá því kaupsamningur er um hann gjörður, og þangað til hann er afhentur kaupanda í hendur, og er það því bezt, að málspartar í kaupsamningnum ákveði, hvort heldur seljandi eða kaupandi skuli hafa ábyrgð á honum á tímabili þessu, sem hvað fasteignir snertir getur orðið nokkuð langt, með því kaupandi fyrst verður eigandi, þegar hann af seljanda fær löglegt afsalsbrèf fyrir fasteigninni, sem seljandi alment eigi veitir kaupanda, fyr en hann hefir fullnægt söluskilmálunum. En sè nú eigi í kaupsamningnum tekin ákvörðun í þessu efni, hlýtur seljandi sem eigandi að þola skaða þann, sem fasteignina kann af hendingu fyrir að hitta, þangað til hann gefur kaupanda afsalsbrèf og þar með eignarrètt fyrir henni, sem og virðist heimilað

í Jónsbókar landabrigðabálki 7. kapítula, því þar skal seljandi, sem selur land sitt fyrir fardaga eður á miðjum missirum, ábyrgjast land við eldi og skriðum, vötnum og öllum spjöllum til fardaga.

Hver sá, sem selur öðrum manni eignir, kröfur eða önnur réttindi, á að heimila það þeim, er kaupir, svo að hann fái að njóta kaupa sinna. Hafi því sá er seldi af einhverjum ástæðum, svo sem að hann ekki sè eigandi, að hann áður hafi selt öðrum hinn sama hlut, að annar maður hafi honum meiri rètt, brostið heimild til þess að selja fjármuni þá eða annað, er hann lèt af hendi, og því kaupandi ekki fær að njóta þess, er hann keypti, er það auðsætt, að seljandi ekki hefir fullnægt skyldu sinni, og verður, ef andvirðið er goldið, að skila því aptur, og ef það er ógoldið, þegar heimildin brestur, þarf eigi kaupandi að greiða það, og getur þar að auki jafnan krafizt fullra skaðabóta, í hið minnsta hafi seljanda verið kunnugt um óheimild sína á því, er selt var.

Í Jónsbókar kaupabálki 11. kapítula segir og, að selji maður óheimilt, þá skuli það kaup aptur ganga, en hinn er keypti, hafi andvirði sitt. Heimildarskyldan hvílir á öllum þeim, er selja eitthvað til eignar, á leigu, til veðmála, og jafnvel að noskru leyti á þeim, er gefur, að minnsta kosti hafi gefandi gefið eitthvað í sviksamlegum tilgangi, svo sem þjófurinn hið stolna, til þess að losast við það. Það er því haganlegt, að hlutaðeigendur í kaupbrèfum, leigubrèfum og veðskuldabrèfum áskilji sèr vissar tilteknar skaðabætur, ef þann, er selur, skyldi bresta heimild til þess, er hann seldi.

Þar eð það opt getur orðið efunarmál, hvar samningum skal fullnægja, einkum þegar peningar eiga að greiðast, er að láni hafa teknir verið, er það og hyggi-

legast, að staður sá, er fèð skal greiðast á, sè ákveðinn í samningnum; en sè það eigi gjört, virðist það eðlilegast, að skuldunautur greiði lánardrottni peninga þá, er hann hjá honum hefir að láni þegið, á heimili hans, því hafi skuldunautur lofað að borga lánardrottni peningana, er hann ekki sjálfur skyldugur að sækja þá eða vitja þeirra á heimili skuldunauts, nema hann, eptir að lánið er veitt, hafi flutt sig búferlum svo langt frá skuldunaut sínum, að honum veiti örðugar en áður að færa lánardrottni lánsfèð. En sè þar á móti skuldabrèfið þeirrar tegundar, að það eins og vixlarabrèf geti gengið mann frá manni, eður sem ávísanir eigi að borgast allajafnan samstundis og krafizt verður, þannig að sá, er greiða skal, ekki veit, hvar það er niður komið, virðist það eðlilegt, að skuldaheimtumaður sá, er brèfið hefir í hendi á þeim tíma, er skuldin á að greiðast, krefjist borgunar á heimili þess, er greiða skal. Ef skuldunautur ekki býður borgun á fè því, er hann hefir að láni eða á leigu tekið á þeim stað, er hann eptir samningi á að greiða það, hefir hann ekki efnt skuldbindingu sína, og getur þá af því leitt, að hann verði að greiða hærri leigu, en hann að öðrum kosti hefði orðið að lúka; og hafi hann átt að greiða nokkuð af skuld sinni, en boðið borgunina á órèttum stað, getur það leitt til þess, að hann þess vegna verði að greiða hana alla, ef skuldaheimtumaður hefir áskilið sèr í skuldabrèfinu, að svo framarlega, sem nokkuð af skuldinni eigi sè borgað á þann hátt, sem eigi að vera, skuli öll skuldin greiðast þegar í stað, enda þótt hún að öðrum kosti eigi hefði verið fallin til borgunar.

Á stundum er það ákveðið í samningnum, að ef mál rísi út af honum, verði hlutaðeigandi að sæta málssókn

fyrir öðrum dómstóli eða sættanefnd en þeirri, er hann eptir heimili sínu á að mæta fyrir, og er skilmáli þessi lögmætur og heimilaður í norsku laga 1.—2.—17., einungis að sá rèttur, er hlutaðeigendur hafa skuldbundið sig, að mæta fyrir, hafi myndugleika til þess að dæma og skera úr málefni því, er þeir samkvæmt samningnum vilja leggja fyrir hann; þannig hefir skiptarèttur eigi myndugleika til þess að dæma búsins skuldunauta til að greiða það inn í búið, er þeir skulda því, heldur verða þeir að sæta málssókn fyrir almennum rètti, og áður kallast fyrir sættanefnd, nema svo standi á, að sökin geti komið fyrir gestarètt.

Eins og staðurinn, þar sem samningurinn á að uppfyllast, á tilgreindur að vera, þannig ber og að tilgreina tímann, þegar samningurinn er gjörður og eins þegar honum á að fullnægja, þar það getur haft þýðingu í mörgum greinum, þannig getur málssókn fyrst höfðazt, þegar borgunarfresturinn er liðinn, án þess að hlutaðeigandi skuldunautur hafi greitt það, er honum ber að gjalda, eins og líka sá skuldunautur, sem ekki borgar skuld sína á rèttum (tíma) gjalddaga, er skyldur til upp frá þeim degi, er lánardrottinn leitar rèttar síns á löglegan hátt, og þangað til borgun greiðist, að greiða í leigu einum ríkisdal meira af hundraði hverju en um hefir verið samið milli hlutaðeigenda, eins og segir í tilskipun 27. maí 1859.

Stundum eiga samningar og önnur skjöl að lesast á þingum, og gildir um það sú aðalregla, að öll þau skjöl eiga að þinglesast, sem annaðhvort svipta einhvern ráðum yfir fjármunum hans yfir höfuð að tala, eða yfir einstöku hlutum, einkum fasteignum, sem og með berum orðum er boðið í tilskipun 24. apríl 1833, sem

hljóðar um þinglestur afsals- og veðsetningarbrèfa á Íslandi, og sem hèr skal nokkuð um ræða, með því efni þessarar tilskipunar er mjög svo mikilvægt. Enda þótt eignarrètturinn að fasteign gangi yfir á kaupanda, þegar hann af seljanda, eptir að hafa fullnægt honum fyrir andvirði hennar, hefir fengið afsalsbrèf fyrir henni, þá er það að skilja svo, að kaupandi með því öðlast einungis eignarrètt gegn seljanda sjálfum og hans erfingjum, en eigi gegn þriðja manni, sem sè öðrum kaupendum eða veðhafendum í hinni sömu fasteign, og hvað Reykjavík snertir, þar sem 4. gr. í tilskipuu 24. apríl 1833 hefir lögleitt ákvarðanir þær, sem í dönskum lögum og þar tilheyrandi tilskipunum gilda um þinglestur á afsals og veðbrèfum, jafnvel eigi gegn öðrum skuldaheimtumönnum seljanda, sem að því ráða má af opnu brèfi 8. júní 1787 þrátt fyrir það, að afsalsbrèf sè gefið kaupanda fyrir fasteigninni, sem eigi er þinglýst, eptir undangengnum dómi eða sætt geta látið gjöra útlegg á fasteigninni, og selt hana til skuldalúkningar, ef aðrar eigur seljanda eigi skyldu hrökkva fyrir skuldum. Eptir hinu sama opna brèfi getur og kaupandi eða veðhafandi, sem hefir óþinglýst afsals- eða veðbrèf, misst rèttar síns, ef bú seljanda eða veðsetjanda annaðhvort að honum dauðum eða að honum lifandi af skiptarèttinum finnst að vera ónógt fyrir skuldum.

Reyndar virðist það að vera mjög ósanngjarnt, að sá sem búinn er að fá afsalsbrèf fyrir fasteign nokkurri, búinn að borga hana, og ef til vill hefir fengið hana í eignarhald sitt og umráð, skuli svona að öllum kaupum á henni fullgjörðum, verða að missa hana og láta lausa við persónulega skuldaheimtumenn seljanda, einmitt sakir þess, að hann eigi hefir látið þinglýsa af-

salsbrèfi sínu, og þannig verða sviptur eign sinni einungis sakir form-yfirsjónar, en þrátt fyrir þetta hefir lagasetning þessi heimild í hinu áðurgreinda opna brèfi, sè það, hvað Reykjavík snertir, að því ætla má, lögleitt þar með tilskipun 24. apríl 1833.

Til þess að öðlast fullan lagakrapt gegn þriðja manni á því afsals eða veðbrèfið, sè fasteign seld eða veðsett, að lesast á því þingi, þar sem fasteignin heyrir undir. Veðsetji nokkur lausafè, án þess að skila því frá sèr, og það eigi er að álíta sem fast búfè eður innstæða einhverrar jarðar, og því fylgjandi fasteign, á veðsetningarskjalið ætíð að lesast á varnarþingi hans. Hið sama gildir og eptir tilskipun 24. apríl 1833 um þau skjöl, er takmarka eignarráð nokkurs manns yfir fjármunum hans yfir höfuð, en slík skjöl eiga líka að lesast á þeim þingum, þar sem fasteignir hans heyra undir, svo að seinni afhendingar og veðsetningarskjöl eigi geti haft forrètt fyrir þeim. Skjalsins lagakraptur gegn þriðja manni reiknast fyrir utan Reykjavík frá þeim degi, að það er þinglesið, þó skal samkvæmt áður greindri tilskipun, þegar sá, er útvegað hefir nokkurt heimildar- eður veðsetningarskjal, sýnir það sýslumanni til fyrirfarandi bókunar í afsals- og veðbrèfabókina, og fær þar um áteiknun hans og vottorð á sjálft skjalið, svo og síðan lætur lesa það á næstkomandi manntalsþingi, skjalsins lagakraptur að reiknast frá þeim degi, er það þannig var sýnt, svo að það á að hafa forgangsrètt fyrir þeim skjölum, sem undir eins og það fram koma á þingi, og sem annaðhvort öldungis ekki eður seinna á þann hátt, er fyr segir, eru sýnd sýslumanni. Af þessari lagagrein flýtur nú beinlínis, að hið yngra afsals- eða veðsetningarbrèf getur haft forgangsrètt fyrir hinu eldra

í sömu fasteign, hafi hið yngra áður verið þinglesið, hafi það áður en hið eldra verið sýnt hlutaðeigandi embættismanni til undanfarandi bókunar í afsals- og veðbrèfabókina, sè það lesið á hinu í hönd farandi manntalsþingi, sem og hafi hið yngra verið fyrir fram bókað en eigi hið eldra, þó bæði sèu lesin á sama manntalsþingi. Að öðru leyti er þinglesturinn álitinn að ske á sömu tíð, enda þótt eitt skjal lesist nokkru fyrr en hitt, sè það á sama þingdegi eða manntalsþingi, þó þannig, að ekkért skjal, sem eigi afhendist til lesturs fyrr en eptir byrjun þingsins, getur komið til álita gegn því, sem fyrr er af hendi látið.

Í Reykjavík eiga skjöl þau, sem eptir aðalreglu þeirri, er áður er getið, verða að þinglesast, að lesast á þeim reglulegu þingum, er þar haldast á viku hverri, og gilda þar í tilliti til lesturs slíkra skjala, sem að framan er getið, hinar almennu reglur í dönsku lögum og þar tilheyrandi tilskipunum, þannig að það afsals eða veðsetningarskjal, sem lesið er á hinu fyrsta eða öðru þingi, eptir að það er út gefið, hefir lagakrapt gegn þriðja manni frá þeim degi, að það er dagsett; en sè það lesið síðar, það er í ótíma, hefir það lagagildi frá þeim degi að það er lesið á þingi.

Í opnu brèfi frá 28. apríl 1841, sem inniheldur nákvæmari ákvörðun við 4. gr. á tilskipun 24. apríl 1833, er svo fyrir mælt, að þegar einhver á Íslandi afhendir skjal til lesturs á manntalsþingi, sem hann óskar að honum verði strax aptur skilað, eptir hina undanfarandi innteiknun, þá megi slíkt ske með því skilyrði, að hann auk þess að borga þinglýsingarkaup og hálf-procentugjald til konungssjóðs eptir tilskipun 8. febrúar 1810, þegar svo stendur á, að það gjaldast eigi, jafn-

framt og afhendingin skeður, einnig afhendi afrit af skjalinu, sem eptir að vera sannað ókeypis af rèttaranum með hans áteiknun getur beðið til þinglesturs, og eigi þá sú þinglýsing að hafa sama lagakrapt, og sjálfu frumskjalinu hefði verið lýst á þingi; og ber rèttaranum að rita vottorð sitt í þessu efni á frumskjalið, áður því er skilað aptur, sem sömuleiðis á sínum tíma er skyldugur að veita hlutaðeiganda, ef hann þess skyldi óska, ókeypis vottorð sitt um það, að skjalið hafi verið á þingi lesið.

Þegar fullnægja skal samningum ber ýmsra varúðarreglna að gæta, svo að hlutaðeigandi skuldunautur eigi verði fyrir eptirkröfum af hendi rètthafanda. Þannig ber borgunina að greiða rèttum hlutaðeiganda, sem sè rètthafanda sjálfum eða hans umboðsmanni. Sè rètthafandi eigi maður myndugur eða fullveðja, verður skuldanautur að greiða skuld sína fjárráðanda þess, er ómyndugur er, en greiði hann skuld sína hinum ómynduga sjálfum eða þeim, er eigi er fjár síns ráðandi, verður hann, ef þess er krafizt, að greiða hana að nýju. Sè bú rètthafanda tekið til löglegrar skiptameðferðar vegna skulda, verður skuldunautur, ef svo ástendur, að greiða skiptaráðanda skuld sína, því rètthafandi sem eigi fjár síns ráðandi, meðan á skiptum stendur, getur eigi gefið löglega kvittun fyrir búsins kröfum. Skuldunautur verður yfir höfuð að gæta þess, svo að hann eigi verði fyrir eptirkröfum, að skuldin sè greidd rèttum hlutaðeiganda, sem honum getur gefið löglega kvittan fyrir henni.

Sè þar á móti skuldabrèf gefið fyrir skuldinni, er það almennt álitið, að skuldunautur megi greiða skuld sína þeim, er skuldabrèfið hefir í höndum, ef á það í

löglegu formi er ritað vottorð um, að sá hinn sami sè þess eigandi, án þess að það sè í hans ábyrgð, þó vottorð þetta á síðan finnist að vera falsað, sem og án efa virðist að vera rètt álitið, ef skjalið eins og víxlarabrèf eptir eðli þess svo sem peningar er ætlað til þess að ganga manna á milli; en sè skuldabrèfið annars eðlis, virðist skuldunautur sèr til tryggingar, áður hann borgar, með fullum rètti að geta krafizt þess, að sá, sem skuldabrèfið hefir í höndum, sanni að hann sè að því löglegur eigandi, sem og eptir almennum sönnunarreglum virðist að vera skylda hans, með því það og heldur ekki leiðir af grundvallar atriðum þeim, sem nefnd eru í tilskipun 9. febrúar 1798, að skuldunautur í þessu tilfelli sè laus við skuldbindingu sína, ef hann greiðir þeim, sem eptir skuldabrèfinu er þess eigandi, skyldi vottorðið á því þar að lútandi á síðan reynast að vera falsað. Svo ber og skuldunautum að gæta þess, að skuldbindingunni sè fullnægja veitt þannig, að hún sè af hendi greidd í jafnmiklum og góðum aurum og í samningnum er ákveðið, því sè það eigi gjört, hefir skuldunautur eigi efnt skuldbindingu sína. Eins og áður er getið á og skuldunautur, að efna skuldbindingu sína á þeim stað og tíma, sem í samningnum er ákveðið. Lánardrottinn er þannig eigi skyldugur að veita þeirri borgun móttöku, sem boðin er á órèttum stað, sem og eigi áður en skuldin er fallin til borgunar; því eigi, eins og vanalegt er, að greiða vexti af lánsfènu, bíður lánardrottinn af því skaða, nema að skuldanautur bjóði honum lánsfèð með fullum vöxtum til gjalddaga.

Eins og sá, er rèttarkröfu þykist hafa gegn öðrum manni eptir gjörðum samningi, verður að sanna þenna

rètt sinn, svo verður og sá, er fullnægir skuldbindingu þeirri, er á honum liggur, að geta fært næga sönnun fyrir því, að hann hafi henni fullnægju veitt, með því hann að öðrum kosti getur orðið fyrir eptirkröfum. Hvað sönnun þessa snertir, ber einkum þessi tvö atriði að athuga, sem sè, hvaða sönnun geti álitizt nægileg gegn rètthafanda sjálfum og hans erfingjum, og hvers skuldunautur þurfi að gæta, svo að hann verði laus fyrir eptirkröfum af þriðja manns hendi.

Gegn rètthafanda og hans erfingjum getur skuldunautur notað hvers konar sönnun, því í löggjöfinni er slík sönnun eigi neinum vissum formum bundin. Greiði skuldunautur peningaskuld, ber af lánardrottni að krefja skriflegrar kvittunar fyrir greiðslu hennar, og það þótt skuldin sè munnleg, því verið getur, að skuldin samt sem áður hafi verið vottanleg, en engir vottar sèu viðstaddir, þegar hann greiðir lánardrottni hana. Reyndar er slík skrifleg kvittan eigi áreiðanlegt vottorð fyrir því, að skuldin sè greidd, því eins og áður er getið, hvað samningum viðvíkur, er undirskript lánardrottins undir hina gefnu kvittan því að eins óræk sönnun, að hún sè staðfest með vottorði þess embættismanns, sem hefir hin svo nefndu »notarial»störf á hendi, því bæði getur sönnun sú, er í kvittaninni liggur, orðið að engu, ef lánardrottinn með eiði neitar undirskript sinni, og svo geta þeir vottar, er við hafa verið staddir og undir hana hafa skrifað til vitundar, innan skamms dáið, eða farið í fjarska, svo eigi sè hægt í þá að ná. Þar á móti er það eigi ætíð nægilegt til þess að verjast eptirkröfum gegn þriðja manni, þó skuldunautur hafi fengið skriflega kvittan fyrir greiðslu skuldarinnar, því sè skuldabrèf gefið fyrir skuldinni, gildir hin lausa skriflega

kvittán að því fyrir er mælt í tilskipun 9. febrúar 1798 einungis gegn lánardrottni sjálfum, sem hefir hana gefið, en eigi gegn þriðja manni, sem fyrir veðsetningu, sölu eða annari lagaheimild er orðinn rèttur eigandi að skuldabrèfinu; heldur verður það, sem í hvert skipti greiðist af skuldinni, þar að auki að ritast á sjálft skuldabrèfið, sem eins og í ástæðum þessarar tilskipunar með berum orðum er tekið fram, veitir skuldunautnum sjálfum tryggingu, sem þannig á sjálfu skuldabrèfinu hefir næga sönnun fyrir því, er hann borgað hefir, þótt hin lausa skriflega kvittan glataðist, sem og veitir þeim, er kann að taka veð í skuldabrèfinu eða kaupir það, fulla vissu fyrir því, að það hafi jafnmikið gildi, og það sjálft með sèr ber, og þar af leiðir þá aptur, að sá, sem skuldabrèfið hefir í höndum, á hægara með að selja það, eða taka fè að láni fyrir því. Á hinn bóginn er nægilegt að taka lausa skriflega kvittan fyrir greiðslu vaxtanna af peningaupphæð þeirri, er skuldabrèfið hljóðar um. Sè skuldabrèfið að fullu borgað, er það skylda lánardrottins eptir tilskipun 9. febrúar 1798 að selja það skuldunaut í hendur með áritaðri kvittun fyrir greiðslu þess, og í hvert skipti, sem nokkuð greiðist af höfuðstólnum, í viðurvist skuldunauts eða hans umboðsmanns bæði rita það, er greiðist, á sjálft skuldabrèfið, sem og gefa sèrstaka kvittan fyrir því. Gjöri lánardrottinn það ekki, hefir skuldunautur rètt til þess að halda fè því aptur, er hann í votta viðurvist ætlaði að greiða af skuldinni, og þarf eigi af því, er þannig var boðið, að greiða leigur, þangað til lánardrottinn fullnægir þessari skyldu sinni að lögum.

Af þessu, sem nú var sagt, er það auðsætt, að skuldunautur hvorki þarf, nè heldur á að greiða skuld

sína, nema þessum skilmála sè fullnægt, og ber honum því jafnan áður hann borgar, að sjá um það, að skuldabrèfið sè í höndum þess, er við borgun skal taka; en hafi nú skuldaheimtumaður glatað skuldabrèfinu, getur hann eigi eptir því krafizt borgunar, fyr en hann skuldunaut sínum til tryggingar hefir á því náð ómerkingar eða mortificatíónsdómi, og til þessa þarf hann áður að fá konunglegt leyfi, sem heimilar honum með opinberri stefnu að mega innkalla þann eða þá með árs og dags fresti, sem kynnu að hafa slíkt skuldabrèf í höndum, til þess innan þessa frests loka að mæta fyrir ákveðnum rètti, og þar sanna heimild sína til þess, og mæti þá enginn með skuldabrèfið, verður það af rèttinum dæmt ómerkt, og getur þá skuldaheimtumaður fyrst veitt borguninni eptir skuldabrèfinu móttöku, og skuldunautur borgað skuld sína, án þess að hann þá lengur þurfi að óttast fyrir því að verða fyrir eptirkröfum. Hafi skuldunautur gefið út skuldabrèf með veði í fasteign til tryggingar fyrir skuld sinni, sem á þingi hefir lesið verið, verður hann auk þess, sem áður er fyrir mælt í tilskipun 9. febrúar 1798, að gæta þess, að þess í afsals- og veðbrèfabókinni sè getið, og á þingi því, sem hin veðsetta fasteign liggur undir, sè aflýst því, er hann greiðir af skuldabrèfinu, sem og þegar hann hefir það að fullu greitt, svo að eign hans leysist úr því hapti, er á hana hefir lagt verið, og hann því heldur á síðan geti selt hana eða veðsett á ný, ef hann þess skyldi óska.

---

# II.

## Ættir alþingismanna árið 1867 (endir).

—

11. EIRÍKUR ÓLAFSSON KÚLD[1], prestur að Helgafelli; varaþingmaður Barðstrendinga; kona hans Þuríður dóttir Drs. Sveinbjarnar skólameistara Egilssonar og frúr Helgu, dóttur Benidikts yfirdómara Gröndals.

### A. Föðurætt.

#### 1. gr.

1. *Ólafur Sigurðarson* (*Sivertsen*), prófastur og prestur í Flatey, dó 1860, hans faðir
2. *Sigurður Sigurðsson*, seinast á Fjarðarhorni við Hrútafjörð, hans faðir
3. *Sigurður Brandsson*, á Núpi í Haukadal, hans faðir
4. *Brandur Egilsson*, hans faðir
5. *Egill Brandsson* í Miðskógi, hans faðir
6. *Brandur Árnason*, bjó í Miðdölum, hans faðir
7. *Árni Þorvarðarson*, dó hèr um 1619, hans faðir
8. *Þorvarður Pètursson*, hans faðir
9. *Pètur Oddsson*, lifði 1556, hans faðir
10. *Oddur*, hefir lifað fyrir og eptir 1500. Kona Pèturs Oddssonar var dóttir Árna Eiríkssonar frá

1) Alþingismaður Barðstrendinga var Brynjólfur í Flatey Bogasen frá Staðarfelli, bróðir rúðumeistara Benidikts í Stykkishólmi, Jens kaupmanns, er var í Kaupmannahöfn, frúr Hildar, ekkju Bjarna amtmanns Vigfússonar Thorarensens, frúr Solveigar, konu Odds apothekara, frúr Ragnheiðar, konu Marteins konsúls Smiths í Reykjavík, frúr Sigríðar, seinni konu Pèturs biskups, og frúr Jóhönnu Sophíu fyrri konu Jóns yfirdómara Pèturssonar; en Brynjólfur mætti eigi á þinginu 1867.

Fagradal, er var bræðrungur Teits lögmanns Þorleifssonar, og rèttur erfingi hans; en hafði vegið þýzkan mann, að nafni Hans Eten, sjá Árb. Espólíns.

2. gr.

3. *Þórunn Egilsdóttir* hèt kona Sigurðar Brandssonar á Núpi og móðir Sigurðar í Fjarðarhorni, hennar faðir
4. *Egill Egilsson* á Vatni í Haukadal, hans faðir
5. *Egill Sturlaugsson* á Höskuldsstöðum, hans faðir
6. *Sturlaugur Sigmundarson*, hans faðir
7. *Sigmundur Jónsson*, hans faðir
8. *Jón Bjarnasón*, hans faðir
9. *Bjarni Sumarliðason*, á Fellsenda, hans faðir
10. *Sumarliði Jónsson*, hans faðir
11. *Jón Arnbjörnssón*, hans faðir
12. *Arnbjörn Bjarnason*, hans faðir
13. *Bjarni Sumarliðason*, hans faðir
14. *Sumarliði Eiríksson*, hans faðir
15. *Eiríkur Sumarliðason*, hans faðir
16. *Sumarliði* lifði á 14. öld.

3. gr.

2. *Katrín Þorvaldsdóttir*, hèt kona Sigurðar á Fjarðarhorni og móðir Ólafs prófasts, hennar faðir
3. *Þorvaldur Jónsson* á Þingvöllum, hans faðir
4. *Jón Bergsson* á Dröngum, hans faðir
5. *Bergur Tómásson* á Akri í Hvammssveit, hans faðir
6. *Tómás Þorsteinsson*, hans faðir

7. *Þorsteinn Oddsson*, prestur í Skarðsþingum, dó 1645, hans faðir
8. *Oddur Þorsteinsson*, prestur í Tröllatungu, hans faðir
9. *Þorsteinn Guðmundsson* leikari, 3. maður Þórunnar Jónsdóttur biskups Arasonar; var síra Oddur laungetinn. Faðir Þorsteins var
10. *Guðmundur Andrèsson* á Felli í Kollafirði, sjá ætt Bergs amtmanns 2. gr. nr. 11, I. B. síðu 21.

4. gr.

3. *Guðný Oddsdóttir* hèt kona Þorvaldar á Þingvöllum og móðir Katrínar, hennar faðir
4. *Oddur Arngrímsson* kom að norðan, hans faðir
5. *Arngrímur Tómásson*.

B. Móðurætt.

5. gr.

1. *Jóhanna Eyólfsdóttir* hèt kona Ólafs prófasts og móðir síra Eiríks Külds; hún var systir Friðriks Eyólfssonar, föður Haldórs skólakennara Friðrikssonar; sjá ætt hans 1. gr. nr. 1, I. B. síðu 28. Það er annars sennilegt, er nokkrir telja, að Kolbeinn faðir Þorsteins föður síra Kolbeins í Miðdal, hafi verið hinn nafnkunni koparsmiður, er steypti fyrstur kopar í flöskum syðra, steypti hann koparhjálminn mikla á Hólum fyrir Gísla biskup Þorláksson; tíminn stendur heima, og þeir voru báðir í Borgarfirði Þorsteinn og Kolbeinn þessi, bróðir Kolbeins koparsmiðs hèt Eyólfur, en þeirra faðir var Bjarni Eyólfsson bróðir síra Ásmundar gamla Eyólfs-

sonar á Breiðabólstað á Skógarströnd, sjá ætt Pèturs biskups 5. gr. nr. 5, I. B. síðu 16.

—

12. JÓN SIGURÐSSON, skjalavörður, riddari «Dannebrogs» orðunnar, alþingismaður Ísfirðinga; kona hans Ingibjörg Einarsdóttir frá Reykjavík og Ingveldar Japhetsdóttur, eru þau hjón bræðrabörn.

A. Föðurætt.

1. gr.

1. *Sigurður Jónsson*, prófastur á Rafnseyri, dó 1855, hans faðir
2. *Jón Sigurðsson*, prestur á Rafnseyri, dó 1821, hans faðir
3. *Sigurður Ásmundsson*, í Ásgarði eystra, fæddur 1708, hans faðir
4. *Ásmundur Sigurðsson*, í Ásgarði, hans faðir
5. *Sigurður Guðnason*, á Snjallsteinshöfða, hans faðir
6. *Guðni Sigurðsson*, hans faðir
7. *Sigurður Guðnason*, hans faðir
8. *Guðni Eyríksson* í Klofa, hans faðir
9. *Fyríkur Torfason* í Klofa, hans faðir
10. *Torfi Jónsson*, sýslumaður í Klofa, hans faðir
11. *Jón Ólafsson* í Klofa, hans faðir
12. *Ólafur Loptsson*, hans faðir
13. *Loptur Guttormsson* ríki, sjá ætt Pèturs biskups 8. gr. nr. 12, I. B. síðu 19.

Í ætt þessari er það nokkrum vafa undirorpið, hvort Guðni, faðir Sigurðar, föður Ásmundar í Ásgarði, hafi verið kominn langfeðgum frá Eyríki Torfasyni, sem hèr er talið, og er það eptir Espólín, er álítur þetta rèttast.

Aðrir þar á móti telja Guðna þenna Jónsson, og segja sumir að hann hafi verið sonarsonur, en aðrir sonur síra Jóns í Kálfholti Stephánssonar prests í Odda Gíslasonar biskups Jónssonar.

2. gr.

3. *Guðrún Ívarsdóttir* hét kona Sigurðar í Ásgarði, og móðir síra Jóns á Hrafnseyri, hennar faðir
4. *Ívar Bergsteinsson,* hans faðir
5. *Bergsteinn blindi Ólafsson,* hans faðir
6. *Ólafur Björnsson* í Marteinstungu, hans faðir
7. *Björn Þorleifsson* á Keldum, hans faðir
8. *Þorleifur Pálsson,* lögmaður á Skarði, dó 1560, hans faðir
9. *Páll Jónsson* á Skarði, hans faðir
10. *Jón Ásgeirsson* á Kirkjubóli í Langadal, hans faðir
11. *Ásgeir Árnason,* hans faðir
12. *Árni,* virðist að hafa lifað fyrir norðan í Eyjafirði.

3. gr.

2. *Ingibjörg Ólafsdóttir* hét kona síra Jóns á Rafnseyri og móðir síra Sigurðar, hennar faðir
3. *Ólafur Jónsson,* lögsagnari á Eyri í Seyðisfirði, dó 1762, hans faðir
4. *Jón Sigurðsson* í Vigri, hans faðir
5. *Sigurður Jónsson* á Vestfjörðum, hans faðir
6. *Jón Einarsson,* hans faðir
7. *Einar Gíslason* í Stóruhvestu.

4. gr.

3. *Guðrún Árnadóttir* hét kona Ólafs á Eyri og móðir Ingibjargar, hennar faðir

4. *Árni Jónsson*, prestur í Hvítadal, hans faðir
5. *Jón Loptsson*, prestur í Belgsdal, dó 1710, hans faðir
6. *Loptur Árnason* í Sælingsdal, hans faðir
7. *Árni Loptsson* í Sælingsdal, hans faðir
8. *Loptur Pètursson*, prestr í Vesturhópshólum, hans faðir
9. *Pètur Loptsson* á Staðarhóli, sjá ætt Pèturs biskups 8. gr. nr. 9. I. B. síðu 19.

## B. Móðurætt.

### 5. gr.

1. *Þórdís Jónsdóttir*, kona síra Sigurðar, hennar faðir
2. *Jón Ásgeirsson*, prófastur á Holti í Önundarfirði, dó 1810, hans faðir
3. *Ásgeir Bjarnason*, prestur á Mýrum, dó 1772, hans faðir
4. *Bjarni Guðmundsson*, kapellán föður síns, dó 1707, hans faðir
5. *Guðmundur Bjarnason*, prestur í Árnanesi, dó 1706, hans faðir
6. *Bjarni Guðmundsson*, á Kletti í Kollafirði, hans faðir
7. *Guðmundur Jónsson*, prestur á Stað á Reykjanesi, dó 1619, hans faðir
8. *Jón Þorleifsson*, officialis í Gufudal, dó 1580, hans faðir
9. *Þorleifur Guðmundsson* í Þykkvaskógi, dó 1536, hans faðir
10. *Guðmundur Andrèsson* á Felli í Kollafirði, sjá ætt Bergs amtmanns 2. gr. nr. 11, I. B. síðu 21.

### 6. gr.

3. *Þórdís Jónsdóttir*, hèt kona síra Ásgeirs Bjarnasonar og móðir síra Jóns, hennar faðir

4. *Jón Sigmundsson* í Veiðileysu, hans faðir
5. *Sigmundur Guðmundsson* í Hvítadal, hans faðir
6. *Guðmundur Árnason,* hans faðir
7. *Árni Loptsson* í Sælingsdal, sjá 4. gr., nr. 7 að framan.

7. gr.

2. *Þorkatla Magnúsdóttir* hèt kona síra Jóns Árgeirssonar og móðir Þórdísar; hennar faðir
3. *Magnús Snæbjörnsson,* prófastur á Söndum í Dýrafirði, dó 1783, hans faðir
4. *Snæbjörn Pálsson* á Sæbóli á Ingjaldssandi (Málasnæbjörn) lögrèttumaður, dó 1767, hans faðir
5. *Páll Torfason,* sýslumaður á Núpi í Dýrafirði, dó 1720, hans faðir
6. *Torfi Snæbjörnsson,* prestur á Kirkjubóli, dó 1668, hans faðir
7. *Snæbjörn Torfason,* prófastur á Kirkjubóli, hans faðir
8. *Torfi Jónsson,* sýslumaður á Kirkjubóli í Langadal, hans faðir
9. *Jón Ólafsson,* sýslumaður í Hjarðardal, hans faðir
10. *Ólafur Guðmundsson* í Þernuvík, hans faðir
11. *Guðmundur Þórðarson* í Skötufirði.

8. gr.

3. *Helga Jónsdóttir* hèt kona síra Magnúsar og móðir Þorkötlu, hennar faðir
4. *Jón Tómásson,* prestur á Söndum í Dýrafirði, dó 1707, hans faðir
5. *Tómás Bjarnason,* lögrèttumaður á Bakka í Svarfaðardal, hans faðir

6. *Bjarni Ólafsson* á Steinum í Svartárdal, hans faðir
7. *Ólafur Tómásson* á Hallgrímsstöðum, dó 1595, hans faðir
8. *Tómás Eiríksson,* prestur á Mælifelli. Þóra Ólafsdóttir móðir Ólafs á Hafgrímsstöðum var dóttir Helgu Sigurðardóttur, er seinna varð barnamóðir Jóns biskups Arasonar.

---

13. TORFI EINARSSON, hreppstjóri á Kleyfum á Selströnd, alþingismaður Strandasýslu; kona hans Anna Einarsdóttir hreppstjóra frá Fagranesi, norðan úr Þingeyarþingi.

Föðurætt.

1. gr.

1. *Einar Jónsson* á Kollafjarðarnesi, dannebrogsmaður, hans faðir
2. *Jón Brynjólfsson* í Miðdalsgröf, hans faðir
3. *Brynjólfur Guðmundsson* á Heydalsá, hans faðir
4. *Guðmundur Snorrason,* hans faðir
5. *Snorri Ásgeirsson,* prestur í Tröllatungu, dó 1717, hans faðir
6. *Ásgeir Einarsson,* prestur í Tröllatungu, dó 1702, aðrir segja 1706, hans faðir
7. *Einar Sigurðsson,* prestur á Stað í Steingrímsfirði, dó 1670, hans faðir
8. *Sigurður Einarsson,* prestur á Breiðabólstað í Fljótshlíð, albróðir Odds biskups Einarssonar, dó 1634, hans faðir
9. *Einar Sigurðsson,* prestur í Eydölum, dó 1626, hans faðir

10. *Sigurður Þorsteinsson*, prestur seinast í Grímsey, hans faðir
11. *Þorsteinn Þóreyarson*, en faðir almennt álitinn
12. *Nikulás Þormóðsson*, prior á Möðruvöllum. Frá síra Einari í Eydölum er komin Eydalaætt, og hefir það verið góð ætt.

2. gr.

3. *Húnbjörg Arnfinnsdóttir* hèt kona Brynjólfs, og móðir Jóns í Miðdalsgröf, hennar faðir
4. *Arnfinnur Teitsson*, hans faðir
5. *Teitur Einarsson*, prestur í Bytruþingum, dó 1695, hann var bróðir síra Ásgeirs Einarssonar í Tröllatungu, sjá hèr að framan 1. gr., nr. 6.

3. gr.

2. *Þuríður Ólafsdóttir* hèt kona Jóns í Miðdalsgröf, og móðir Einars á Kollafjarðarnesi, hennar faðir
3. *Ólafur Bjarnason*. Þuríður var systir Eggerts, er var lengi í Hergilsey.

4. gr.

3. *Steinunn Gunnarsdóttir* hèt kona Ólafs og móðir Þuríðar.

Móðurætt.

5. gr.

1. *Þórdís Guðmundsdóttir* hèt kona Einars og móðir Torfa, hennar faðir
2. *Guðmundur Torfason*, smiður á Seljum, síðar á Ámýrum, hans faðir
3. *Torfi Þorleifsson* á Rauðamel, smiður, hans faðir

4. *Þorleifur Þórðarson* á Höfða í Eyjahreppi, hans faðir
5. *Þórður Gíslason* á Höfða í Eyjahreppi, hans faðir
6. *Gísli Þórðarson*, hans faðir
7. *Þórður Þorleifsson*, hans faðir
8. *Þorleifur Bjarnason*, hans faðir
9. *Bjarni Þorleifsson*, hans faðir
10. *Þorleifur Guðmundsson* í Þykkvaskógi, hans faðir
11. *Guðmundur Andrèsson* á Felli í Kollafirði, sjá ætt Bergs amtmanns 2. gr. nr. 11, I. B. síðu 21.

6. gr.

3. *Þórdís Guðmundsdóttir* hèt kona Torfa smiðs og móðir Guðmundar á Ámýrum, hennar faðir
4. *Guðmundur*, var á Rauðamel.

7. gr.

2. *Guðbjörg Jónsdóttir* hèt kona Guðmundar smiðs Torfasonar og móðir Þórdísar á Kollafjarðarnesi, hennar faðir
3. *Jón Bergsson* á Dröngum, sjá ætt síra Eiríks Kúlds hèr að framan 3. gr. nr. 4.

8. gr.

3. *Guðbjörg Jónsdóttir* hèt kona Jóns á Dröngum, og móður móðir Þórdísar á Kollafjarðarnesi, hennar faðir
4. *Jón Jónsson* í Höskuldsey, hans faðir
5. *Jón Haldórsson* í Höskuldsey, hans faðir
6. *Haldór Þórðarson*.

—

14. JÓN BJARNASON í Ólafsdal, þingmaður Dalamanna, hans kona Anna Magnúsdóttir prests frá Glaumbæ og Sigríðar Haldórsdóttur Vídalíns frá Reynistað.

A. Föðurætt.

1. gr.

1. *Bjarni Þorleifsson* á Reynistað, hans faðir
2. *Þorleifur Kársson* á Hvammi í Fljótum, hans faðir
3. *Kár Jónsson,* hans kona var dóttir Gunnars á Á; en faðir Kárs var
4. *Jón Kársson*, hans faðir
5. *Kár Bergþórsson,* hans faðir
6. *Bergþór Sæmundsson*, dó 1647, hans faðir
7. *Sæmundur Kársson*, prestur í Glaumbæ, dó 163S, hans faðir
8. *Kár Sæmundsson,* hans faðir
9. *Sæmundur Símonarson*, lögsagnari í Eyafirði.

2. gr.

2. *Ólöf Jónsdóttir* hèt kona Þorleifs og móðir Bjarna, hennar faðir
3. *Jón Jónsson*, hans faðir
4. *Jón Oddason* á Siglunesi, hans faðir
5. *Oddi Jónsson* í Hvammi, hans faðir
6. *Jón Þorleifsson* á Fossi hjá Skeyði, hans faðir
7. *Þorleifur*, prestur á Hnappstöðum.

Jón Þorleifsson er talinn bróðir Pèturs, föður Þóru, er Þorsteinn Eiríksson (Kárssonar, því nokkrir telja Eirík þann Kársson) átti, sjá ætt Pèturs biskups, 4. gr. nr. 6, I. B. bls. 16.

B. Móðurætt.

3. gr.

1. *Sigríður Þorleifsdóttir,* kona Bjarna, hennar faðir
2. *Þorleifur Jónsson* elzti, á Siglunesi, hans faðir
3. *Jón Oddason,* áður nefndur.

4. gr.

3. *Guðríður Andrèsdóttir* hèt kona Jóns Oddasonar og móðir Þorleifs, hennar faðir
4. *Andrès* á Brúnastöðum.

5. gr.

2. *Ölöf Ólafsdóttir,* kona Þorleifs Jónssonar og móðir Sigríðar; hennar faðir
3. *Ólafur Pètursson,* hans faðir
4. *Pètur Þorsteinsson* á Stórubrekku, bróðir Eiríks Þorsteinssonar, sjá ætt Pèturs biskups, 4. gr., nr. 4, bls. 16.

6. gr.

3. *Guðrún Jónsdóttir* hèt kona Ólafs Pèturssonar og móðir Ólafar, hennar faðir
4. *Jón Arnórsson* á Brimnesi í Viðvíkursveit, hans faðir
5. *Arnór Þorsteinsson,* hann var bróðir þeirra Pèturs og Eiríks, sem fyr voru nefndir.

---

15. PÁLL JÓNSSON VÍDALÍN á Víðidalstungu, stúdent, alþingismaður Húnvetninga; kona hans Elinborg Friðriksdóttir, systir frúr Sigþrúðar, konu Jóns yfirdómara Pèturssonar, sjá 1. B. síðu 28.

## A. Föðurætt.

### 1. gr.

1. *Jón Friðriksson Thorarensen*, stúdent í Víðidalstungu, hans faðir
2. *Friðrik Þórarinsson*, prestur á Breiðabólstað í Vesturhópi, dó 1817, hans faðir
3. *Þórarinn Jónsson*, sýslumaður á Grund í Eyjafirði, dó 1767, bróðir frúr Málmfríðar, konu Sveins lögmanns Sölfasonar, sjá ætt Pèturs Guðjónssonar 8. gr. nr. 3, 2. B. síðu 31.

Þau systkini Þórarinn og Málmfríður voru langfeðgum komin af síra Sveini á Barði, sem þar segir. Síra Sveinn átti tvo bræður, er báðir hètu Guðmundar; var annar þeirra á Þóroddsstöðum í Ólafsfirði, en hinn á Siglunesi; það mun vera rèttara, sem og sumstaðar segir, að síra Ólafur á Hrafnagili, afi Ólafs stiptamtmanns, hafi verið sonur Guðmundar á Siglunesi, en hitt, sem sagt er í ætt síra Stefáns í Kálfholti 5. gr. nr. 6, 2. B síðu 26, að hann hafi verið sonur Guðmundar á Þóroddsstöðum; en sonur Guðmundar á Þóroddsstöðum var þar á móti Sveinn Fljótaráðsmaður, faðir Guðrúnar konu Eiríks Þorsteinssonar á Brekku í Fljótum, og þeirra dóttir var Ingiríður Eiríksdóttir, amma Pèturs prófasts á Víðivöllum, sjá ætt Pèturs biskups 4. gr. nr. 4, 2 B. síðu 16. Jón faðir síra Sveins, og faðir Jóns, Guðmundur, er telst að hafa verið Jónsson, eru víða kallaðir prestar og sagt, að þeir hafi verið á Siglunesi, en það er nær mèr að halda, að hvorigur þeirra hafi prestur verið; Jón bjó fyrst á Lambanesi í Fljót-

um, en flutti sig þaðan að Siglunesi, og eg tel óvíst, að Guðmundur faðir hans hafi nokkurn tíma verið á Siglunesi. Það virðist sem menn á seinni tímum hafi blandað Jóni Guðmundssyni föður síra Sveins, saman við síra Jón Guðmundsson, er prestur varð 1611 á Siglunesi og kallaður var Hettujón, en Guðmundur faðir þess síra Jóns var á Siglunesi; börn þessa síra Jóns Guðmundssonar voru meðal annara síra Björn, er prestur varð á Hvanneyri eptir föður sinn, og Steinunn, er Guðmundur á Lóni í Viðvíkur sveit átti, og þeirra son var Steingrímur, sjá ætt Ólafs prófasts Pálssonar, 3. gr. nr. 7, 1. B, síðu 31., er margar góðar ættir eru frá komnar.

Síra Sveinn kvað, þegar hann var kominn á níræðisaldur, sálm eptir föður sinn, er byrjar þannig: «Jón Guðmundsson í guði genginn er heimi frá«.

2. gr.

3. *Sigríður Stefánsdóttir*, var kona Þórarins sýslumanns, og móðir síra Friðriks, hún var systir Ólafs stiptamtmanns, sjá ætt síra Stefáns í Kálfholti, 5. gr. nr. 3, 2. B. síðu 26.

3. gr.

2. *Hólmfríður Jónsdóttir* hèt kona síra Friðriks og móðir Jóns í Víðidalstungu, hennar faðir

3. *Jón Ólafsson*, vícilögmaður, bjó seinast í Víðidalstungu, dó 1777; hann var bróðir Ingibjargar, konu síra Jóns á Rafnseyri og móður síra Sig-

urðar, sjá ætt Jóns riddara Sigurðssonar hèr að framan 3. gr. nr. 2, og bróðir Solveigar, móður Jarðþrúðar á Staðarfelli, móður Brynjólfs í Flatey og þeirra systkina, sjá neðanmálsgrein hèr að framan, bls. 28.

4. gr.

3. *Þorbjörg Bjarnadóttir*, hèt kona Jóns lögmanns Ólafssonar og móðir Hólmfríðar, hennar faðir
4. *Bjarni Haldórsson*, sýslumaður á Þingeyrum, hann var bróðir síra Sigvalda á Húsafelli, sjá ætt síra Arnljóts Ólafssonar 5. gr. nr. 3. 2. B, bls. 34.

B. Móðurætt.

5. gr.

1. *Kristín Jónsdóttir*, kona Jóns í Víðidalstungu, hennar faðir
2. *Jón Jónsson*, prestur á Gilsbakka, dó 1796; hann var bróðir Arndísar, konu síra Kolbeins á Miðdal, sjá ætt Haldórs Friðrikssonar, 2. gr. nr. 3, 2 B, bls. 28.

6. gr.

3. *Guðrún Þórðardóttir* hèt móðir síra Jóns á Gilsbakka og Arndísar, hennar faðir
4. *Þórður Guðlaugsson* á Hvalgröfum, hans faðir
5. *Guðlaugur Þorgeirsson*, hans faðir
6. *Þorgeir Snorrason* í Bár.

7. gr.

2. *Ragnheiður Jónsdóttir* hèt kona síra Jóns á Gilsbakka og móðir Kristínar í Víðidalstungu, hennar faðir

3. *Jón Sigurðsson*, prestur á Hvammi í Norðurárdal dó 1780, hans faðir
4. *Sigurður Jónsson*, sýslumaður á Hvítárvöllum, dó 1761, hann var bróðir síra Jóns í Stafholti, föður Jóns sýslumanns á Móeiðarhvoli, sjá ætt Hilmars stiptamtmanns 3. gr. nr. 4, 1. B. bls. 12.

8. gr.

3. *Kristín Eggertsdóttir* hèt kona síra Jóns í Hvammi, og móðir Ragnheiðar á Gilsbakka, hennar faðir
4. *Eggert Guðmundsson* á Alptanesi á Mýrum, hans faðir
5. *Guðmundur Sigurðsson* í Einarsnesi, dó 1693, hann var bróðir Jóns Sigurðssonar sýslumanns í Mýrasýslu, sjá ætt Hilmars stiptamtmanns 3. gr. nr. 5, 1. B, bls. 12.

Kona Bjarna sýslamanns Haldórssonar var Hólmfríður dóttir Páls lögmanns Vídalíns, er að langfeðgum var kominn frá Guðbrandi biskupi, en móðurfaðir Guðbrandar biskups var Jón lögmaður Sigmundsson, en móðir Jóns var Solveig dóttir Þorleifs Árnasonar í Auðbrekku; Þorleifur, er lifði um 1400, átti Víðidalstungu, og héfir sú jörð einlægt haldist í ætt hans; sumir telja og, að Þorleifur hafi verið kominn af Gissuri Galla, er fæddist árið eptir að Gissur jarl dó, og bjó í Víðidalstungu og átti hana; var síðan Víðidalstunga í ætt Gissurar, og af afkomendum hans eignaðist Þorleifur hana. Víðidalstunga er sú jörð, sem lengst hefir haldist í ættum, það eg veit, og hefir öll sú grein

af ætt Þorleifs verið merkisfólk, er átt hefir þessa jörð.

—

16. ÓLAFUR SIGURÐSSON, bóndi á Ási í Hegranesi, nú Reynistaðar klausturs haldari, alþingismaður Skagfirðinga. Hans kona Sigurlaug Gunnarsdóttir frá Skíðastöðum.

A. Föðurætt.

1. gr.

1. *Sigurður Pètursson*, hreppstjóri á Ási í Hegranesi, hans faðir
2. *Pètur Björnsson* á Ási í Hegranesi, hans faðir
3. *Björn Jónsson* á Ási í Hegranesi, hans faðir
4. *Jón Björnsson* á Ási í Hegranesi, hans faðir
5. *Björn* í Bakkakoti í Skagafjarðardölum, dó í stórubólu.

2. gr.

3. *Margrèt Sigurðardóttir* hèt kona Björns og móðir Pèturs í Ási: hún var systir þeirra Erlendar og Bjarna á Syðribrekkum, þeirra faðir
4. *Sigurður Jónsson*, hans faðir
5. *Jón*, á Hofdölum og Ytribrekkum, en eptir því, er sumir segja, á hann að hafa búið í Viðvík, og hans faðir verið
6. *Jón Bjarnason*, hans faðir
7. *Bjarni Hrólfsson*, er faðir hans kallaði góða Bjarna, hann var bróðir Sigurðar Hrólfssonar, sjá ætt Pèturs biskups 7. gr. Nr. 6. I. B. bls. 18.

3. gr.

2. *Ingibjörg Sigurðardóttir* hèt kona Pèturs og móðir Sigurðar, hennar faðir
3. *Sigurður Gunnarsson* á Sæfarlandi, hans faðir
4. *Gunnar Jónsson* á Hvalsnesi á Skaga;
kona Gunnars og móðir Sigurðar hèt Steinunn, hennar móðir Málmfríðar dóttir Jóns Bjarnasonar Hrólfssonar; þau hjónin Pètur og Ingibjörg hafa því verið fjórmenningar.

4. gr.

3. *Þórunn Ólafsdóttir* hèt kona Sigurðar Gunnarssonar og móðir Ingibjargar, hennar faðir
4. *Ólafur Þorsteinsson* á Efranesi á Skaga.

B. Móðurætt.

5. gr.

1. *Þórunn Ólafsdóttir* kona Sigurðar í Ási, hennar faðir
2. *Ólafur Sigurðsson* á Vindhæli, hann var bróðir Ingibjargar konu Pèturs á Ási; voru þau hjónin Sigurður Pètursson og Þórunn því systkinabörn.

6. gr.

2. *Rannveig Sigurðardóttir* hèt kona Ólafs á Vindhæli og móðir Þórunnar, hennar faðir
3. *Sigurður Guðmundsson* á Skefilsstöðum, hennar faðir
4. *Guðmundur Jónsson*, hans faðir
5. *Jón Sigurðsson* á Bakka í Skagafirði, hans faðir
6. *Sigurður Jónsson*, lögrèttumaður á Ási í Hegranesi, dó 1689, hans faðir
7. *Jón Teitsson*, hans faðir

8. *Teitur Björnsson* á Holtastöðum, hann var bróðir Magnúsar Björnssonar á Hofi á Höfðaströnd, sjá ætt Drs. Jóns Hjaltalíns 1. gr. nr. 8, 1. B, bls. 25.

7. gr.

3. *Haldóra Jónsdóttir* hèt kona Sigurðar Guðmundssonar og móðir Rannveigar, hennar faðir
4. *Jón Jónsson* á Veðramóti, hans faðir
5. *Jón Sigurðsson* á Veðramóti, hans faðir
6. *Sigurður Haldórsson* á Efranesi á Skaga, hans faðir
7. *Haldór Benidiktsson* á Efranesi, hans faðir
8. *Benidikt Einarsson* á Selnesi, hans faðir
9. *Einar* á Meyarlandi.

—

17. STEFÁN JÓNSSON á Steinsstöðum í Yxnadal, umboðshaldari, alþingismaður Eyfirðinga. Hans fyrri kona var Sigríður Árnadóttir Árnasonar umboðsmanns og hreppstjóra á Syðrireistará; hin síðari er Rannveig Hallgrímsdóttir prests Þorsteinssonar, systir Jónasar skálds Hallgrímssonar.

A. Föðurætt.

1. gr.

1. *Jón Jónsson,* hreppstjóri í Lögmannshlíð, hans faðir
2. *Jón Jónsson* á Hlöðum, hans faðir
3. *Jón Rögnvaldsson,* á Djúpárbakka, hans faðir
4. Rögnvaldur Jónsson á Yxnhóli, hans faðir
5. *Jón Rögnvaldsson* á Krossum, hans faðir
6. *Rögnvaldur Jónsson* á Krossum, hans faðir
7. *Jón Þorgeirsson* á Krossum, hann var bróðir Steins

Þorgeirssonar, sjá ætt síra Arnljóts 3. gr., nr. 8, 2. B, síðu 34, ætt þessi kallast Þorgeirs ætt.

2. gr.

3. *Svanhildur Jónsdóttir* hèt kona Jóns Rögnvaldssonar og móðir Jóns á Hlöðum.

3. gr.

2. *Guðrún Jónsdóttir* hèt kona Jóns á Hlöðum og móðir Jóns hreppstjóra í Lögmannshlíð, hennar faðir
3. *Jón Sigurðsson.*

B. Móðurætt.

4. gr.

1. *Þórey Stefánsdóttir* kona Jóns í Lögmannshlíð, hennar faðir
2. *Stefán Jónsson* á Guðrúnarstöðum og Litlahóli, hans faðir
3. *Jón Stefánsson* í Staðartungu.

5. gr.

3. *Þorbjörg Ásmundsdóttir* hèt kona Jóns Stefánssonar og móðir Stefáns á Guðrúnarstöðum, hennar faðir
4. *Ásmundur Árnasan* í Lögmannshlíð, umboðsmaður Hólastólsjarða, hans faðir
5. *Árni Haldórsson* á Skarði í Laufássókn, hans faðir
6. *Haldór,* bóndi á Hróastöðum í Fnjóskadal. Þorbjörg Ásmundsdóttir er sögð systir Jóns Ásmundssonar, föður Ásmundar á Silfrastöðum, föður Tómásar á Steinstöðum, er var fyrri maður Rannveigar, seinni konu Stefáns alþingism.

6. gr.

2. *Þórunn Jónsdóttir* hèt kona Stefáns á Guðrúnarstöðum og móðir Þóreyar, hennar faðir
3. *Jón Jónsson,* hreppstjóri á Litlahóli, kona hans og móðir Þórunnar hèt Þórey, hans faðir
4. *Jón Jónsson* á Steðja, hann var bróðir Bessa forföður Pèturs organsleikara Guðjónssonar, sjá ætt Pèturs 3. gr. nr. 4, 2. B, bls. 30. Faðir Jóns og Bessa var
5. *Jón Árnason* í Hölastekk í Eyjafirði, en svo voru þeir bræður komnir af Kolbeini á Uppsölum, að móðir þeirra Þórunn, og kona Jóns þessa Árnasonar, var dóttir Kolbeins.

—

18. JÓN SIGURÐSSON á Gautlöndum, dannebrogsmaður, alþingismaður Vestur-Þingeyinga; kona hans Solveig Jónsdóttir prests frá Reykjahlíð Þorsteinssonar.

A. Föðurætt.

1. gr.

1. *Sigurður Jónsson* á Gautlöndum, hans faðir
2. *Jón Jónsson* á Mýri í Bárðardal, hans faðir
3. *Jón Haldórsson*, hans faðir
4. *Haldór Ingjaldsson* á Lundarbrekku, hans faðir
5. *Ingjaldur Jónsson* á Kálfarströnd, hans faðir
6. *Jón Einarsson* í Presthvammi, hans faðir
7. *Einar Nikulásson*, prestur á Skinnastöðum, dó 1699, hans faðir
8. *Nikulás Einarsson* á Hèðinshöfða, hans faðir
9. *Einar Nikulásson*, hans faðir
10. *Nikulás Þorsteinsson* á Hèðinshöfða, hans faðir

11. *Þorsteinn Finnbogason* í Reykjahlíð, hans faðir
12. *Finnbogi Jónsson*, lögmaður, hans faðir
13. *Jón Pálsson*, officialis á Grenjaðarstöðum, dó 1471.
Nokkrir segja að Jón Einarsson í Presthvammi hafi verið bróðir Jóns höfuðsmanns á Oddstöðum, og telja hann eigi meðal barna síra Einars; en Jón höfuðsmaður var Jónsson, svo það getur eigi verið rètt. Espólín segir að næsta fólk Jóns í Presthvammi hafi verið mjög stórmannlegt. Það er almennt talið svo, að síra Jón Pálsson á Grenjaðarstöðum hafi verið bróðir Ingibjargar, konu Lopts ríka Guttormssonar, en hún var dóttir Páls á Eyðum Þorvarðarsonar; Páll var hirðstjóra umboðsmaður og dó 1403; en Þorvarður faðir hans hefir annaðhvort verið sonur, sonarson eða dótturson herra Þorvarðar Þórarinssonar, er dó 1296, og kominn var að langfeðgum frá fornkonungum. Af máldaga Eyðakirkju er það ljóst, að búið hafa á Eyðum, hver eptir annan, *Karl Arnórsson*, svo *Þorvarður*, og síðan *Páll*, og hefir þá Karl þessi annaðhvort átt dóttur Þorvarðar Þórarinssonar, og Þorvarður ýngri verið son þeirra, eða Karl hefir haft umboð Þorvarðar ýngra hafi hann verið son eða sonarson Þorvarðar hins eldra, meðan Þorvarður var í ómegð. Annars kynni það vera nokkuð aðgæzluvert, hvort síra Jón Pálsson og Ingibjörg kona Lopts hafi verið systkini; hafi svo verið, þá hafa þau Sveinn Sumarliðason og kona hans, er var dóttir Finnboga lögmanns, verið þriðja og fjórða, og hefðu þau þá eigi mátt eigast án leyfis.

2. gr.

2. *Herdís Ingjaldsdóttir* hèt kona Jóns á Mýri og móðir Sigurðar, hennar faðir
3. *Ingjaldur Jónsson* á Grænavatni, hans faðir
4. *Jón Ingjaldsson* á Grænavatni, hann var bróðir Haldórs á Lundarbrekku, sjá ættina hèr að framan.

B. Móðurætt.

3. gr.

1. *Kristjana Aradóttir,* s. k. Sigurðar á Gautlöndum, hennar faðir.
2. *Ari Ólafsson,* trjásmiður á Skútustöðum, hans faðir
3. *Ólafur Þorláksson,* hans faðir
4. *Þorlákur Markússon* á Sjáfarborg, dó 1736, hans faðir
5. *Markús Pálsson* á Völlum í Miðfirði, hans faðir
6. *Páll Jónsson,* hans faðir
7. *Jón Oddsson* á Vatnsskarði.

4. gr.

3. *Jórunn Þorleifsdóttir* hèt kona Ólafs Þorlákssonsonar og móðir Ara á Skútustöðum, hennar faðir
4. *Þorleifur Skaptason,* prófastur í Múla, dó 1724, hans faðir
5. *Skapti Jósepsson,* lögrèttumaður og lögsagnari á Þorleifsstöðum, hans faðir
6. *Jósep Loptsson,* prestur á Ólafsvöllum, dó 1683, hans faðir
7. *Loptur Skaptason,* prestur á Setbergi, dó 1621, hans faðir
8. *Skapti Loptsson,* prestur á Setbergi, dó 1621, hans faðir
9. *Loptur Þorkelsson,* prestur á Húsafelli, dó 1568;

sumir segja þenna Þorkel vera Þorkel Björgúlfsson frá Fitjum Þorkelssonar Vellings, en það mun samt óvíst.

5. gr.

2. *Þuríður Árnadóttir* hèt kona Ara á Skútustöðum, og móðir Kristjönu, hennar faðir
3. *Árni Gíslason* á Haldórsstöðum, hans faðir
4. *Gísli Eiríksson*, var í Eyjafirði, hans faðir
5. *Eiríkur Jónsson* á Möðruvöllum í Eyjafirði, hans faðir
6. *Jón Finnbogason*, hans faðir
7. *Finnbogi Arnfinnsson*.

6. gr.

3. *Sigríður Sörinsdóttir* var kona Árna Gíslasonar og móðir Þuríðar, hennar faðir
4. *Sörin Jensson*, danskur maður, bjó á Ljósavatni; kona hans og móðir Sigríðar var Guðrún dóttir síra Þorvaldar á Hofi Stefánssonar.

---

19. SVEINN SKÚLASON, nú prestur á Staðarbakka í Miðfirði, þingmaður Norður-Þingeyinga, kona hans Guðný Einarsdóttir trjásmiðs í Reykjavík, bróður Árna biskups í Görðum Helgasonar.

A. Föðurætt.

1. gr.

1. *Skúli Sveinsson*, hreppstjóri á Ytri-Þverá í Vesturhópi, hann var bróðir Sigríðar, konu Arnórs prófasts í Vatnsfirði, þeirra faðir
2. *Sveinn Jónsson* úr Borgarfirði.

2. gr.

2. *Guðný Jónsdóttir* hèt kona Sveins Jónssonar og móðir Skúla hreppstjóra, hennar faðir
3. *Sveinn Jónsson* í Lækjardal á Skagaströnd.

3. gr.

3. *Guðrún Hallgrímsdóttir* hèt kona Sveins og móðir Guðnýar, hennar faðir
4. *Hallgrímur Magnússon* dó 1707, hans faðir
5. *Magnús Hallsson* á Gilsbakka í Eyjafirði, hans faðir
6. *Hallur Bjarnason* á Möðrufelli í Eyjafirði, lögrjettumaður og lögsagnari, hans faðir
7. *Bjarni Pálsson* á Skriðu í Hörgárdal, hans faðir
8. *Páll Grímsson;* sýslumaður á Holtastöðum, dó 1551, hans faðir.
9. *Grímur Pálsson* á Möðruvöllum í Eyjafirði, hans faðir
10. *Páll Brandsson* á Möðruvöllum í Eyjafirði, dó 1495, hans faðir
11. *Brandur Jónsson* lögmaður, hans faðir
12. *Jón Arnfinnson,* hans faðir
13. *Arnfinnur Þorsteinsson,* riddari, hans faðir
14. *Þorsteinn Eyjólfsson* hinn gamli, lögmaður á Urðum og Víðimýri, er dó 1402, hans faðir
15. *Eyjólfur* virðist að hafa búið á Grýtubakka.

Brandur lögmaður Jónsson, er almennt talinn bróðir Finnboga lögmanns, en það er mart, er sýnir, að það geti eigi verið rètt. Árni Magnússon telur hann svo til ættar, sem hèr er gjört; og það er án efa rètt, en Brandur hefir samt að öllum líkindum verið tengdur eða skyldur Finnboga gamla í Ási, bæði er það sagt

og líka hèt bróðir hans Finnbogi, er var í Fljótum; en á því hafa þeir án efa villst, er kalla Brand bróður Finnboga lögmanns.

B. Móðurætt.

4. gr.

1. *Guðrún Björnsdóttir* kona Skúla, hennar faðir
2. *Björn Loptsson* á Syðri-Þverá, dó 1802, hans faðir
3. *Loptur Pètursson* á Brúsastöðum í Vatnsdal, hans faðir
4. *Pètur Erlendsson* á Brúsastöðum, hans faðir
5. *Erlendur Illugason*, prestur á Tjörn á Vatnsnesi, dó 1690, hans faðir
6. *Illugi Ingjaldsson*, prestur á Tjörn á Vatnsnesi, dó 1661, hans faðir
7. *Ingjaldur Illugason* sterki, lögrèttumaður á Reykjum í Miðfirði, dó 1643, hans faðir
8. *Illugi Guðmundsson* gamli, prestur í Múla.

5. gr.

3. *Helga Bessadóttir* hèt kona Lopts og móðir Björns, hennar faðir
4. *Bessi Sigurðarson,* hann var bróðir Valgerðar Sigurðardóttur, móður Sumarliða sýslumanns Klementssonar.

6. gr.

2. *Ingibjörg Sigurðardóttir* hèt kona Björns Loptssonar, og móðir Guðrúnar, hennar faðir
3. *Sigurður Jónsson* í Klömbur fæddur 1712, dó 1785.

7. gr.

3. *Ragnhildur Bjarnadóttir* hèt kona Sigurðar og móðir Ingibjargar, og var Sigurður hennar seinni maður.

—

20. PÁLL ÓLAFSSON á Hallfreðarstöðum, varaþingmaður Norðurmúlasýslu[1]. Kona hans, Þórunn Pálsdóttir sýslumanns Guðmundssonar, frá Krossavík og er hann seinni maður hennar.

A. Föðurætt.

1. gr.

1. *Ólafur Indriðason*, prestur á Kolfreyustað, dó 1861, hans faðir
2. *Indriði Ásmundsson* á Borg í Skriðdal, dó 1811, hans faðir
3. *Ásmundur Helgason,* hann var bróðir Jóns sýslumanns Helgasonar, þeirra faðir
4. *Helgi Ólafsson* á Svertingsstöðum, hans faðir
5. *Ólafur Helgason* kom úr Rangárvallasýslu í Eyjafjörð.

2. gr.

3. *Anna Þorsteinsdóttir* hèt kona Ásmundar og móðir Indriða.

3. gr.

2. *Kristín Andrèsdóttir* hèt kona Indriða og móðir síra Ólafs; hún er sögð að hafa verið af ætt síra Ólafs Guðmundssonar.

---

1) Aðalþingmaður sýslunnar, Haldór prófastur á Hofi, mætti eigi á þingi.

B. Móðurætt.

1. *Þórunn Einarsdóttir,* f. k. síra Ólafs, hennar faðir
2. *Einar,* var bóndi í Skriðdal.

Þessar ættir mætti víst rekja miklu betur, en hèr er gjört.

—

21. BJÖRN PÊTURSSON á Gíslastöðum, alþingismaður Suðurmúlasýslu; kona hans Ólivía Ólafsdóttir frá Kolfreyjustað, alsystir Páls alþingismanns Ólafssonar.

A. Föðurætt.

1. gr.

1. *Pètur Jónsson,* prestur á Valþjófsstað, hans faðir
2. *Jón Þorsteinsson,* vefari, hans faðir
3. *Þorsteinn Stefánsson,* prestur á Krossi, hans faðir
4. *Stefán Björnsson* á Hörgslandi, spítalahaldari, hans faðir
5. *Björn Ásgrímsson,* hans faðir
6. *Ásgrímur Guðmundsson,* hefir lifað á 17. öld.

2. gr.

3. *Margrèt Hjörleifsdóttir* hèt kona síra Þorsteins og móðir Jóns vefara, hennar faðir
4. *Hjörleifur Þórðarson,* prestur á Valþjófsstað, dó 1786, hans faðir
5. *Þórður Þorvarðsson* í Álptafirði.

3. gr.

2. *Þórey Jónsdóttir* frá Hnífilsdal hèt kona Jóns vefara og móðir síra Pèturs.

## B. Móðurætt.

4. gr.

1. *Anna Björnsdóttir*, kona síra Pèturs, hennar faðir
2. *Björn Vigfússon*, prestur á Eyðum, hans faðir
3. *Vigfús Björnsson*, prestur á Skinnastöðum, dó 1808, hans faðir
4. *Björn Magnússon*, prestur á Grenjaðarstað, dó 1766, hann var bróðir Þorsteins sýslumanns á Móeiðarhvoli, sjá ætt Hilmars stiptamtmanns 4. gr. nr. 4, 1. B. bls. 12.

5. gr.

3. *Guðlaug Andrèsdóttir* hèt kona síra Vigfúsar og móðir sira Björns, hennar faðir
4. *Andrès Sigurðsson* á Bústöðum, dó 1766, hans faðir
5. *Sigurður Gíslason* á Flankastöðum, hans faðir
6. *Gísli Eiríksson*, prestur á Krossi, kallaður formaður, dó 1695, hans faðir
7. *Eiríkur Þorsteinsson*, prestur á Krossi, dó 1674, aðrir telja 1681, hans faðir
8. *Þorsteinn Snorrason*, prestur í Miðdal, hans faðir
9. *Snorri* á Þverá í Yxnadal, kona hans var Vigdís, móðursystir Odds biskups Einarssonar, hefir því Snorri lifað á 16. öld.

6. gr.

2. *Þórunn Guðmundsdóttir* hèt kona síra Björns og móðir Önnu, hennar faðir
3. *Guðmundur Pètursson* í Krossavík, sýslumaður í Múlaþingi, dó 1810 eða 1811, hans faðir
4. *Pètur Þorsteinsson*, sýslumaður í Múlaþingi, dó 1795, hans faðir

5. *Þorsteinn Sigurðsson,* sýslumaður í Múlasýslu, dó 1765, hans faðir
6. *Sigurður Þorgilsson* á Jörfa, hans faðir
7. *Þorgils Bergþórsson,* hans faðir
8. *Bergþór Bjarnason,* hans faðir
9. *Bjarni Sveinsson,* hans faðir
10. *Sveinn Bjarnason* í Gröf í Sökkólfsdal.

Sumir sleppa Bergþóri út úr, og telja Þorgils Bjarnason; eins geta þeir eigi um, hvaða manna Sveinn, faðir Bjarna hafi verið.

7. gr.

2. *Þórunn Pálsdóttir* hèt kona Guðmundar sýslumanns og móðir Þórunnar, konu síra Björns Vigfússonar, hennar faðir
3. *Páll Guðmundsson,* prestur á Kirkjubæ, dó 1782, hans faðir
4. *Guðmundur Pálsson,* prestur á Kolfreyustað, dó 1747, hans faðir
5. *Páll Ámundason,* prófastur á Kolfreyustað, dó 1709, hans faðir
6. *Ámundi Þormóðsson* í Skógum, hans faðir
7. *Þormóður Kortsson* í Kirkjubæ, hans faðir
8. *Kort Lýðsson,* hans faðir
9. *Lýður,* danskur að uppruna.

---

# III.

## *Eptirrit af gömlum skjölum.*

---

1.

Við undir skrifaðer Valtyr Ofeigsson og Jón Ejólsson berum sofeldan vitnisburð um landamerki á millum Uppsala og Smirlabjarga, að á eistri síðu eru landa merki á milli sagðra jarða þufan á austan verðum Básholum á að bera í þúfuna á Helghamri, sem er firir ofan Uppsali og þaðan rètta sjónhending uppá hæðstu brúnir að framan þar til norður af hallar, en á siðri síðu á milli Hestgerðis og Uppsala, er stór steirn uppreistur í markhólma, hann er landamerki, og á að bera í austan verðt tjarnarleiti, og so þaðan uppá heiði fyrir ofan Uppsaladali.

Hefi eg Valtyr Ofeigson búið á þessarri jörðu 10 ár enn er nú til aldurs yfir 80 ára, man eg þá glögt til þessarra marka og vissi eg þau aldrey önnur, eður öðruvísi haldin, enn nú er sagt, so og skikkaði mèr Bjarni sál. Oddson sýslumaður í austfjörðum, minn húsbóndi, er Uppsali þá hèlt, að halda undir Uppsali, Lambhólum, og öllu undan mörkum til fjalls og fjöru, því máldagin lægje á Skriðuklaustri, er so segði, að Uppsalir ættu óslitið land til fjalls og fjöru. Enn eg Jón Eyólfson bjó á þessarri jörðu strax eftir Valtyr, enn er nú til aldurs 80 ára, og aldrey á öllum þeim aldur tíma heirði nokkur tvimæli hèr á leika, það þessum landamörkum viðvíkur, var þá minn húsbóndi Pètur Bjarnason, sonur Bjarna sál. Oddsonar, hvör þá lögfesti við Kálfafellsstaðar kirkju Uppsali til fjalls og fjöru, og Lambhólma undir þá, hvörjer liggja fyrir miðju

Uppsalalandi og þó heldur við siðri mörkin, þessum okkar sanninda vitnisburði til staðfestu merkis, handsölum við bæði vitisburðin og vor nöfn hèr undirskrifist í erlegra votta viðurvist, og viljum meiri sannindi á gjöra ef þörf gjörist, til sanninda merkis allra okkar nöfn hèr undir að Uppsölum þann 11. Júni A° 1690 Valtyr Ofeigsson handsalaði Jón Eyólfsson handsalaði.

Ofanskrifaður vitnisburður var so útgefin af nefndum mönnum, sem hann hljóðir, í okkar viðurvist, til vitnis vor nöfn með eiginn handskriptum hèr undir í samastað dag og ár.

Björn Þorleifsson. Ásmundur Pálsson.

Rètt Coperað útaf Copiubók sýslumanns sál. Ísleifs Einarssonar vitna

Jón Ásgrímsson. Kolbeirn Jónsson.

Upplesið fyrir sessioninni við Öxará d. 12. Júlí 1792.

Test^r

G. Ketilson.

2.

Á Kolfreyustað í Fáskrúðsfirði er gömul altaristafla vönduð. Á henni er málaður Kristur á Krossinum, og krjúpa tveir menn neðan við krossinn, sinn við hverja hlið, horfandi upp á hann — vinstra megin (þá horft er á málverkið) karlmaður í prestshempu með hvítan prestskraga — hinum megin kona í hempu með hvítan kraga og fald á höfði.

Yfir málverkinu eru þessi orð á latínu:

Effigies Reverendi Viri D^mi Bernarði Ormi Pastoris Ecclæ.Faskruðfjorðensis Vigilantiss: Qvi Beate Obiit Anno CHR 1649 Ætat. 66. Die 8. Jan.

Necnon Ipsius Piae et Castae Conjugis Guðriðae Eyolfi f. Qvae Etiam Feliciter Obiit Anno D^mi 1647 Ætat, vero 65 die 5. Maij.

En undir málverkinu stendur:

Scio enim Qvoð Redemtor Meus Vivit et in novissimo die de Terra Surrecturus Sum, Et Rursum . . rcūdabor . . p E u . . enE a & in Carne.

Þetta upplýsir um aldur síra Bjarna Ormssonar, sjá hið prentaða prestatal, bls. 17, og um embættisár hans.

Þar sem orðin í næst neðstu línu í latínunni eru ógreinileg, eru nú skemmdir í töflunni[1].

3.

Jeg underskrifaður Kongstilsjónarmaður i Bjarnaness-umboðe, logfeste her i dag, Kongs Jórðena Holta, liggiande i Hornafyrðe og Einholts Kyrkiusókn; með öllum henne tilheirande gagnsemdum til Lands og Vatns;

Logfeste Eg Tun og Eingiar, sem eru Holtasvæður, Lamboddar, Hröfteigur, Lækialand, Prestsfit. Þiöfaskershölmar, og Grænakielda; sómuleiðes Holt og haga, Votn og Veiðestaðe til ytstu ummerkia, sem nærstliggiande Jarðer að skilia, frä nefndre Kongs Jórð, og eru þesse að sunnanverðu efter Einholts Kirkiu mäldógum; Lamb Odda skier, við Hornafiarðarfliot og þufann ä bryngunum, fyrir neðann Holta hamra, þaðann siðnhending i þufuna uppä hamrana vestur þaðann i þufuna uppa Digurholte; þaðann i vestan verða Hamra ä Flata fialle; en að norðan verðu; er þufann á Sinuhióllum, og i Klett a Sorkushölumm, þaðann i Hellirsskier, þaðann i Brimgängenn, þaðann i þufu a tiarnarhraune, þaðann i Tarfshol, þaðann i þufu a Arnarbæle; þaðann i þufu hiä merkekieldu, ä Storhöls svæðubóckum, þaðann i skümskier, i Hornafiarðárfliötum; Einnenn lóg-

1) Þessi skýrsla er eptir síra Sigurð prófast Gunnarsson.

feste Jeg nefndrar Köngs Jarðar Itök, sem eru efter Iarðabok af 1708. Skögar Itak a Vindborðsdal; halfur Dimon Störe og Litle; hälf Drangstorfa; halfar Mariutungur; halfur litle Holme, Sandfleter; viðarhalsar; Holta torfa, og Holta hofðe; allar hier taldar Holta Eigner, og Jtök, logfeste Eg að orðfullu og Lógmäle Rettu; og fyrerbýð i kongs umboðe, hvóriumm manne greinda Jórð, að beita, eður bruka nockuð af hennar tieðre Eign; under landnäm og Laga sekter; nema Eigande eður umboðsmaður að Logum leife;

Bið eg æruverðugann Prestenn Sra Berg Ionsson i Einholte að lata þessa Logfestu upplesa Við Einholtskyrkju; og syðann uppáskrifaða til baka senda mier; Datum Biarnanese d: 11te Octobris 1788/ Magnus Olafsson að ofann skrifuð lógfesta var upplesen við Einholtskirkiu þann 22an sunnudag eftir Trinitatis anno 1788 vitna Gissur Hallsson Þorsteirn Biarnason Arne Marteinsson

uppleseð fyrer Yferrettenum við Öxará d. 26. Julii 1792

testr G. Ketilson.

---

# IV.

## *Sýslumanna æfir* (framhald).

---

### A. Sýslumenn í Múla sýslu

*Björn Pètursson*

Faðir: Pètur son Bjarna sýslumanns Oddssonar á Bustarfelli

Móðir: Steinunn Vigfúsdóttir frá Hofi[1]

Kvinna: Guðrún yngri Marteinsdóttir sýslumanns Rögnvaldssonar[2]

Börn: 1. Marteinn á Bustarfelli, bartskeri, átti fyrr Margrèti Egilsdóttur prests Guðmundssonar[3]; þeirra börn meðal annara: *a*, Egill gullsmiður[4] og *b*, Rannveig, er Hannes Hansson[5] átti. Marteinn átti síðan Margrèti Ketilsdóttur prests[6]. Hjá Marteini brann bærinn tvisvar.

2. Pètur átti Helgu Þorvaldsdóttur[7], bl.

3. Þórunn kona Benidikts lögmanns Þorsteinssonar (sjá Norður sýslu)

4. Jón á Eyrarlandi átti Helgu Magnúsdóttur Björnssonar Pálssonar Guðbrandssonar biskups. Þeirra börn

---

1) sjá 2. B. bls. 63 og bls. 64.

2) sjá 2. B. bls. 70.

3) síra Egill var prestur á Stafafelli í Lóni, var kona hans og móðir Margrètar Rannveig, dóttir síra Stefáns á Vallanesi Ólafssonar.

4) Egill gullsmiður var í Kaupmannahöfn og átti þar dóttur Egholms hattasmiðs.

5) Hannes, var son Hans Lárussonar Schevings, bróðir Vigfúsar sýslumanns Schevings; hann hafði um tíma Munkaþverárklaustur, en varð að sleppa því við Stefán amtmann Þórarinsson. Hannes varð síðan fèlaus og börn hans úrættust. Upp á hann hljóðar stefið í kvæði síra Þorláks á Ósi: „við Hannes værðin loði".

6) Þetta á að vera Margret dóttir Ketils prests á Svalbarði, því sumar ættartölubækur nefna hana seinni konu Marteins, en geta eigi barna þeirra; munu þau heldur eigi hafa átt börn saman, því sumstaðar stendur um Margrèti, að hún hafi dáið barnlaus, og eigi þess getið að hún hafi gipzt.

7) Stefánssonar prests frá Vallanesi Ólafssonar. Pètur dó 1740.

*a*, Vigfús sýslumaður í Norður sýslu (sjá Norður sýslu)
*b*, Björn apóthekari átti ekki börn[1]
*c*, sira Magnús prestur í Saurbæ og Miklagarði, bl.[2]
*d*, Brynjólfur, gartner í Kaupmannahöfn, bl.
*e*, Elísabet átti síra Jón í Glæsibæ[3]
*f*, Guðrún átti síra Jón Sigurðsson í Ási[4]
*g* og *h*, Ragnheiður og Sigríður, barnlausar, Helga giptist 1731; hún var fyrir þeim hjónum í öllu.

5. Ragnheiður, hana átti Björn í Böðvarsdal, son síra Ólafs Ásmundssonar á Kirkjubæ, þau áttu börn.[5]
6. Gróa, tvígipt, átti síðar Högna Eiríksson frá Búlandi og með honum börn.[6]

---

1) Kona Björns apóthekara var Guðfinna, dóttir síra Guðlaugs í Görðum þorgeirssonar; Björn fèkk bezta orð, en ringlaðist í elli sinni, dó 1798.

2) Síra Magnús var þrígiptur, og með miðkonu sinni, þórunni Björnsdóttur frá Grenjaðarstöðum átti hann Elíni, er giptist síra Sigurði Jónssyni í Goðdölum, þeirra einkabarn síra Magnús druknaði barnlaus í Svartá í Skagafirði.

3) Síra Jón var og prestur að Myrká, faðir hans var síra Jón á Völlum Haldórsson þorbergssonar af ætt Hrólfs sterka Bjarnasonar; son síra Jóns á Myrká var Haldór faðir síra Jóns í Stórholti, er dó 1866.

4) Síra Jón var faðir síra Sigurðar í Goðdölum, er fyr var nefndur, og þórdísar móður þórðar forseta í yfirdóminum Jónassonar.

5) þar á meðal Ingibjörgu, móður Kristínar í Garði, móður síra Benidikts á Hólum.

6) Eigi er þess getið, að Gróa hafi verið nema eingipt; voru þau Högni þrímenningar, þeirra dóttir var Vilborg kona síra Benidikts á Kvennabrekku Árnasonar frá Krókum nyrðra.

Björn fèkk norðasta part sýslunnar, er Páll mágur hans af stóð honum 1695, en slepti tèðum parti aptur 1721, þá er Þorsteinn Sigurðsson tók hann. Björn dó nálægt 1726; hann bjó á Bustarfelli og var haldinn jötunmenni að kröptum, eins og margir í þeirri ætt; hann var stór vexti[1] og stórgerður í skapi, rausnarmaðnr og vel efnaður um hríð, en lítt var niðjum hans fèsæld lagin; eigi þótti hann allshendis jafnaðarmaður; sagt var að hann opt hefði skotið skjóli yfir sakamenn, og er eitt sinn varð skipbrot í sýslu hans, hafi hann hagnýtt sèr það og eigi gjört reikning fyrir, eins að hann hafi tekið hollenzka duggu með áhöfn[2], og látið skipverja starfa þar að, og bygt bæ sinn af þeim viði; hafi timburmaðurinn sagt fyrir, að sá bær mundi brenna. Við útför hans var silfurdalur látinn fylgja máltíð til handa hverjum boðsmanni.

Enn voru börn Björns Pèturssonar[3].

7. Guðrún, hana átti síra Einar á Skinnastöðum Jónsson prests, Einarssonar prests Nikulássonar.
8. Guðrún önnur varð úti á Reykjaheiði.

---

1) Espólín segir, að orðlagt hafi verið um Björn sýslumann Pètursson, að hann svo stórvaxinn maður hafi stokkið nær hæð sína í lopt og meir en þrjá faðma yfir ár milli hamra; hafi hann í öllu verið stórfengur.

2) Á dögum einokunarverzlunarinnar voru útlend fiskiskip hèr við land álitin rèttlaus.

3) Þess er eigi getið, að Björn hafi átt börn nema með konu sinni Guðrúnu, og eru því þessi hèr nefndu börn sammæðra hinum fyrnefndu.

9. Elisabet átti Björn Jónsson[1].
10. Guðrún átti Pètur Jónsson[2].

*Þorsteinn Sigurðsson.*

Faðir: Sigurður bóndi á Jörfa Þorgilsson, (Bergþórssonar[3]) Bjarnasonar, Sveinssonar í Gröf Bjarnasonar bónda.

Móðir: Herdís Þorvarðardóttir frá Brennistöðum Runólfssonar Sigurðssonar í Einarsnesi[4].

Kvinna: Björg Pálsdóttir frá Goðdölum Sveinssonar; þau giptust 1712, en Björg dó 1759 á 75. aldursári; síra Páll vígðist 1681 og varð 80 ára, og

1) Elisabet dó barnlaus.

2) Espólín nefnir að eins 2 Guðrúnar, dætur Björns. Guðrúnu, er síra Einar átti, og Guðrúnu, er úti hafi orðið á Reykjaheiði 1748; Ólafur Snógdalín nefnir og 2 Guðrúnar dætur Björns, Guðrúnu konu síra Einars, og Guðrúnu konu Pèturs Jónssonar frá Skjöldólfsstöðum, Pètur var faðir Sveins Hólaráðsmanns og Pèturs á Skjöldúlfsstöðum, son þessa seinna Pèturs hèt Pètur, er mun hafa verið föðurfaðir Jónatans, er keypti Eyða og enn lifir, því bæði er sagt, að forfeður Jónatans þessa Pèturssonar hafi búið á Skjöldúlfsstöðum, og að hann sè kominn af Birni syslumanni Pèturssyni eða Bjarna Oddssyni. Espólín nefnir samt konu Pèturs Jónssonar og móður þeirra Sveins og Pèturs Sesselju Einarsdóttur, en getur eigi um hverra manna hún hafi verið, en eg held þetta miður rètt, samt getur Pètur Jónsson hafa verið tvígiptur, en þó mun Guðrún hafa verið móðir þeirra Sveins og Pèturs, sem Snógdalín segir; dóttir Sveins hèt og Guðrún, líklega eptir móður hans. Sveinn var líka mesta heljarmenni, og hefir hann þá eigi haft langt að sækja það. Það getur og vel verið, að Guðrún kona Pèturs Jónssonar sè sú, er Espólín segir, að úti hafi orðið.

3) Sumar ættartölur sleppa þessum Bergþóri, og má vera, að það sè rètt.

4) Runólfur var bróðir Jóns sýslumanns í Einarsnesi, sjá 1. B. bls. 12, nr. 7.

síra Sveinn á Barði faðir hans varð jubilkennari, hann var son Jóns Guðmundssonar á Siglunesi.

Börn: 1. Sigurður gullsmiður í Kaupmannahöfn fæddur 1714 á Skriðuklaustri, átti Maríu, dóttur Laurusar Ottsens, íslenzks kaupmanns — hún dó 1770, — og börn:

*a,* Pètur, Dr. Medicinæ á Kongsbergi, tvígiptur, átti börn

*b,* Lárus, skrifari í Rentukammerinu.

*c,* Elisabet, hana átti síra Egill Þórhallason, prestur á Bogense á Fjóni

*d,* Bente Katrine átti Christopher Balk gullsmið

*e,* Þorsteinn gullsmiður í Kaupmannahöfn, fæddur 1720 á Víðivöllum.

2. Pètur sýslumaður (um hann meira seinna).

3. Margrèt[1], hana átti síra Hjörleifur Þórðarson, og voru þeirra börn:

*a,* Herdís, *b,* Guttormur sýslumaður.

4. Jón dó útskrifaður úr skóla 1731, bl.

Þá er þeir Commissarii, assessor Árni Magnússon og Páll Vídalín voru settir til að verðleggja allt jarðagóðz á landinu, fengu þeir Þorstein, er var vel að sèr í mörgu, til að uppskrifa fyrir sig allt jarðagóðzið á Austfjörðum; Þorsteinn var eigi skólagenginn, en gjörðist lögsagnari Björns sýslumanns Pèturssonar 1714, og fèkk sèr veittan norðasta sýslupartinn 1721, er Björn slepti honum, en slepti honum aptur við son sinn Pètur

1) Margrèt kona síra Hjörleifs var systir Þorsteins sýslumanns, en eigi dóttir hans, sjá hèr síðar um Guttorm sýslumann.

1751, þá er hann hafði haft sýsluvöld í 37 ár, en verið virkilegur sýslumaður í 30 ár; Þorsteinn dó 1765, þá 87 ára, aðrir segja 85; hann var álitinn mikilmenni. Árið 1708 gjörðist Þorsteinn fyrst sveinn Páls lögmanns Vídalíns, var hann því kallaður Víðdælingur. Þorsteinn sigldi 1715; hann var vitur maður, góður búhöldur, læknir, gamansamur og hagorður, óbreytinn og hófsmaður. Hann varð auðmaður mikill.

*Pètur Þorsteinsson.*

Faðir: Þorsteinn sýslumaður, nýnefndur.
Móðir: Björg Pálsdóttir Sveinssonar, nýnefnd.
Kvinna: Þórunn Guðmundsdóttir prests á Kolfreyustað Pálssonar Ámundasonar.
Börn: 1. Sigurður Sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslum, fæddur 1759, dó 1827, ógiptur, barnlaus.
2. Guðmundur, sýslumaður í Múlasýslu (sjá síðar).
3. Hólmfríður átti Odd nótaríus á Þingeyrum Stefánsson[1], hún var fædd 1755, giptist 1776 og dó 1834; þeirra börn voru a) Sigríður seinni kona Björns sekretera á Esjubergi, þeirra son Oddgeir[2]. b) Lárus, gipt-

1) Oddur nótaríus var hálfbróðir Ólafs stiptamtmanns.

2) Hann er nú forsrjóri í íslenzku deildardeildinni í Kaupmannahöfn og giptur danskri konu.

ist, fèll í veikleika, átti börn[1], c) Þórunn dó ógipt 1832[2].

4. Björg, fædd 1749, átti Guttorm Hjörleifsson (sjá síðar)[3], seinni kona Pèturs var Sigríður dóttir síra Ólafs Brynjólfssonar á Kirkjubæ, bl.

Pètur var fæddur 1720, stúderaði innan lands og utan, varð síðan föður sínum til aðstoðar frá 1746, en fèkk veiting fyrir Norðurmúlasýslu 1751, þá er faðir hans slepti. Ár 1757 sigldi Pètur aptur til Kaupmannahafnar, og setti meðan fyrir umboðsmann sinn stúdent Björn Tómásson, er síðar varð lögsagnari og sýslumaður í Norðursýslu. Í tíð Pèturs var Múlasýslu skipt í tvo jafnari parta en áður eptir kgs.br. 29. marz 1779. Guttormur Hjörleifsson var 1766 settur Pètri til aðstoðar, með von um sýsluna eptir hann, en dó 1771; tók því Pètur son sinn Guðmund sèr til aðstoðar 1773, en frá sagði sèr sýsluna 1786 til Guðmundar. Pètur dó 1795. Hann var merkilega vel lærður, hefir útlagt Herslevs prèdikanir, og gjört fleiri lærdómsverk. Pètur var einhver hinn

---

1) Kona Lárusar var Sigríður dóttir Þorkels Bergmanns, er var föðurbróðir Björns á Þingeyrum, son þeirra er Pètur dannebrogsmaður á Ytrahólmi á Akranesi, og á hann þá jörð.

2) Pètur Ottesen, sýslumaður í Mýrasýslu, var og son Odds notaríusar og Hólmfríðar, var Pètur 10 árum eldri en Lárus; sjá um hann Mýrasýslu.

3) Guttormur sýslumaður var fyrri maður hennar, en síra Árni Þorsteinsson prófastur á Kirkjubæ hinn síðari.

merkilegasti sýslumaður í seinni tíð fyrir margra hluta sakir; hann varð 75 ára.

*Guttormur Hjörleifsson.*

Faðir: Hjörleifur[1] prófastur á Valþjófsstað, er gjörði latínskan háttalykil Þórðarson.

Móðir: Bergljót dóttir síra Jóns á Hólmum Guttormssonar prests sama staðar.

Kvinna: Björg Pètursdóttir sýslumanns Þorsteinssonar, hún var fædd 1747, giptist Guttormi 1767; seinni maður hennar Árni prófastur á Kirkjubæ Þorsteinsson.

Börn: 1. Oddný, hana átti Guttormur prófastur á Hofi Þorsteinsson[2], þeirra börn:
*a*, Árni[3], *b*, Hjörleifur[4], *c*, Guttormur[5], *d*, Björg[6].

2. Þórunn seinni kona Guðmundar sýslumanns (sjá hèr síðar).

1) Síra Hjörleifur var þrigiptur, fyrsta kona hans var Margrèt, systir Þorsteins sýslumanns, sem fyrr var sagt, og var þeirra dóttir Herdís; en miðkona hans var Bergljót Jónsdóttir, sem hèr segir, og þeirra son var Guttormur sýslumaður. Síra Hjörleifur sneri Passíusálmum Hallgríms Pèturssonar á latínsk ljóð.

2) Síra Guttormur var bróðir Jóns vefara, sjá ætt Björns alþingismanns Pèturssonar hèr að framan.

3) Hann var kapellán hjá föður sínum og átti María Guðmundsdóttur sýslumanns bl., sjá seinna.

4) Síra Hjörleifur nú prestur á Tjörn í Svarfaðardal á Guðlaugu Björnsdóttur prests frá Eyðum Vigfússonar, hálfsystur Önnu, móður Björns alþingismanns Pèturssonar, síra Björn var bróðir síra Benidikts á Hólum í Hjaltadal.

5) Síra Guttormur prestur á Stöð átti Þórunni Guttormsdóttur Guðmundssonar sýslumanns.

6) Björg, nú á Húsavík, ekkja síra Stefáns Pálssonar, sjá síðar, bl.

Guttormur stúderaði innan lands og utan, varð síðan settur Pètri sýslumanni til aðstoðar ár 1766 með von um sýsluna eptir hann og átti áðurnefnda Björgu; svo þjónaði Pètri í sýslumannsstörfum um hríð, uns hann á ferð sinni 1771 datt af baki og drógst fastur í ístaði, náðist þó með lífi, en dó litlu síðar þar af.

*Guðmundur Pètursson.*

Faðir: Pètur sýslumaður Þorsteinsson fyrnefndur.
Móðir: Þórunn, dóttir síra Guðmundar á Kolfreyustað.
Kvinna, hin fyrri: Þórunn dóttir síra Páls í Vallanesi sonar síra Guðmundar á Kolfreyustað[1].
Börn: Páll[2], Sigurður[3], Málmfríður dó ógipt[4].
Kvinna, hin seinni: Þórunn Guttormsdóttir sýslumanns[5]
Börn: Guttormur[6], Sigríður[7], Þorsteinn[8], María[9], Elisabet[10], Oddur[11], Pètur[12].

1) Guðmundur sýslumaður og Þórunn voru systkinabörn.

2) Páll sýslumaður, sjá hèr síðar.

3) Sigurður á Eyólfsstöðum, merkisbóndi, átti Ingunni Vigfúsdóttur prests Ormssonar.

4) Þórunn kona síra Björns á Eyðum Vigfússonar var enn fyrri konu barn Guðmundar.

5) Hún var systurdóttir Guðmundar sýslumanns.

6) Guttormur átti Steinvöru Gunnlaugsdóttur prests frá Hálsi.

7) Sigríður átti fyrr síra Sigfús Árnason, sjá hèr síðar, svo Vigfús Stefánsson bróðurson síra Sigfúsar.

8) Þorsteinn var ákaflega sterkur, átti Guðríði dótttur síra Sigurðar á Hálsi Árnasonar.

9) Kona síra Árna Guttormssonar fyrnefnds.

10) Elsr-Birta átti Jón kandidat Þórarinsson á Skriðuklaustri.

11) Kona Odds heitir Ólöf, þau barnlaus.

12) Giptur ekki.

Guðmundur sýslumaður var fæddur 1748, útskrifaðist 1767, fór síðan til Kaupmannahafnar háskóla sama ár, lagði sig þar eptir bókmentum, en tók þó ekki latínskt embættispróf í lögum, varð samt 1772 settur föður sínum til aðstoðar með von um að fá sýsluna eptir hann, sem hann og fèkk 1786. Árið 1806 tók hann Pál son sinn sèr til aðstoðar í embættinu, og árið eptir sagði hann af sèr sýslunni. Guðmundur hafði opt siglt og í 5. sinni fór hann utan 1807, en sökum ófriðar þess, er þá var, fór skipið til Norvegs; árið eptir komst hann til Kaupmannahafnar og 1810 til Edinborgar á Skotlandi; þar dó hann sama ár[1]. Ferð þessi varð honum mjög kostnaðarsöm og mæðufull, hann braut fót sinn, og margt annað gekk honum mótdrægt[2].

*Páll Guðmundsson.*

Faðir: Guðmundur sýslumaður Pètursson, nýnefndur.
Móðir: Þórunn Pálsdóttir.
Kvinna: Malena Örum[3].

---

1) Aðrir segja 12. ágúst 1811.

2) Guðmundur var ríkismaður mesti og bjó í Krossavík.

3) Jens Örum var verzlunarmaður eystra, var kona hans og móðir Malenu, Sigríður, systir Geirs biskups Vídalíns.

Börn: 1. Páll[1], 2. Stefán[2], 3. Siggeir[3], 4. Sigríður giptist 1833 síra Þorsteini í Reykholti Helgasyni[4], 5. Þórunn[5].

Páll lærði hjá biskupi Geir Vídalín, sigldi síðan og tók danskt juridiskt examen, kom svo inn og þjónaði föður sínum í sýslumannsembættinu 1806, en tók 1807 algjörlega við því, er faðir hans sigldi, og gegndi því til dauðadags, eigi var hann þó nema settur fyrir sýsluna. Dauða hans bar svo að, að hann á kaupstaðarferð axlaði bagga til að láta á hest; reigðist of mjög aptur á bak, kviðslitnaði og reyndist eitthvað meira, svo að hann dó þar af. Áður en Páll sigldi gjörði hann Malenu þungaða, en átti hana hèr um 1805, er hann kom inn aptur. Páll dó seint á árinu 1815.

## *Sigfús Árnason.*

Faðir: Árni prófastur á Hofi í Vopnafirði, nefndur Þorsteinsson, annars haldinn son síra Stefáns með

---

1) Páll lærði í Odda hjá Steingrími biskupi, fór svo til amtmanns Bjarna Þorsteinssonar, og hefir síðan einlægt verið hjá honum, maður vel að sèr, hefir hvorki giptst nè átt barn.

2) Stefán vígðist kapellán til síra Guttorms á Hofi Þorsteinssonar og átti Björgu dóttur hans, bl.

3) Siggeir, prestur á Skeggjastöðum, hans fyrri kona Anna Ólafsdóttir prests Indriðasonar, en hin seinni Guðlaug Guttormsdóttir Vigfússonar Ormssonar, þau barnlaus.

4) Hennar seinni maður síra Sigurður í Hraungerði Gíslason Þórarinssonar, þau barnlaus.

5) Þórunn, hennar fyrri maður Halldór Sigfússon, sjá síðar; seinni maður Páll alþingismaður Ólafsson, sjá ætt hans hèr á undan.

Þórdísi dóttur síra Jóns Þorvaldssonar á Prest-hólum[1].

Móðir: Björg Pètursdóttir sýslumanns Þorsteinssonar.

Kvinna: Sigríður Guðmundsdóttir sýslumanns Þorsteinssonar og hans seinni konu, bl.[2]

Launson með Sigríði[3] Einarsdóttur, Haldór[4]

Sigfús lærði, var maður flugskarpur og gott skáld, misti geistlegheit, er hann barnið átti; var settur yfir norðurhluta sýsluunar, er Páll dó, og gegndi sýslumanns störfum frá 1815 til 1817, fèkk síðan uppreisn, og vígðist til kapelláns að Dvergasteini 1818.

*Páll Melsteð.*

Faðir: Þórður Jónsson, prestur á Völlum í Svarfaðardal.

Móðir: Guðfinna[5] dóttir síra Jóns Guðmundssonar frá Melstað.

Kvinna: Anna dóttir amtmanns Stefáns Þórarinssonar.

---

1) Höfundurinn á hèr við síra Stefán í Presthólum son síra Þorleifs Skaptasonar, er átti Þórunni dóttur síra Jóns Þorvaldssonar, er þar var prestur á undan síra Stefáni. Síra Árni var óskilgetinn son Þórdísar systur Þórunnar.

2) Sigríði átti síðan Vigfús Stefánsson, sem fyr segir.

3) Hún giptist síðan síra Benidikt á Eydölum Þórarinssyni, bróður Jóns kandidats Þórarinssonar, er fyrr var nefndur.

4) Haldóri Sigfússyni hafði verið veittur Hofteigur, en áður en hann yrði vígður, druknaði hann í Lagarfljóti á sama stað og faðir hans áður hafði druknað. Hann var fyrri maður Þórunnar Pálsdóttur sýslumanns, sjá hèr að framan.

5) Síra Þórður var bróðir síra Jóns á Myrká, er að framan hefir verið nefndur; hann var þrígiptur og var Ingibjörg dóttir síra Jóns á Melstað miðkona hans, og þeirra son var Páll; hann kallaði sig Melsteð af því hann ólst upp hjá afa sínum á Melstað.

Börn: Páll[1], Ragnheiður[2], Sigurður[3] Ingibjörg[4], Jón[5], Margrèt[6], Björg[7], Guðrún[8], Stefanía[9], Jakobína[10], Þórdís[11], Haldór[12].

Eptir útstaðinn skólalærdóm varð Páll skrifari hjá amtmanni Stefáni Þórarinssyni og gjörði Önnu dóttur hans þungaða; síðan sigldi hann með tilstyrk amtmanns, tók embættispróf í dönskum lögum, kom svo inn og fekk 1815 suður hluta Múla sýslu, er Thorlacíus slepti, og eignaðist Önnu. Síðan fekk hann norður hluta Múla sýslu eptir Pál sýslumann Guðmundsson 1817; hann keypti

1) Páll, málaflutningsmaður við yfirdóminn; fyrri kona hans var Jórunn dóttir Ísleifs á Brekku, forseta í yfirdóminum, Einarssonar; en hin seinni er Þóra Grímsdóttir amtmanns Jónssonar.

2) Ragnheiður var kona Vigfúsar sýslumanns á Borðeyri Sigurðssonar Gíslasonar Þórarinssonar.

3) Sigurður, lektor og forstöðumaður prestaskólans á Ástríði Helgadóttur biskups.

4) Ingibjörg kona síra Gísla á Felli bróður Vigfúsar sýslumanns á Borðeyri.

5) Jón prófastur í Klausturhólum á Steinunni Bjarnadóttur amtmanns Vigfússonar.

6) Margrèt ógipt í Reykjavík.

7) Björg er gipt Guðmundi Pálssyni prests frá Borg á Mýrum Guðmundssonar.

8) Guðrún, kona Stefáns prófasts í Holti í Önundarfirði Pèturssonar frá Ólafsvöllum Stefánssonar amtmanns á Hvítárvöllum.

9) Stefanía, kona Haldórs skólakennara Guðmundssonar, hún dó barnlaus.

10) Jakóbína var kona Pèturs kaupmanns á Borðeyri Friðrikssonar frá Akureyjum.

11) Þórdís, hana átti Jónas sýslumaður son Jóns landlæknis Þorsteinssonar.

12) Haldór, Candidat philosophiæ, ókvæntur.

Ketilstaði og bjó þar. 1835 var honum veitt Árness sýsla, keypti hann þá Hjálmholt og settist þar að[1].

*Carl Ferdinand Walsöe.*

Danskur maður, Candidatus juris og volunteur. Hann fekk veiting fyrir sýslunni 1835[2].

---

# V.

## *Kyrkna máldagar* (framhald).

---

### *Nvpüfells Kyrkia.*

Kyrckia Hins Heilaga Michaelis J Nupufelle. Á þriðjung J Heijma landi. þriðung J Hrijsalandi. vi. hundruð laus og half mork. Jnnan Kyrkiu Messuklæði v. Ein stola laus. Corporalia ij. kaleykar ij. skrijn, kapur iij. yfersloppar ij. Alltarisklæði vij. Messubækur iiij. Saungbækur ij. Seqventiu Bök. Psalltare. Lesbækur vi. Artijða skra. Tiolld vmm alla kyrkiu. Krossar iij. Michials lykneski. Kluckur v. Kiertastikur vij. Gloðarkier, Elldbere, kietill kistur ij. Stölar iij. Biarnfell vij kugilldi. Með Geyta kugilldi. Þar

---

1) Páll sýslumaður varð síðar amtmaður í Vesturumdæminu; seinni kona hans var Ingileif dóttir Jóns prests Hallgrímssonar Bachmanns; þeirra einbirni Hallgrímur.

2) Walsöe varð „Toldforvalter" í Vebjörgum á Jótlandi. Síðan hafa þessir verið reglulegir sýslumenn í Norðurmúla sýslu, fyrst Pètur Jakobsson Havstein, er seinna varð amtmaður nyrðra, svo þorsteinn Cancellíráð Jónsson, nú sýslumaður í Árness sýslu, síðan Cancellíráð Oli Worm Smith danskur maður, og nú í ár hefir Böving sýslumaður í Borgarfjarðar sýslu fengið sýslu þessa.

skal vera prestur og diákn. Tekur prestur heijma iiij. merkur J leigu. Af einum Bæ liostollur og heytollur. Tyund tali Anno halft annað hundrað. Olokið ij merkur. Item lagðist fyrir legstað Halls bonda ferskepta xij alna long, fyrer cc —— I flytianda Eyre. Halfur Ellefte Eyrer. Psalltari fyrer halfann tyunda Eyre. cc J liereptum, Er Michael eingill á. Kross nyr, og ij Lykneski hans vnder, og Mariu lykneski nytt. Hier a fylgia |-o-| Kugilldi J kristfie.

*Hola kyrkia J Eyiafirðe.*

Kyrkia að Hölum J Eyiafyrði ä iiij Messuklæði. Alltarisklæði iiij, kaleyk, yferslopp, kantara kapa i, krossar iii, Mariu skript, Alltaris Blæiur ij. kierta stykur ij. af messíngu, kluckur iij. Munnlaugar ij. Tiolld vmm alla kyrkiu, Merki ij. Ellðbera, glöðarkier, Triekambur, Messubok tekur thil að Jolafóstu, og thil päska, að Dominicum. Ein Lesbök, kista olæst. Þar Er prestskylld. Tekur hann heima J leigu iiij merkur, vtanngarðȝ half fimtu mørk, af xi Bæjum lysistollur og heytollur. Kyrkia á Eina ku og hest. og c. vaðmala er Gunnar gaf. Tyund tali anno ccç. sex hundruð J vaðmälum. Stulli Geyrsson gaf thil lykneskis kaups. Gröftur og sälugiafer vmm oll þijng.

*Saurbæiar kyrkia.*

Kyrkia J Saurbæ er helguð Ceceliu meður Guði. Hun ä halft Hälȝ land, Halfann skog J Kallbak. Heimaland meður ollum friðendum. Valla land allt. Og Sandhöla land allt. Innann kyrkiu iii. messuklæði að aullu, iiij alltaris klæði, kaleykar ij. kantara kapur iiii. yfersloppar iiij. abreiðsl vont, Tiolld vmm alla kyrkiu, v. kluckur, iii krossar. Mariu skript. gloðarkier ij. Ellð-

bere, skrijn með helgum dömum. Texti buin, Sölarsteirn, iij. glergluggar, Jarnstyka mijkil og ii litlar. Messubækur ij per anni Ciculum. Martirologium, passionall. Apostolorum. Ceciliu saga ä lätinu og norrænu. Salltari forn, þionustu buðkur af sylfre, kietill, merki ij, Munnlaugar ii. Krisma kier, kistu läs, xxx merkur vax. og lijtið reikelsi. Hier skulu vera ij prestar og diakn, sijngia messu heijma huorn dag. Brenna Lios vmm nætur frä Marju messu og thil sumars dagʒ. Tekur prestur heyma J leigu, vi. merkur, vtanngarðʒ, half fimtu mork. Af. Ix. Bæjum lysistollur og heytollur. Tyund olokinn Ix. merkur. Graduale, processional, Alltaris Bok, seqventiubok Collectarius, legendu bækur per anni circulum, aspiciens Bök, Artijðaskrä. Þetta J kuikfie, viii. kyr, L. asauðar og vj ær, xx. sauðer veturgamler, ii Naut veturgomul og ij. kalfar, Uxi iiii vetra, iii naut tvævetur, cccc voru. ii. merkur J virðingarfie. x aurar J Bokum. Land allt ä Halse. Ceceliu lykneski og Nicholai. Dedicatio Ecclesiæ. iii. nottum eptir festum Matthei.

Djupadalʒ kyrkju máldagi er hjer máður og verður Eij lesinn.

*Myklagarðs Kyrkia.*

J Myklagarði er postula kyrkia, hun a J heijma landi xxx hundraða, vi alna aura, og blijðarhaga land. Þetta Jnnann kyrkiu, Messuklæði iij. kaleykur*. ij. alltarisklæði,** kantara kapa 1.*** yferhokull****. Tiolld vmm alla

---

*) Í B stendur kaleikar.

**) J B stendur „V“.

***) þetta orð vantar í B, en stendur þar út á röndinni með annarri hendinni.

****) bæði í A og B stendur orðið „lás“, en er dregið út aptur í báðum.

